# Tvisvar Siøfalldt
# Missera-Skipta-Offur,
Edur Fiortan
## Heilagar Hugleidingar,
Sem lesast kuña ad Fyrstu
Siø Døgum
## Sumars og Vetrar,
Til Gudrækelegrar Brwkunar,
Samañ skrifadar
Af Sr.
## Joone Gudmunds
Syne, seinast Preste i Reikiadal.

---

Seliast Almeñt Jnbundnar, 10. Fiskum.

---

Prentadar ad Hoolum i Hialltadal,
Af Petre Joonssyne,
Anno 1779.

# Stoor-Gøfugre og Marg-Dygdum giæddre Høfdings Kvinnu
# Helgu Brinjulfs Doottur,
## Konglegrar Majestatis Landþijng-skrifara a Islande
# Hr. Sigurdar Sigurdssonar,
## Elskulegre Egta Hwss-Frw,

Minne Hiartkiærre Velgiørda Moodur, Ofsa eg Underskrifadur, Nædar, Fridar og Gledelegs Sumars Af Gude Fødur, og DRottne vorum Jesu Christo med Stioornan H. Anda.

## Stoor-Gøfuga Høfdings Kvinna!
## Elskulega Velgiørda Mooder!

PAu Ord Postulans Pauls, sem skrifud standa i hanus Fyrrá Sendebrefs til Corinth. 7. Cap. v. 9. eru þess verd, ad Meñ hefde þau sijfelldlega i Huga og Miñe; Þau hlioodæ þannig: Pad sege eg ydur, kiærer Brædur, ad Tijmenn er stuttur. Postulenn kvedur so ad Orde: Pad sege eg ydur, hvar med hann vill gefa til

kynna

kÿñä ad þesse Ord: Tijmenn er stuttur, sien mikeð Eptertekta og Athuga verd, þvi med þeim bender hañ oss til ad taka Vara a oss fyrer allre Vanbrwkun Tijmans, æsamt Eggiar ad brwka so hvern Tijma, sem ætte hanñ ad verda vor sijdarste. Marger hafa opt og tijdum bored Umhyggiu fyrer þeim Tijmum, sem þeir mættu vita þo fyrer vijst ad ecke mundu yfir sig koma. Þvi skyllðu Menn þa ecke miklu helldur fyrer þeim, sem þeir bwast vid ad yfir sig muñe koma, so ad þeim mege bæde vel lijda, og þeir lijka kuñe vel vid Tijmann skilia, hvert sem fyrer kann ad falla. Eñ eckert er Adgiætnes verdara hiä Tijmanum eñ þad, ad hañ er Stuttur, og er opt wte fyrr enn varer. Margur kiemst so af, ad hann þarf ecke ad Sorga fyrer þeim Tijma, sem koma kann epter hañ lidenn. Enn fyrer Tijma sinnar Æfi og hanns Endalÿkt hliota aller ad Sorga. Moses a sijnum Døgum Jñelukte Tijma Æfinnar i nærsta þranngre Gyrdingu innann 70. edur 80. Ara, og þo eru þeir særster, er þeim Alldre na, þvi Æfiñar Sool geingur under hiä mørgum uñ Hæmiddege, Amos. 8. Gud giører nærsta vel i þvi sem ølln ødru ad hann stytter Tijmañ, þvi þar Mannesklann er so Ostioornanleg, þar hun veit þo ad Tijmeñ Æfinnar er stuttur, hvad munde hun vera ef hun visse hun fenge ad lifa so lenge sem Fedurner i Gamla Testamentenn, þa yrde sa Ogudlege eitt hrædelegt Skrijmsle i Ogudlegleikanum, villde nockur amminna hañ til Umvendunar, munde hañ segia nougu rwm Lijna være til Apturhvarfs; Sa Andvaralausi giæter alldrei, sem hæfir, hver Tijme yfir hann kiemur, enn sijdur þess ad sa Tijme, sem Umlidenn er wtheimter Ydran og Packlæte, enn sa i Hønd fer Vøku og Bæn. Takeð vara a Tijmanum seger Paull, Eph. 5. Þvi þad er vond Tijd. Hvad þa? Er Tijmeñ vondur i sialfum sier? Lángt fra, hañ er eitt su betsta

 Guds

Guds Gløf, þvi fyrer hañ ødlunst vier øll tijmañleg Giæde, og saluhialplega Þeckingu a þeim Eilijfu. Eñ a Tijmanum skiedur margt Vondt, og þvi kallar Paulus hañ Vondañ, eige af sialfum sier Vondañ, helldur af þvi Vonda sem a hønum skiedur. Þetta Tvent sañ Jacob ad Efi siñe; Faaer sagde hañ og Jller eru mijner Lijfdagar, Gen. 47. Þar eru Tveir Veger nærsta slioster; Þeirra Farvegur fiñst eige: Fuglarner laata eckert Spor epter sig i Loptenu, so seger Moses uñ Tijmañ, ad þad sie so sem Flwgenum vier þar i fraa, Psalm. 90. Eckert Spor fiñst helldur epter Skiped a Sioonum; So er Tijme Mañsins Lijfdaga; Þegar eiñ hefur vered, er sem hañ hefde alldrei vered, þañig eru Fleyrster. Tijmeñ er eins og Straumur sem reñur i Jørdena, hverium Meñ kunna ecke ad hamla, 2. Sam. 14. Eilijfdeñ er eitt Stødu-Vatn sem alldrei uppþornar nie wtreñur. Skuggenn a Soolskijfuñe geingur fra einu Strike til añars, þo ei siae Meñ hañ bæra sig. Tijmeñ lijdur fra einum Tijma-Mootunum til annara, fra einu Are til añars, fra einn Missere til añars, Meñ vita þad, eñ siaa ei nie fiña til hañs. Skuggeñ er nockud, þa Meñ siaa hann, eñ Tijmeñ fiñst ecke, hann er eiñ Draumur, Job. 20. Af hverium þa Nabogodonosor vaknar, er hann allur horfinn, Dan. 2. Eñ hvad giører nu vorn Tijma stuttañ? Allt þad sem Daudann ordsakar, stytter vorn Tijma, og allt þad sem stytter Tijmañ, ordsakar Daudann. Þar er engen sa Tijme til, ad Meñ hlioote ecke a hønum ad bwast vid Daudanum. So snart vier fæddunst so snart førum vier ad deya. So margar Svita-Holur sem eru a Mañsins Lijkama, so margar eru Dyr Daudans, þvi hlivotum vier ad adgiæta hvern Tijma, ad ei kome Daudenn yfir ofs i Otijma. Þvi er ecke eins hættad uñ Tijmann sem Flood og Fiøru,

sem

sa sem forsoomar hid fyrra Siœfarfall kann komast, i Land med þvi sijdara; Eñ a Tijmañ er ecke Ohætt ad Gitska fyrerfram, hvilijkur hann mune verda, hvert hañ mune yfir oss koma, eda hvenær hañ mune enda; Allra sijst a Tijma Nœdareñar: hañ, sem aller adrer Tijmar, eru i Guds Hende, og ecke vorre. Par fyrer sa sem vill brwka hinn betsta Tijma til Gudrœkelegra Hugleidinga, hañ brwke hañ sem yfirstendur. J Dag, J Dag, a medañ vier heyrum hañs Rødd, þa Forherdum ecke vor Hiørtu, Ps. 95. Sa Tijme sem nu er, er sa þægelege Tijme nu er Dagur Hiœlpræðesins, 2. Cor. 6. Segium ecke hier uñ eins og Landsdoomareñ sagde vid Paulum: Eg skal heyra þig þegar eg hefe betre Tijma, Act. 24. Ef vier hugsum ecke til Guds, a þeim edur þeim Tijma, kañskie vier fœum ecke fleyre Tijma. Pauls seger ad Tijmeñ sie stuttur, Jœ kañskie þo opt styttre eñ vier ætlum; Sœ sem ecke foor ad hugsa til Guds fyrr eñ i Dag, hañ hefur þad æred lenge undañdreged; Eñ sœ sem vill lœta þad bijda til Morguns, hañ er enn Heimskare, þvi kañskie hañ deye i Nott. Pad Ord a Morgun hefur þœ alla Sviked, er undann droogu osleinge ad taka Vara a Tijmanum. A þetta miña oss aller Tijmar, med þvi þeir taka aller Enda. Morguneñ miñer oss a Enda Nætureñar, Kvollded a Enda Dagsins, Vetureñ a Enda Sumarsins, og Sumarkomann a Enda Vetrarens. Pvi hefur þad vered, og er enn nu allra Guds Barna Hœttur og Venia, ad taka fyrer sig Gudrœkelegar Hugleidingar, vid hver ein Tijma-Moot, og minnast med Ydran og Þacklæte a undañfarna Tijd, eñ med Bæn og Andagt a þa epterkomande. Hvad mun þvi vallda, ad þau hallda fast vid þenañ Vana? Pad ecke sijdst, ad þau vita ad Tijmeñ er stuttur, og tekur fyrr Enda enn varer, eñ su Tijmalausa Eilijfd

 tek-

tekur vid, at hverre Meñ munn Uppskiera þad þeir i Tijmanum nidursæidu, under hana eru þær Forsialu Jomfrurnar alltijd ad bwa sig; og þvi taka þær Vara at þeim Tijma sem Brwdgumeñ kiemur, Matth. 25. Meñ lata ecke Vatned renna fram hia Heimile sijnu til leingdar, so þeir hafi ecke Gagn af þvi um leid. Guds Børn lata ei Tijmañ slivota so til leingdar fram hia, allra sijdst Tijmaña Umskipte, ad þeir ecke um leid bere Athuga fyrer sinne og sijna Velferd, bæde Lijkamlegre og hellst Andlegre med Ugg og Otta, Phil. 2. Þau vita ad ef þau med Gudrækelegum Hugleidingum byria þa Nyu Tijmana, þar sie þau i Vegeñ bæde fyrer sig og sijna þvi, er þau at heim i Hønd farande Tijmum vilia Uppskiera med Blessun og Farsælld. Og þesse er Meining Postulans, er hann seger, Gal. 6. Giøred Gott þa Stund þier hafid Tijmañ, so þier at sijnum Tijma Uppskerid aan Aflaits. Þau forsooma eckert Tækesære sem þeim giefst ad minnast undañfareña Guds føderlegra Velgiørninga med Þacklæte; og sijna Synda med hiartanlegre Jdran. Þau lata engeun Umskipte Tijmaña so hia hlaupa, ad þau ei med Bænarfullre Hiartans Upplyptingu i Himeniñ, sæe ecke þeirre Blessan i Vegeñ, er þau seiña meir vilia Uppskiera bæde i Tijmanum og Eilijfdeñe epter Tijmañ.

Þessara Ordsaka vegna er þad losleg og christeleg Venia gudhræddra Hwsbænda, ad brwka þa Lestra i Hwsum sijnum, sem hlijda vel uppa þar edur þa Tijma, sem yfirkoma og fyrerfalla; Hveria og i vorum Postillum er ad fiña, og heiløgum Tijmum hellst vidvijkia. Eñ i Jñgaungu edur Utgaungu Sumars og Vetrar, veit eg ecke til vera hentugañ Lestur, ad frateknum Misseraskipta Predikunum Sal. Meist. Biørns, sem þo ecke eru i hverin Hwse, og ei hafa vered at mijnu Heimile. Þess vegna hef eg teked

mier

mier fyrer Hendur ad Samanſkrifa Heilagar Hugleidingar, ſem leſaſt kunna a Fyrſtu Siø Døgum Sumars og Vetrar, mier ſialfum og mijnu Hwſe til Uppvakningar.

Enn þegar eg opt og tijdum var ad hugſa um med ſialfum mier, hverſu ad þier, Stoor-Gøfuga Høfdings Kvinna! ſo Stoorum og Ydugleg a høfdud bæde mier og mijnum til Gooda giørt, og þeckti mig þann allra Olijklegaſta til ad lata med Verke a-ſañaſt, hvert eg bære þecking a, edur villde muna hv-ad opt þier hafid riett mier ydar Hiaulpar Hønd i mij-num Vidløgum, þa vard ſu mijn Alyktun, ad eg ſkyl-de til lijtillrar þacklætes Miñingar fyrer Ydar mier margbevijſadar Goodgiørder, Tileinka ydar Dygd-Edla Kveñpriide, þeſſar Einfølldu Hugleid-ingar, hvad eg og nu dirfiſt ad giøra med þeſſum fau Ordum. Og þo eg þecke vel ydar Hoogværd og Giedgiædſku, þa ma eg þo fyrerverda mig, vegna mijns Eymdar Stands og Veſlingsſkapar. Enn-þegar eg lijt til þeſs, ad eg er þvi alkuñugur ad þier og ydar Hws viiſed Pivona DRottne, Joſ. 24. og med ydar Aſtvinum ædre og lægre erud alvanar ad gyrnaſt þeirrar heilſuſamlegu Miolkur Guds Orda, 1. Pet. 2. Styrkeſt eg i þeirre Von, ad þier munud ecke Reid-aſt mier, þo eg Tilreinke ydur, framar nockrum ødrum, þeſſe Einfølldu Guds Ord, ſo ſem Teikn til þeſs, ad eg þecke mig ydur um alla møgulega Þienuſtu marg-ſkylldugañ, þvi eg vil þar um ſegia ſem Petur fordum: Gull og Silfur heſt eg ecke, eñ þad eg heſt af DR-ottne medteked, þad gief eg, Act. 3. YDAR gudrækelegt Lijfslynde hefur ei Illa uppteked, þo eg hafi ſtundum ſijnt Ydur nockrar Lijnur i bundeñe Ræ-du, þvi hugga eg mig vid þa Von, ad Þier muned la-ta þeſſe Obundnu Ord fa ſømu Vidtekter. Og þar ed nu er nalæg Umſkipte Tijmaña, Ending

Vetrar

Vetrarens, eñ Uppbyrjun Sumarsins, þvi villda eg þetta litla Verk fenge ad heita ydar S u m a r - G i ö f.

Enn hañ, sem er Sool Riettlætesins, DRottenn vor JEsus Christur, láte nu med upprennande Soolu hinns Nya S u m a r s, upprenna yfir ydur og øllum ydar Stoor Gøfugum Ástvinum sijna blessada Ástar og Naadar Sool, sem alldrei Formyrkvest nie Undergainge, helldur æ þvi fegur skijne sem þier og aller ydar nálægest meir þad Eilijfa S u m a r Dijrdarenar, hvar þier munud siálfar skijna sem Sool i Rijke ydar himneska Fødurs. Þess Óskar af Einlægum Hug og hreinu Hiarta

Y d a r
Dygd-Ædla Kvesprijde

Reikiadal. D. 20. Apr. 1768.

Alls Goods ærnande Fyrerbidare til Guds
Joon Gudmundsson.





# Siø Hugleidingar

sem lesast kunna i Inngaungu Sumars.

## Inngangurenn.

Gen. 1. v. 16. og Cap. 8. v. 22.

OG Gud giørde þau tvø stooru Lioos, þad stærra Lioosed ad stioorna Degenum, og þad minna Lioos ad stioorna Noottunne og Stiørnurnar. So lenge sem Jørden varer, skal Sæd og Kornskiera, Frost og Hite, Sumar og Vetur, Dagur og Noott ecke þverra.

LOF og Heidur, Prijs og Æra sie eilijfum og odaudlegum Gude Fodur, Syne, og heiløgum Anda, sem af einskiærre Foðurlegre Nææd og Mylkun sinne hefur lided oss under sinne alvijsu og giædskurijku Stioornan inn til nææægs Tijma, og giefur ad vier med Glede og Fognude yfir hanns nææðarfullre Forsioon og Fyrerhyggiu, sæum ad nioota þeirrar Unadsem-

dar, ad sicc enn þcc yfir oss upprenna eina fagurt lysande og blessada Sumar-Sool, cc þessum fyrsta Sumardags Morgne: og þar ometannlegar Velgiorder DRottens, bæde þær sem hann hefur veitt oss cc umlidnum Vetre, og þær sem hann hefur tilbwed og fyrerhugad ad veita oss cc epterkomande Sumar-Tijma, eiga ecke med Vanþacklætesfullre Þagmælsku ad medtakast; Þvi þike mier ecke einasta Lystelegt, helldur og einnenn Gagnsamlegt, jcc, Omissande ad lccta med þeirre nyupprunnu Sumar-Sool, upprenna i vorum Hiortum heilagar Hugleidingar til Þacklætes fyrer DRottens umlidnar cc̄striikar Velgiorder, og til þess ad upporfa þess giædskuriika Giafarans elskusulla Fodurs-Hiarta ad framhallda þvi sama vid oss; Somuleides til þess, ad oss mættu þeir epterkomande Tijmarner, þvi helldur Blessast og Farsælast, sem vier uppbyrium þcc med meire Gudrækne og Þacklæte, til vors DRottenns og Skapara. Skulu þvi i Nafne DRottenns vorar heilagar Hugleidingar festa og Grundvalla sig hellst cc þeim Ordum Textans er Sumrenu tilheyra, so sem þessum: Sumar, Sool, Dagur, Lioos, Hite, Grøs, Regn.

O þu blessada Sool þess eilijfa Sumars, upprenn þu nu sicclfur yfir Sálum vorum i þijnu Orde, og gief ad þesse Ræda verde þier ein þægeleg Sumar-Giøf; Og eins og Soolen dregur ad sier

Vok-

Døkvann af Jørdenne, so drag til þijn frá vorum Hiørtum ydrunarfullann Bænar og Þacklætes Døkva. Bænheyr þad fyrer þijns blessada Nafns Saker, AMEN.

# 1. Hugleiding,

## Af Sumrenu.

Luc. 21.

SKoded Fykin-Tried, og øll onnur Trie, nær þeirra Alldin tekur wt ad sprijnga, þa vited, ad Sumared er nalægt.

HAD hÿ upprunna Sumar, skyllde uppvekia i oss nijar Hugarens Hræringar til Andagtar og Gudhrædslu. Blessadur sie DRottenn Zebaoth, hver alleina giører furdanlega Hlute! Þad hélld eg vijst, ad eingenn hafe aflifad hryggelegre Vetur enn Riettlætes Predikarenn Noe, og hañ hélld eg fegnastann hafa orded Sumrenu. Hanñ var um̃ Veturenn inneluktur i Ørkenne, vitande ei neitt hvert hrekiast munde, øllum Kunningium og Astvinum, utann Sjø, sviptur, horfande a þad hrædelega Sträff DRottenns yfir allre Verolldu, flækiandest innann um̃ Bylgiur og Boda þess Ognarlega Synda-Floods i Stór-

mum og Striidvidrum. Þad var hryggelegut Vetur, Vetur Eymdar, Harms og Freistingar, Gen. 7. v. 7. Enn frelsadur og wtgeingenn af Orkenne, byriade hann med stoorre Hugar = Kiæte eitt gledelegt Sumar. Þess vegna uppbyggde hann DRottne i Sumar-Giøf, Eitt Þacklætes Alltare, Offrande honum audmiwkre Lofgiord. Byriun nu med sama Hætte þetta blessada Sumar i JEsu Nafne! Vier hofum ad sonnu ecke æ allar Siidur vered umgyrdter med Hormunganna Floode, edur alldeiles vered innelukter i Ork Angistarennar, edur Harmkvælanna, samt hofum vier þo ecke aller vered alldeiles æn alls Mootlætes, so ad kannskie sumer af oss hafi þo hast Ordsok ad klaga og kvarta med David : Æ! DRottenn, þu mettar oss med Harma Braude, Ps. 80. v. 6. Enn losadur sie goodur Gud, bæde fyrer bliidt og striidt, ad hañ temur vort giæliisa Holld mz einum og odrum Mootblæstre; Enn fræ hvad morgum Raunum, Skada, Freistingum og Mootlætingum hefur DRottenns millda Hond frelsad oss? Þad veit hann siælfur betst, þad sæum vier alldrei fullþackad; Þvi vier meigum nu med Noa Sigre hroosa yfir ollu Vetrarens Anstreyme, og glader taka æ moote Sumarsins blessadre Bliidu fyrer Næd DRottenns; Þvi er skylldt ad vier med Noa uppbyggium eitt Þacklætes Alltare. Af Fioorum Hælfum

hefur

hefur DRottens Naadar Straumur yfir oss flo-
ted. Af Himnenum, hadañ eru þær andlegu
Gaafurnar. Af Loptenu, hadañ er Temprun
Vedurœttunnar. Af Jørdunne, af hennar
Avoxtum hofum vier og vorar Skepnur lifad;
Og af Sioonum edur Vøtnunum. Fiogur
Ollturu skulum vier þvi uppbyggia DRottne,
og a þeim Offra vorum Sumar- Giøfum
til hanns.

1. Hid Fyrsta heiter Ydrunar Alltare. Laa-
tum oss reka Minne til med hvad margfølldu Mo-
ote vier hofum a umlidnum Vetre Gud styggd-
ann, og broted a moote hanns Løgmaale bæde
vitanlega og ovitanlega. Hver sem villde
sier i lage Hugleida, hvad þrønglega, hvad opt,
og med hvad mørgu Moote, hann hefde Gud
styggdann um̃ einn Dag, a hverium hin̄ Rett-
laate fellur Siøsinnum, hvad opt þa hinn At-
hugalause, hvad opt hinn Ranglaate um̃ heillt
Missere? O! vertu oss Naadugur lifande Gud,
og hefn þu ecke a oss, a epterkomande Sumar-
Tijma þess sem vier hofum þig med moodgad-
a umlidnum Vetre. Vier jaatum vor Afbrot,
og drøgum ecke Dulur a vorn Misgiorning.
Þu gafst oss Hiarta til ad Elska þig, enn vier sne-
rum vorum Kiærleika til Heimsins holldlegra
Gyrnda, og hiegoomlegra Hluta. Þad er sia
mesta Hiartans Raun, þegar sa sem eg vil Elska
foragtar edur hatar mig; Þetta hefur þu þo, O!

millde Fader, meatt af oss reyna; Þu hefur boded oss Fadmenn, enn vier hofum snwed vid þier Bakenu: Þu gafst oss Twngu til ad lofa þig, og tala um þijnar Dmasemder, enn hverſu opt hofum vier þad forsoomad? Enn aptur ꝏ moot illa og Ogudlega talad, skamarleg Ord, og fijſlegt Hial, sem Christnum soomer ecke. Þu gafst oss Hendurnar til ad giora þad sem gott var, þier til Dijrdar, enn oss og Naunganum til Þarfa; Enn, o! þu riettlaate Doomare! Hverſu opt hafa þær hreist sig til ad giora hid Illa, þvi hinu sama af stad komed, enn vered Latar ꝏ hid Gooda. Sama er ad seigia um alla adra vora Lime og Skilningar-Vit. O! hverſu margfolld Vanbrwkun ꝏ DRottens Velgiorningum? Vier skomunst vor ad uppreikna vora Klæke, vier blygdunst ad framtelia vorar Illgiorder; So eru þær vidurstyggelegar! Vier orkum ei ad samannreikna þær, þvi þær eru fleyre enn Sandur ꝏ Siaſar-Strondu, edur Hærenn ꝏ Hofde voru. Og hvad skulum vier hier til segia? Skulum vier þꝏ i Syndunum bliifa so ad Naaden yfirgnæfe? Fiærre sie þvi; Vier heyrum eitt Hroop, og þad er þijns Sonar Raust, O! HErra Gud! hann kallar og seger: Komed til mijn aller þier sem Erfided og Þwnga erud þiader, eg vil endurnæra ydur, Matth. 11. Item; Hvern þañ sem til mijn kiemur, skal eg ecke burtreka, Joh. 6. Ja giarnann og fegner komum vier, Herra JEsu!

Vier

Vier komum bliwger og kleckver, angraader og hrellder, underþryckter af þwnga Syndanna, og hrædder fyrer Reide þess sem a Stoolnum situr, og fyrer Reide Lambsins; Vier leggium vora Jcatning fyrer þijnar Fætur, og segium: Fader! Vier høfum syndgad i Himeneñ og fyrer þier, og erum ecke verduger ad kallast þijn Børn, Luc. 15. Þvi beigium vier nu Knie vorra Hiartna, og bidium þig um̃ Naad: Gud vertu oss Syndugum Lijknsamur: Myskuna þu oss. O Gud Fader. Myskunsemdanna, kasta oss ecke fra þijnu Auglite! Þvi Syndugre sem vier erum, þvi stærre er þijn Naad ad þu fyrergefir oss; Enn vilier þu oss ei alijta, þa alijttu þo þinn elskulegann Son; Er hann ecke sa sem betalad hefur vora Skulld, og lided Kvøl og Dauda fyrer oss, Es. 53. Heyrdu hann nu a Himnum fyrer oss bidiande, þu sem Bænheyrder hañ a Krossenum andvarpande; Hanns Under eru vor Læknisdoomur, vort Hæle og Frelses-Stadur: J þær vilium vier a þessum fyrsta Sumar-Degi innflija, og i þeim a ollu þessu Sumre lukter vera fyrer Trwna; Þadañ skal oss hverke draga Diofulleñ nie Logmalsins Bølfan. JEsus er vor Endurlausnare, honum einum vilium vier andganga; Ecke muntu, O lijknsame Fader, vor hanns Undum under Straffed oss naudugur draga. Vier huggum oss vid þijna Naad, og af Naadeñe framkomina þijns Sonar Forþienustu,

af hanns Forþienustu framkomna Nꝏdar-Pre-
dikun Evangelii, og af Evangelio styrkest vor Trw
og Von um̃ Fyrergiefning Syndaña af þiñe
Hꝏlfu, oss aumum og vesælum til Handa. Þetta
er sꝏ Ferþætte Streingur, med hverium vier ætl-
um oss vid JEsum ad festa og binda, so vid hon-
um alldrei sleppum. Leita þu sialfur ad oss, O
JEsu, þijnum tijndu Saudum, þvi þu ert send-
ur til fortapadra Sauda af Hwse Jsraels. Vier
erum af Jsraels Hwse, ef ecke ad Fæding ar Rett-
enum, þa þo samt ad Oska Barna Riettenum,
leitadu þvi ad þvi tijnda, og ber heim þad tapada.
Vier mænum sem adrer Rackar uppa þitt Mys-
kunar Bord, lꝏt falla ofann til vor ef ecke heillt
Braud, þa þo Mola þinnar Myskunar, og seig
til vor: Verde yckur sem þid vilied, vered
Hughraust mijn Børn, yckar Synder eru
yckur fyrergefnar. Jeg hefe yckar Synd i burt-
teked, alldrei skal eg yckar Synda ad Eilijfu miñ-
ast, med eilijfre Nꝏd og Myskun vil eg yckur
Myskuna. O! vor Gud, himneske Fader Mysk-
unsemdanna, og mikellrar Þolenmæde; Vertu
oss ollum Nꝏdugur og Myskunsamur. O! Je-
su Christe Guds Son, þu sem vakter Ungmeñed
af Dauda med einu Orde, Luc. 7. Uppvek oss
og Endurlijfga dauda i Syndunum. Vijsa oss
nu a V g Nꝏdarennar under eins og vier gaun-
gum a V:g nijrra Tijmanna Umſkipta, og seig
til vor: Fared aller i Fride, minn Frid gief eg

ydur, minn Frid læt eg hiaa ydur; gief oss øllum þin Frid. O! þu H. Ande Hiaalpeñ trw, Huggarenn allra berste: Innsigla þu i vorum Hiortum og Samvitskum þessa Naad, uñ Syndaña Fyrergiefning, helga þu vor Hiortu, so vier verdum hæfileger til ad taka aa moote DRottens Naadar Velgiørningum og blessudum Sumargiøfum, og gior þessa vora Ydranar Foorn ylmande af Jurtum saññar Gudhrædslu, og lifande Trwar, so hun verde vorum Gude þægeleg fyrer JEsum Christum.

2. Uppbiggium nu i annaun Maata eitt Lofsgiørdar Altare edur Þacklætis Altare. Æ, hvad margt og miked hefur þu, DRottenn minn, oss til gooda giørdt! Hvad dijrmætar Velgiørder oss i Tie laated aa uñlidnum Vetre, þu sem maattugur ert, og þitt Nafn er heilagt! Þad er Omøgulegt upp ad reikna, og þo nockur kynni ad reikna til einnrar Suñu, hvad mørg Sandkorn væru aa Siaafar-Strøndunne, hvad mørg Græs aa Jordunne, og hvad marger Dropar i øllum Sioonum, þa kyñi hann þo alldrei ad telia hvad margar, edur ad meta hvad mikils verdar þijnar Velgiørder hafa vered, sem vid oss hafa framkomed bædi i andlegann og lijkamlegann Maata; Þu hefur endurnært vorar Saaler aa þijnu blessada Lijfsins Orde, mettad þær og dryckiad med Hollde og Bloode þijns elskulega Sonar, uppliijst oss med þijnum H. Anda, og fyrergiefed oss O-

telianlega margar og þwngar Synder; Þifner H. Englar hafa sett Herbwder i kriijngum oss og alla vorá, oss til Verndar og Forsvars. Þu hefur geymt oss bæde og allt vort i Fride, so vier meigum þad játa, ad þad sem vier afhendtum under Þijna Geymslu þa Pętureñ kom, þvi so sem skilar þu oss nu aptur med Inngange Sumarsins, sumu jafngoodu, sumu med Avexte margfelldum, og meire Blessan, og ef vier hofum nockud misst af þvi þu oss um Stund lænader, þa hefur þu giefed og munt vissulega giefa oss annad betra. Fra hvad mørgum Hæſkasemdum Lijfs og Sálar hefur þu frelsad oss? Diofulsins, Heimsins og Holldsins samt allra vorra Ovina Vijgvielum hefur þu burtsnwed fra oss. Hver vakti yfir oss þa vier svafum? Þu Israels Verndareñ, hvern ecke sifiar. Hver vøkvade oss þyrsta? Þu Brunnur allrar Giædsku. Hver sadde oss hwngrada? Þu sem ert þad himneska Lijfsins Braud. Hver klædde oss nakta? Þu sem giefur þijnum Bornum Mottul Riettlætisins og Klæde Hialpræisins. Hver giætte vor, so vorar Fætur skriddu ecki til Skada? Þu sem ert Vegureñ, Sañleikureñ og Lijfed. Hver vaktade oss, so vier urdum ecke Brád þess helvitska Ulfsins? Þu sem ert sá blessade Hyrder Saudanna. Iá, hver ummwrgade oss á allar Sijdur so enginn Olucka hefur oss nie nockurt vort fordiarfad? Enginn utann þu alleina þu elldlege Mwr og Adskilnadur

millum vor og allra vorra Ovina; Og hvad vil eg leitast vid ad upptelia þad, sem alldrei verdur taled? Bæde Heilsu og Heilbrygde Lijkama vorra, gooda og glada Samvitsku, Vellijdan vorra Astvina, og yfer allt ad segia, þa hefur þu, O, vor goode Gud, breidt þinn Fadm wt yfer oss æ allar Sijdur, æ ollum Stundum, i ollum Stødum, yfer oss alla med allre Giædsku. Hvad skulum vier þier nu endurgiallda fyrer allt þad gott, sem þu hefur giort oss? Hvad æ Snaudur fyrer ad giefa? Þo vier villdum giefa þier Himin og Jord med ollum þeirra Giædum, þa være þad þo oflijtid, og þar til er þad eige vort, helldur þitt eiged. Kalfa Vara vorra, Lofgiørd og Þacklæte, ættum vier aptur i Tie ad læta, bæde med Hiartanu, Ordunum og Verkunum: Ordin eru til alls fyrst. Lofadur og blessadur siertu eilijfe Gud og himneske Fader fyrer þijna Vernd og Vardveitslu, og nædarfulla Stiornan yfer oss, i ollum þijnum Verkum og Dædsemdum. Lofadur og blessadur siertu Herra JEsu, hellst fyrer þad, ad þu hefur oss endurleyst, og trwlofad þig oss i Nad og Myskunseme, i Riettlæte og Doome; Blessadur siertu fyrer øll þau Lijknar-Malenn, er þu hefur lagt oss vid þinn himneska Fodur. Lofadur og blessadur vertu, O, þu goode heilage Ande, fyrer þad þu hefur oss endurgieted, uppliist og helgad. Hættlofud og blessud siertu, O, þu dijrdarfulla Prij-Eining, fyrer Giæde Sælarenn-

ar, med hverium þu hefur hana begæfad, fyrer Giæde Lijkamans, med hverium þu hefur hann miøg dœdsamlega prijddann, fyrer Giæde Luckunnar og Farsælldarinnar, med hverium þu hefur ofs audgad. Fyrer bæde andlegar og lijkamlegar Ástgiafer, lofe þig allt hvad til er a Himne og a Jordu, allt hvad andad fær, lofe DRottenn. Gief ofs Nœd til ad þacka þier so i Tijmanum, ad vier fæum eilijflega ad þacka þier a þvi himneska Dyrdar Sumrinu, Amen.

3. Þad þridia Altare sem vier skulum uppbyggia, er Hlijdninnar Altare; Þar a skal offrast þad Hiarta, sem hefur fullkomenn Ásetning til ad bæta sitt Lijferne, og betur ad lifa. Hlijdne er betre enn Offur, sagde Samuel: Ef vier vilium vita hvad Omissande er, ad offra þessu Offre, þa vitum fyrer vijst ad eckert duger Ángur fyrer Synderner, og alldeilis er Truen dand, nema þar komi til Nij Hlijdne: Enn hun er ecki helldur enn annad gott i voru Vallde. Þess vegna flijum vier enn a nij til þijn, O, þu lijknsame goode Gud, skapa þu i ofs hreint Hiarta. Bu þu þetta Offur til Handa sialfum þier, kridda þu þad med Sætleika þijns Ords og Anda, so þess Ylmur lukte þvi betur fyrer þier; so sem þu ert riettlatur til ad straffa og myskunsamur i ad fyrergiefa, so ertu og mattugur ad endurnija. Margt er þad i voru Fare, sem Lagfæringar vid þarf, þu veitst øll Fylsne Syndanna, tilbyrg þu

þau,

þau, enn kasta þeim a Bak þier aptur. Vier kvijdum fyrer þvi, O Drottenn, ad vier munum enn þaa Onijta þaa Kvittun Syndanna, er vier af þinni Naad so opt þeged hofum, med þvi ad ydka og æfa somu Illgiorder a epterkomande Sumre, a hverium vier hofum þo Kvittun feinged, og Uppgiof a þessum Dege. O hvad Ovidurkvæmileg Synd er þad, ad burtkasta þvilijkre Sumargiøf, sem er Fyrergiefning allra undannfarenna Synda! Vardveittu oss, O! Gud, fraa þvilijkre Hrøsun, og styrk oss i þvi goda Verkinu. Vier gyrnunst ad geyma þitt Logmaal, giefdu oss þvi þad Sinni, sem þig riettilega þecke, þad Hiarta, sem þig heitt elske, þann Vilia, sem þier fwslega hlijde, þaa Tungu, sem þig yduglega lofe, þau Augu, sem yduglega upp til þijn horfe, þær Hendur, sem þier þægeleg Verk framkvæme, þær Fætur, sem a þijnum Vege gaange, þau Eyru, sem þitt Ord liwflega og med Epterteckt heyre, þann Lijkama og þaa Saal, sem sig flecklausa geyme, fraa Verolldinne, Dioflinum og Syndenne, ja þaa Saal, i hverre engin Fordæming sie, helldur sie i Christo JEsu, so Christur bygge edur bwe i henne fyrer Trwna. O hvad mættum vier daglega dansa og leika af Fognude, ef vier giætum þannig lifad, þannig frambrunad vort Lijffins Skeid, og þannig Dioflinn og alla vora Ovine under Footum trodet. Burt, burt, þier Saalnanna Svikarar

arar, Disfull og Heimur, þagna þu og vert kyrr þu gamle Adam, þu giœlijsa Holld og Blood, vier ætlum nu ad þioona DRottni trwlega, þvi vier erum DRottins, enn affegium ydar Þioonustu. Vijke nu allar Holldsins Gyrnder, þvi vier hofum Ydran giordt. Þetta ad giora, þad er vor Vilie, O þu millde Gud, enn þad ad fullkomna, þar til legg þu oss Lid og Krapta. Nu so sem þitt Riettlæte hefur upporfad hiœ oss Ydranena, þijn Myskunseme Trwona, so lœt þitt Almætte verka i oss Hlijdnena. Þeim riettlœtasta, myskunsamasta og almœttugasta Gudi sie Lof og eilijf Þackargiord. Þu DRottinn lletst oss Synndernar þeckia, þvi þu ert Riettlœtur, þu fyrergafst oss þær, þvi þu ert Myskunsamur, og þu endurnijader oss, þvi þu ert Almœttugur. J frœ Uppgaungu Soolarinnar allt til hennar Nidurgaungu sie lofad Nafned DRottins!

4. Þad Fioorda Foornar-Altared vort er Bœnar-Altare: þess er æ meire Þorf þvi heitara til DRottins ad andvarpa, sem þesse Verolld tekur æ meir og meir til Horns ad hnijga, og þvi meir sem Tijmenn lijdur, þvi nœlægare erum vier Ending vorra Lijfdaga. Hver af oss veit, hvort hann muni af-lifa þetta Sumar? Er þvi betst ad bwa vel um sijna Hage. Allt gott hliootum vier til DRottins ad sœkia, um allt naudsynlegt eigum vier þvi hann ad bidia. Þess vegna flijum vier enn þœ œ þijnar Nœder, O þu Brun-

ur allrar Giædsku, og vilium gyrda fyrer alla þaa Olucku, er annars kynni uppaa ad falla, og wtbrynia oss fyrer eina andrijka Bæn med Hiꝛalpræde þijnu aa allar Sijdur. Þvi bidium vier þig audmiwklega, O! Fader allrar Myskunar, myskuna þu og blessa oss, upphef þitt Andlit yfer oss, og gief þinn blessadann Frid allt i kringum oss. Vardveit oss med Herskveitum þinna volꝛdugu Engla. Giæt þu sialfur alls þess, sem þijn Giædska hefur oss epter laated, blessadu og dryg du alla vora Biorg og Lijfs-Næring, so hun aa nægianleg verde, bæde fyrer oss og vora. Vardꝛveittu øll vor Efne fraa allre Oblessan, enn legg yfer bædi oss og vora, samt yfer øll vor Efne og Erfide þijna margfallda og naadarrijka Blessan. O JEsu Christe, þu einaste Lausnare og Saaluꝛhiaalpare, vardveit þijna Christne, samannsafnaþijnu Foolke, vokva og planta þinn Wijngard, so þitt Nafn verde þvi fremur helgad, so þitt Rijꝛke eblest, þinn Vilie framkvæmest, so aa Jordu sem aa Himne, og þitt Blood hrijne aa þeim Sofꝛnude, hvern þu hefur endurleyst med þijnu Blooꝛde til eilijfrar Farsælldar. O! Þu H. Ande, sem ert Uppspretta til alls Fridar og Rooseme, innhell þeirre riettu Samvitskunnar Rooseme i vor Hiꝛørtu, vardveit oss i saaluhiaalplegre Þeckingu þess himneska Sannleika, og innsigla oss milldilega þaa himnesku Naad og Myskun DRottins. O! Þu volldugа og blessada Þrij-Eining, blessa og

vardꝛ

vardveit nædarsamlega Kongenn, og øll riett-chriſtenn Yfervølld. Vardveit oſs alla ä Sæ-lu og Liife, ſnw frä oſs Hallære og Hwngre, Drepſoottum, Striide, Ofride, og Ellds-Bru-na, ſamt øllum Häſka og Olucku. Gief Heilſu og Heilbrygde, gief Vellijdan Aſtvinanna, gief hagſtæda Vedurättu: Gief änægiannlegann Avoxt ä Jordina, og good Not þeſs ſama A-vaxtar. Gief oſs Näd og Frid: Auktu i oſs Tr-wna, ebl med oſs Kiærleikann, gief oſs ad lifa goodum, laſtvørum og rooſomum Lifnade, med allre Gudrækne og Sidſeme.

Umfram allt, gief þeim, ſem ä þeſſu Sumre burtkallaſt fyrer tiimannlegann Dauda, ad þeir ſieu vel vidbwner, ſvipt eingum af oſs i burt ad hälſnudum vorum Liif-Døgum, eingum i þinne Reide. Vardveit oſs frä Meidſlum og miög haſtarlegum edur Ovidkunnannlegum Dauda, enn gief oſs farſælann og fridſamlegann Dauda og ellijfa Sumar-Sælu med þier i Himnarijke. Medtak nu i Näd, O! þu giædſkurijke Fader, þeſſa vora Sumar-Giøf, og wtdeil oſs aptur þinne margfalldre Bleſſan til allra vorra Athaf-na og Utriettinga O! JEſu, gief oſs þig ſiälf-ann i Sumar-Giøf og þijna Forþienuſtu. O! H. Ande, gief oſs þijna Helgun, Upplijſing, Hugg-un og Aſtgiafer allar i Sumar-Giøf. So be-folum vier oſs med øllum vorum Aſtvinum, Egta-mokum, Børnum, Hiwum, Näungum, Hws-

unj

um, Heimilum, Gootze, Skiepnum, Ordum, Athøfnum, Aforme og Utriettingum i naadarryka Vernd og Forsvar Guds Fodurs; Sonar og H. Anda, i Voku og Svefne, a Nott og Dege, i Medlæte og Mootlæte, i Sorg og Glede, i Lifi og Dauda, allt inn i þad eilijfa Dijrdar og Fagnadar Sumared annars Heims. Sie Nafned DRottins JEsu Christi blessad fra Eilijfd til Eilijfdar, Amen.



# 2. Hugleiding, af Soolunne.

Psalm. 113.

Fra Uppgaungu Soolareñar, allt til hennar Nidurgaungu, sie lofad Nafned DRotteñs.

Ar er engeñ Hlutur so dijrmætur til a Himne eda Jordu, ad Gude hefe þookt hann ofgoodur fyrer Mannskiepnuna. Joseph dreymde ad honum þookte Sooleñ Tunaled og allar Stiornur lwta sier, Gen.37.v.9. Sooleñ er sw fegursta af øllum Guds synelegum Handa-Verkum, hennar Sæte er i þeim hau Himnum, þo lwta hennar Verkaner nidur til vor ofann a Jordena, oss til Gagns og Nytsemda. Ja, so fogur sem hun er, þa lætur DRotteñ hana þo lij-



sa

ſa og renna yfir oſs, ſo vonder og ranglater ſem vier erum, eins og yfir hina goodu, Matth. 5. Þegar Joſua hæde Bardagann vid þa Fim̃ Cananita Konga, þa liet Gud fyrer hanns Bæn Soolena og Tungled ſtanda kyrr, þangad til hañ hafde uñed Sigureñ, Joſ. 10. Sa mædde Ferdamann, ſem a ad ſtrijda vid ſtyrda Vedurætt, verdur næarſta fegenn, þa Soolena ſier. Eins lijka, þa Dyñvidren ganga, verda Menn glader, nær fra Soolenne hefur, ſo hun er þa ſo ſem i hvertſinn nij og ferſk. JEſus vere oſs i Dag og a ollu þeſſu Sumre, ein bleſſud Sumar-Sool, ſem alltijd ſtadnæmeſt og hvijleſt yfir oſs, og hia oſs, hvert helldur vier reynum Moodvidre Hormunganna, edur Hretvidre Freiſtingaña, og giefe oſs a þvi ollu ſarſælañ Sigur ad vinna. Moſis Hendur mædduſt ecke allt til Soolarlags, þa hann var ad bidia med þeim upplyptum til DRottenns, þviad Aaron og Hwr ſettu Steina under þær, Exod. 17. v. 12. DRottenn JEſus, ſem er Kennemadur ad eilijfu, og einn Himneſkur Hyrningar Steinn, ſtyrke nu vorar Bænar-Hondur til ad bidia, ſo heitt bæde fyrer oſs og odrum, ad vier verdum bænheyrder, þvi DRottenn munu Menn ottaſt ſo leinge ſem Sooleñ og Tungled vara, ſeger David, Pſalm. 72. Fyrſt vor goode Gud veiter oſs þa Naad, ad meiga enn þa ſia eina nij upp-runna bleſſada Sumar Sool, þa ottuſtum med Sonarlegum Otta hañ

bleſſ-

blessada Soolareñar Konung. Hu veldur hvi ad Soolen og Tungled hafa siñ vissañ Gang, seger David enn aptur, Psalm. 74. Lærum þad af þessum bædum Himensins Liosum, ad hafa vorn vissann Gang æ Veige DRottens Bodorda, æ Veige Dygdanna og Mañkostaña, so þo þad kunne skie, (sem þvi verr fyrer er ad ottast) ad Sool vorrar Gudhrædslu kunne under ad gæanga, æ efterkomande Sumre, fyrer Otilheyrelega Hrøsun i Synder og Leste, þæ siæum til hun yduglega aptur upprenne, fyrer vokvafullañ Morgunroda sannrar Jdrunar; Þegar Soolenn skeyn heitt, þæ brædnade Himna Braudeð, Ex. 16. v. 21. DRotteñ JEsus smelte Kraft sinna blessudu Lijfsins Orda inn i vorar Sæler og Hiortu æ þessu Sumre, so ad hvenær sem vier þau lesum edur heyrum, þæ mættu þau verda oss ad andlegu Himnabraude, og Jlmur Lijfsins. DRotteñ er Skugge yfer þiñe hægre Hende, so Sooleñ breñe þig ecke, seger David, Psalm. 121. v. 6. O! Vid hvad margfolldum Hæskasemdanna Bruna hefur himneskur Nædar og Verndar Skugge DRotteñs hlijft oss æ umlidnum Vetre, þar vier annars hefdum mætt klaga og kvarta med Brwdenne og segia: Horfed ecke æ mig ad eg er so døck, þvi Sooleñ hefur brendt mig, Cant. 1. 6. Enn fyrer hanns nædar-rijka Hiælp og Vernd erum vier nu wtvallder eins og Sool, sem hun aptur seger, Cap.

 6.

6. 10. Vier uñum til þeſs, ad vier hefdum ecke fenged ad ſiaa Soolena, eins og Salomon ſeger uñ Otijmabærann Burd, Pred. 6. 5. ad hun hefde geinged myrk upp yfer oſs og hefde ei haft ſitt Lioos, eins og ſkrifad ſtendur hiaa Eſaiam, i 13. Cap. v. 9. helldur vered ſijfelldlega þakenn med Skijum, eins og DRotteñ hootade Pharao Egyptalands Konge, Ezech. 32. Eñ DRottens millda Naad hefur enn þaa uñ heillt Miſsere gief-ed yfir oſs Soolena, Deigenum til Upplijſingar og Tungled og Stiørnurnar epter þeirra Gaa-nge, Nootunne til Liooſs, Jer. 31. v. 35. Laatum þvi Sool vorrar Lofgiørdar og Packlætis aptur upprenna Gude vorum goodum til Unadſemdar aa vorum fyrſtu Døgum Sumarſins, og ſeig-ium med David, Pſ. 146. Sool og Tungl og allar lifande Skiepnur, lofed þier DRotteñ. Jonam Spaamann Omædde upp af Soolar Hitanum, Jon. 4. Laatum nu hiñ gamla Adam verda aldeiles vanmaattugann til Laſtaña og O-dygdanna; giørum Umbreiting til goods aa Lijf-ernes Haattum vorum med Umbreiting Tijmaña, laatum Varmann þeirrar bleſsudu Riettlætes Soolareñar, Mal. 4. JEſu Chriſti, ſina Abl holldlegra Gyrnda og Tilhneiginga, þa mun hañ giefa ad vier ødluſtum Hiaalprædeð under hanns Vængium. Giørum ſem Kvinnurnar er komu til Grafareñar uñ Soolar Uppruna, Marc. 16. Skodum vort eiged Hiarta i hveriu JEſus aa

aflynd-

geymdur ad vera; sie hann þar fyrer, þea fögnum og verum glader, þvi þa er þad su rietta Sool-arborgeñ sem Esaias uñtalar, Es. 19. Eñ ef vier höfum honum þadann med Uggleyse og Ydkun Syndanna wtvijsad, so leitum hauns, og lockum hann þeangad inn aptur med heitre Bæn, og al-varlegre Hiartans Ydran, þvi hvad gagnar oss þad fyrer Sealena, þo su neatturlega Sooleñ skyne skiært yfir oss, ef Jlur og Varme JEsu Christi Astar og Elsku, vermer ecke og endurnær-er Hiörtun og Sealer vorar; Leatum ecke Sool-ena undergeanga yfir vorum Löstum, Eph. 4. helldur verum eins og Kvinnañ sw sem i-klædd var Soolunne, Apoc. 12. þad er, Christi Rettlæte, hvert med Trwñe medteked fsærer þann Avoxt med sier, ad ef vier ea epterkomande Sumre kuñ-um biirt ad kallast, þa munum vier skijna sem Sool i Rijke vors Fodurs, Matth. 13. 43. Rækium og stundum Orded G.Rottens; Bid-ium Gud ad Hiortun vor lijkest eige þeirre vokva-lausu Jordu, i hverre Sæded skrælnar, þegar Sooleñ geck upp, Marc. 4. v. 6. helldur heyrum þad so nu ea hinum fyrstu Sumar-Dogum, ad vier færum af þvi Avoxt i Þolennmæde ea epter-komande Sumar-Tijma. Þann Geang sem Sooleñ sijndest hafa ea hennar fyrsta Skopun-ar Deige, hann hefur hun enn, og mun hafa til Enda Veralldar; Byrium nu i JEsu Nafne ea hinum fyrstu Sumardögum allañ vorn Geang i

Otta DRottens med Bæn og Akalle til-hanns, bæde um̃ vorar og allra sann-christenna Nauðsyniar, og holldum oss fast vid þann Veg allt til Sumarsins Utgæangs, edur þængad til vier hofum æ Enda geinged Skeid vorra Lijfsdaga. Soolenn giefur af sier Byrtu um̃ alla Verolldena; einsetium oss ad læata Sool Gudrækñennar og christelegs Lijfernes lijsa fyrer vorum samchristnum Brædrum, so ad, eins og vier sieaum gloggt til ad framkvæma vorar Athafner vid hid blessada Soolar Lioos, eins mættu þeir sig speigla i vorum Gierdum og epter voru Dæme lockast til Digda og Dæda, og tyrka sijdann vorn Fodur sem er æ Himnum, Matth. 5.

Soolenn vermer og endurnærer Næatturu Vijxtañ, Urtanna, Triæañ, etc. Læatum Kiærleikans og elskulegra Goodgiorda Jl, leggia til allra riett-trwadra Guds Barna sem vier til næaum, sierdeilis Guds Voladra, so mun DRottens Nædar og Elsku Jlur, verda stadfastur yfir oss og hiæ oss, epter siynu Obrigdanlegu Loforde: Hver Fæatækum myskunar, hann læanar DRottne, hañ mun hønum þad rijkuglega endurgiallda, Prov. 19. Hver hañ giefur Fæatækum, þañ mun ecke bresta, Prov. 28. v. 17. Sæler eru myskunsamer, segier Herrann sjæalfur, þeir munu Myskun hlioota, Matth. 5. Soolenn er i Mided Plæanetanna, JEsus sem i Mided stood hiæ sijnum Læresveinum, og oskade

Þeim Fridar, sie nu midt i vorum Hiörtum, og giefe oss Frid Samvitskunnar og Sǽlarennar, hann sie i Mided Christneñe; og wtbijte Fride Eindrægneñar og Kiærleikans til allra siña Barna, hann sie i Mided hiá oss, þá vier leitum vorrar Atvinnu og Næringar, og wtbijte sinne Blessan á bǽdar Hendur, yfir alla vora Lijfs Biorg og Utriettingar hvar sem Vier erum staddter, hvert vier vokum eda sofum, þá sie yfir oss hanns blessadur Fridur til Verndar og Forsvars moote ollum Vijgvielum allra vorra Ovina. Soolenn upplijser hin onnur Himentwngleñ, af hverium sum mundu annars eingva Byrtu bera; nema Drottens Nǽdar Lioos upplijse Skilning vorra Hugskota, þa eru vor Hiortu formyrkvud i þvi ad þeckia vorn Gud oss til Sǽluhiálpar, og nema hanns lioomanda Lijferne upplijse vort Athæfe, þá eru allar vorar Giorder ecke utañ eintoom Myrkranna Verk. Sooleñ er þad fegursta Lioos Himensins. JEsu Christi blessud Asiána skein sem Sool þá hann uñmindadest á Fiallenu Tabor, hann er sá fegurste medal Mañanna Sona, Ps. 45. Hañs Augu eru Þusundsinnum skiærare enn Sooleñ, þeim hinum somu sijnum skiæru og mijskunarfullu Elsku Augum lyfte hann til vor á þessu Sumre, og lǽte upprenna á hverium Deige yfer oss sijna Nǽdar og Giædsku Sool, sem burtdrijfe oll Syndanna, Sorganna, Straffsins, Skadsemdanna, Freist-

inganna, Offsooknanna og Fordæmingarennar Myrkur. O! JEsu! þu blessada Riettlætes Soolen! Gief ollum þeim, sem a þessu Sumre burtkallast, þa Farsælld og Blessun, ad þegar vier ei siaum leingur þa naatturlegu Soolena, þa mætte upprenna fyrer vorre Sealar-Sioon, sw blessada Fagnadar Sool eilijfrar Dijrdar og Unadsemdar, og leid oss inn i þad fagurbloomgada Sumar eilijfrar Dijrdar, hvar oss mun hverke hwngra nie þyrsta, hvar engenn Hite nie Sool mun brenna, hvar ed þu vor Myskunare munt oss leidseigia og leidbeina til Brunna lifande Vatns, Es. 49. v. 10. þar munum vier niota Oendanlegrar Sumar Sælu i þeirre Bergenne sem hverke þarf vid Soolar nie Tungls, ad þau lijse henne, þvi Guds Dijrd upplijser hana, og hennar Lioos er Lambed, Apoc. 22. v. 5. þad ertu minn HErra JEsu, hid saklausa Lambed Guds, sem burt tookst Heimsins Synder. Þier sie Lof og Dijrd ad eilijfu, AMEN.

# 3. Hngleiding, af Lioosenu.

Psalm. 43. v. 3.

DRotten send þitt Lioos og þin Sannleika, ad þau leidtoge oss.

Þau

Hau enu þyckvu Skyeñ adſkilia ſig ſo ad heidbiart verdr, og hañs Lioos ſkijn gegnum Þokuna, ſegir Iob. 37. þegar hann er ad vijdfrægia Verkenn DRottens. Pad eigum vier nu og alltijd ad þacka Guds fodurlegre Giædſku, ad hann liet ecke vegna Mannkynſins Synda vera ſijfelldañ Vetur uñ allann Heims Alldur, helldur nidurſkickade ſo Tijmanna Skiptum, ad vier ſkylldum alltijd faa Liooſed Sumarſins, efter Myrkur Vetrarens. Petta miog daaſamlega Almættes Verk DRottens, ſem er Liooſed, ſkijn enn þaa gladt yfir oſs med þeſſu ny upprunna Sumre; Lofadur ſie Gud! Þvi ſkulum vier med Hiaalp DRottens wtdraga oſs nockrar heilagar Hugleidingar til Packlætes vid hann, ef hann af Naad ſinne villde þad af oſs þiggia, ſo ſem i Sumar Giøf (hvar uñ ei vilium efaſt) og vier þar med kynnum ad leggia goodann Grunndvoll vorrar Farſælldar, aa i Hond farande Sumre; Þar til giefe hann ſijna Naad i JEſu Nafne!

So er Liooſed veglegt Handaverk DRottens, ad ſiaalfur JEſus verdur Lioos kalladur, Ioh. 1. og hanns elſkuleger eru kallader Liooſſens Born, Eph. 5. Liooſed ſkapade Gud til þeſs ad vier ſkylldum gieta ſkodad adrar hanns Skiepnur, deadſt ad þeim, og fært oſs þær i Nyt, þvi ef ecke hefde Liooſed vered giort, þaa hefdum vier ecke kunnad ad dæma uñ hina oſynelegu Hlut

ena af þeim ſynelegu, eins og Paulus adkvedur, Rom. 1. 19. Þeſs vegna þa vier ſkodum Byrtuna eda Liooſed, þa eigum vier ad vidurkienna hverſu ſtoor Velgiorningur DRottens þad ſie, og honum þar fyrer ad þacka. Þad er viiſt, ad hefde ecke Liooſed vered, þa hefdu hverke Menn nie Skiepnur kunnad ad lifa, edur þeirra Liif hefde vered miøg eymdarlegt, ſo lifad hefdu, hvad audſiaanlegt er af þeim i þria Daga varande Egyptalands Myrkrum, Ex. 10. v. 22. Þeſs vegna liiker Ande DRottens Kvolum fordæmdra vid Myrkur, Matth. 25. v. 3. Med Fegurd Liooſsens verdum vier aminter ad yfirvega þa glanſande Fegurd þeſs himneſka Liooſsens, i hveriu Gud biir, 1. Tim. 6. hvers vegna hañ og ſo kallaſt Fader Liooſaña, Jac. 1. 17. Þar fyrer aſtundum alltiid ad fordaſt Verkenn Myrkranna, ſo vier alldrei komum i hin eiliifu Myrkur, Eph. 5. 11. 2. Pet. 2. 7. So ſem engeñ Hlutur kañ ad ſiaſt an Liooſsens, ſo kunnum vier eckert ad ſia edur ſkilia i andlegum Efnum, nema fyrer Uppliiſing H. Anda, Eph. 1. v. 18. Hvad þu aſetur þier, þad mun hann laata luckaſt og Liooſed mun ſkiina a þiinum Veige, ſagde Eliphas vid Job. C. 22. Sie aum til ad allur vor Aſetningur og Athafner a þeſſu Sumre, ſieu Liooſsens Verk, og i Gude giordar, þa mun hann laata Lioos Luckunnar og Farſælldarennar ſkiina a vorum Veige. Med þeſſare ſiñe veglegu Skepnu, be-

gaf-

gæfade hann oss a umlidnum Vetre. O! hver-
su laangsamur og osfiemtelegur hefde hann añars
vered, ef vier alldrei hefdum Liooſed ſied, enn
vier meigum nu hanns fodurlegre Myſkun þad
þacka, ad hañ hefur begæfad oss bæde med Liooſe
Soolareñar, Liooſe Tunglſins, Liooſe Aug-
naña, Liooſe Elldſins, Liooſe Dagſins, Liooſe
Skilningſins, og þvi allra dijrmætaſta Liooſe
ſinna Orda; blessad ſie hanns H. Nafn ad eilijfu,
Seigium þvi med Job. Cap. 29. 3. Hañs Lioos
ſkeyn yfer mijnu Høfde, og eg gieck vid hañs
Lioos i Myrkrenu. DRottenn hefur nadar-
ſamlega upphafed yfer oss Lioos ſijns Andlitis,
eins og David ſegier i Pſ. 4. 7. Hann hefur frel-
ſad Saaler vorar fra Daudanum, og Fætur
vorar fra Hroſuninne, ſo þad vier meigum nu
ganga fyrer Gude i Liooſe lifande Mañа, i Vo-
nenne efter þvi eilijfa Liooſenu, Pſal. 56. v. 10.
Þad fegurſta Lioos ſem medal vor ſkyned hefur,
er blessad Orded DRottens, hvert ed hefur ſinn
Biartleika af þeirre blessudu og gagnſkiæru Rett-
lætes Soolunne HErranum JEſu Chriſto. Til
þessa Liooſsens hefur vor goode Gud kallad oss
ydugleqa fra Myrkrum Andvaraleyſeſins og
Syndanna, 1. Pet. 2. 9. med Hræringu ſijns
gooda H. Anda, og fyrer openbera Ordſins Pre-
dikun, annars hefdum vier ſkalmad an Liooſs-
ens i Myrkrunum, Job. 12. 25. þañeñ hefur ſka
vered vort Lioos, Eſ. 60. v. 19. i hverium er

einung-

einunges Lioos, Dan.2. Lœtum ofs nu œ efter-
komande Sumre gœnga i Liooſe DRottens,
Þad er, lœtum hanns Ord vera Lioos œ vorum
Vegum og Lampa vorra Foota, Pſ.119. Logum
efter Þvi allañ vorn Lifnad og Giorder: Noottenn
Veturſins er um̃lidenn, enn Dagur Sumarſins
er komenn, leggium Þvi af Verkenn Myrkrañа;
enn iſkrijdunſt Herklœdum Liooſsens, ſem eru
chriſtelegar Digder og Mannkoſter, Rom. 13.
yferklœdder med JEſu Chriſti Rettlœte. O! hvad
fagur Sumar Skrwde er Þad? Ef vier hoſum
giort Verkenn Myrkranna, Þœ tokum oſs nu fyr-
er Hendur ad gœnga ſo ſem Liooſsens Born;
Eph. 5. Þœ mun vort Lioos, (Þad er Lucka og
Velgeingne) fram̃briootaſt ſem Morgunrode,
Eſ. 58. og Liooſed Heimſins, ſem er JEſus, mun
giefa ad vier gaungum ei i Myrkrunum, helldur ef
vier honum efterfylgium, mun hann giefa oſs
Lioos Lijſſins, Joh. 8. 12. og giora oſs ſkapfelld-
lega til Arfſkiptes heilagra i Liooſenu, Col.1.12.
Jœ, hañ mun vera vort Lioos i allrahanda
Myrkrum, Mich. 7. Þeir ſem nu ei ſœta Þvi
ad kveikia Þetta Liooſed hiœ ſier, œ Þeſſum fyrſtu
Sumarſins Dogum, Þœ er eg hrœddur um̃, ad
Þeir munu burtrekner verda frœ Liooſenu i My-
rkred, eins og Job ſegier um̃ hina Ogudhrœddu,
Job. 18. Þvi hver hañ illa giorer, ſœ hatar
Liooſed, ſegir Herrann, Joh. 3. 19. og ef Þad
Lioos, ſem i Þeim er, er Myrkur, hvijlijk munu

Þœ

þaa Myrkreñ ſiaalf? Matth.6. 23. Flijum þeſſara Selſkap, og fordunſt þeirra Dæme. Gaung-um helldur medann vier hofum Liooſed, ſo ad Myrkurenn hondle oſs ecke, Joh.12. Medañ vier hofum Liooſed JEſum hiaa oſs, þaa trwum aa hann, uppaa þad vier ſieum Liooſſens Born. Gud er Lioos, ſeger Johañes, 1.Piſt.1.5. og en-genn Myrkur eru i honum. Ef vier gaungum i Liooſenu lijka ſem hann ſiaalfur er i Liooſenu, þaa hofum vier Samfielag innbyrdes, þaa mun oll good, og oll fullkomenn Giof koma ofañ til vor fraa Fodur Liooſaña, Jac.1. 17. DRott-enn wtſende nu ſitt Lioos og ſinn Sañleika, ad þau leidtoge oſs, Pſ.43. hann laate oſs upprenna Liooſed i Myrkrunum, Pſal.112. 4. ſierdeiles laate hann ſijfellt Glede og Fagnadar Lioos vera i vorum Samvitſkum, ſo ef nockur Hormungaña Myrkur kunna ad byrgia fyrer oſs Lioos Vel-geingneñar edur Medlæteſins, þaa ſnwe hann vor-re Sorg i Glede, og hugſvale oſs og gledie epter vora Hormung, Jer.31. hann bleſſe oſs i allre vorre Jnnekt og ollum vorum Handa Verkum, Devt.16 ſo vier verdum glader, laate hann oſs heyra Fognud og Glede, ſo þau Beinenn glad-vær verde, hver þann hefur ſundurmared, Pſ.51. hann upptendre i vorum Hiortum ſkiært Trwar Lioos, ſem fære þann Avoxt ad vorra Goodver-ka Lioos lijſe fyrer Monnum, ſo þeir ſiaae þau, og dijrke vorn Fodur ſem er aa Himnum, Matth.5

J ejnu Orde ad segia, Gud Vonarennar uppfylle oss med ollum Fognude og Fride i Trwnne, so vier hofum gnooglega Von fyrer Krapt heilags Anda, Rom. 15. og saum med Fognude ad uppausa ilmsætt Hugsvolunar Vatn, wr himneskum Hialpræde Brunnum O Drottens, Es. 12. hvenær sem oss aliggur. Umfram alla Hlute, þegar Daudans Myrkur yfer oss falla, og vier siaum ei leingur þetta fagra Heimsins Lioos, upplijwktu þa, O! JEsu, fyrer oss þeirre blessudu Lioossens Borg, þeirre himnesku Jerusalem, sem hverke þarf vid Soolar nie Tungls, þvi þu sialfur, O! þu Lambed Guds, ert hennar Lioos, Apoc. 21. upplijs vor Augu so vier sofnum ecke i Daudanum, helldur gief oss þad eilijfa Dijrdar Lioos, i hveriu vier saum ad sia þig Auglite til Auglites, Þad eilijfa Sumar-Lioos, hvert eingenn Vetur mun burt taka; þad eilijfa Gledennar Lioos, hvers Byrtu eingenn Sorg mun deyfa; Þad eilijfa Kiertlætes Lioos, hvers Liooma engenn Synd mun byrgia; Þad eilijfa Skylnings Lioos, hvert eingenn Vanskilningur mun slockva; Þad eilijfa Kiærleiks Lioos, a hvert eckert Hatur mun skiggia; Þad eilijfa Heilbrygdennar Lioos, hvert engenn Soott mun kiæfa; Þad eilijfa Lijfsins-Lioos, a hvert engenn Daudans Þitur mun blaasa, helldur mun eilijflega lifa, AMEN.

* * *

# 4. Hugleiding
## Af Degenum.
### Joh. 11. v. 9.

ERu þar ecke Toolf Stunder i Dege? Ef nockur geingur um̃ Dageñ sa steiter sig eige, þvi hann sier Lioos þessa Heims.

SLepptu mier nu, þvi þad Dagar, sagde Guds Sonur vid Jacob er hañ fieckst vid hann, enn Jacob sagde: Jeg sleppi þier ecke fyrr enn þu blessar mig, Gen. 32. v. 26. og Moses seger hañ hafi blessad hañ. Sæll er sa Madur, sem med Trwar og Bænar Ormum so hondlar Christum a hverium Morgne, ad hann leggur Blessan yfir hann og oll hanns Verk, sem fyrer honum liggur ad fram̃kvæma a þeim Dege; Enn mege Madur kallast sæll fyrer eins Dags Vellijdan, hvad miklu framar mættum vier kallast Sæler, ef vier med vorum andlegu Hugleidingum, orkudum þess a hinum fyrstu Dogum þessa Ny-Inngengna Sumars, ad aller þess Dagar yrdu oss blessader, vier sialfer blessader, og oll vor Verk blessud. Gud giefi oss þar til Naad siins Anda i JEsu Nafne. J Dag er hiñn Fioorde Dagur þessa Sumars, þar

þar fyrer skulum vier a honum sem og sierhverium ødrum Dege minnast sierdeiles a Fioora Dagg, og af þeim taka oss andlegar Hugleidingar. Hinn Fyrste er vor Fædingar Dagur: Hann hafa Magtar-Menn og Stoor-Herrar Veralldarennar i mikelle Byrdingu, Pharao Kongur hiellt sinn Burdar-Dag, Gen. 40. So giorde og Herodes, Matth. 14. Ecke einasta a þeim Dege Arsins sem ber uppa vorn Fædingar Dag, helldur og a hverium Dege eigum vier ad minnast vors Burdar-Dags, med þvi moote, ad offra Gude hiartannlegu Packlæte, fyrer þann Velgiorning, ad hann af einskiære Naad, og Fodurlegre Hiarta Giædsku, ann þess hann þyrfte vor vid i nockru sijn vegna, Skapade oss Skinsemdarfullar Manneskiur, so vier kynnum fyrer Upplijsing H. Anda, ad sa hann þecktann oss til Saluhialpar, og noted þeirra Giæda, er hann bæde hier og sijdar hefur oss veitt og tilbwed; Hvad alla Hlute, so vel þa Himneskui Loptenu, sem þa Jardneskua Jordunne, hefur Gud fyrer Mannenn giorda: Af þeim hefur Madur Not, Ynde og Epterlæte, einna hellst fyrer þad, ad hann er Skinsemdarfull Skepna, og þa ysirgnæfa þau eilijfu Giædenn, til hverra hann hefur oss Utvaled, adur enn Grundvollur Veralldarennar var lagdur, Eph. 1. og þad adur enn hann giorde oss Manneskiur. A þeñann Dag eigum vier med þvilijku Packlæte ad

miñ

minnast, ad vier brwkum alltijd vera Skinseme, og vora Limu, Gude til Dijrdar og Pockmmar, ofs til Velferdar, og Naungannum til Gagns og Adstodar: Pad kallar Paulus ad lia sijna Limu til þess Offurs sem lifande er, og heilagt og Gude þacknæmt, hvert ad er vor Skinsamleg Pioonusta, Rom. 11. Og enn aptur kiemst hann so ad Orde: Liaed ydur sialfa Gude, og ydar Limu, Gude til Riettlætes Hervopna, Rom. 6. v. 13.

Sa annar Dagur, a hvern vier eigum sijfelldlega ad minnast, er vor Skijrnar Dagur, þvi so dadsamt Guds Verk sem þad var ad Skapa ofs, so miklu dadsamlegra var þad, ad Endurskapa ofs, ad giora ofs, sem af Natturunne vorum Reidennar Børn, Eph. 2. og i Syndenne Gietner og Fædder, Ps. 57. ad Guds Bornum, og Erfingium eilijfs Lijfs. Þessa Velgiorn'ngs minnest Paulus, er hann seger, Gal 3. Pier erud aller Guds Born fyrer Trwna a JEsum Christum, þvi so marger af ydur sem erud Skijrder, pier hafed iklædst Christo. Sa sem nu villde med athuga yfirvega, hver Giædamunur a þvi er, ad vera Guds Barn, edur Satans Præll, hann munde undet eins sia þeckt, um hvad miked Packlæte hann sie Gude skylldugur, fyrer sinn Skijrnar Dag; og hvad naudsynlegt, ja omissande, þad sie ad minnast sijfelldlega a hann. Enn al=

ra hellst eigum vier, ad minnast þess Sattmaala sem vier vid Gud giordum i Skijrnene: Hann hefur oss helgad og hreinsad fyrer Vatns-Laugena i Ordenu, Eph. 5. þvi eigum vier ecke ad ata oss i Oklaarendum Illgyrnes Syndanna, þvert a moote þeim Sattmaala, vier vid Gud giordum i Skijrnenne. Postulenn Petur seger: 1. Pist. 3. Ad Skijrnenn sie Sattmaale goodrar Samvitsku vid Gud: Þad skil eg so; Ad vor Sattmaale vid Gud i Skijrnenne giordur, Skulldbinde oss til ad varast allt þad ad giora edur fram̄kvæma, sem ordsakar vonda og oroolega Samvitsku epter a: Sa þessa giæter og vill þad giora, fær þvi af Stad komed, þo Hollde og Bloode þike þad Torvellt, þvi hann megnar alla Hlute fyrer þann sem hann Maattugan̄ giorer JEsum Christum, Phil. 4. Og þeir sem Christo tilheyra krossfesta i Krapte Skijrnarennar, sitt Holld, med þess Gyrndum og Tilhneigingum, Gal. 5. Sa sem þess vegna vill alltijd vera Guds Barn, hann skal a hverium Dege minnast a þennann Dag, keppast vid ad endurnija sinn Skijrnar Sattmaala, fyrer heita Ydran og Lifnadarens Betran: Endurnijast i Anda sijns Hugskots, iklædast þeim nija Man̄e sem epter Gude er Skapadur i Rettlæte og Heilagleika Sannleikans, Eph. 4.

Sa þridie Dagur, hvers vier eigum sijfellds-lega ad minnast, er vor Andlaats-Dagur.

Þad

Pad maa siinast undarlegt, ad Manneskiann gietur nockurn Tijma gleymt Daudanum, þar vier þo daglega deyum, og hvert Augnablik bender oss til Daudans; Þvi meir sem vorer Dagar fiolga, þvi meir fæcka þeir: Þess vegna ætte vort Lijf, ad vera siifelld Umþenking Daudans: Og hier ad auke er Daudans Von a hverium Dege. Vier vitum ecke nær Hws-Herrann kiemur, hvert um̃ Kvølld, edur um̃ Midnætte, edur nær Hanenn galar, edur ad Morgne, Marc. 13. Hver af oss veit, hvert vær aflifum þennann Dag? Æ! ad vier vissum, edur villdum vita hvad til vors Fridar heyrer, þaa mundum vier a þessum Dege þar Vaktan a hafa, Matth. 21. Þess vegna minnunst vier riettelega vors Andlaats Dags; Ef vier byrium so hvern Dag, ad vier væntum hann verde vor siidarste, og færum so eingu fram̃ a þeim Dege, nema þvi sem Ohætt være, þo Daudenn yfirfielle oss i þvi Starfi; Sæll er sa Þioon, nær hanns Herra finnur hann so giørande, þa hann kiemur, Matth. 24.

Saa fioorde Dagur, sem oss a ætijd i Minne ad vera, er hinn Siidarste Dagur, edur Dagur Allsheriar Dooms. Hann er eins alltijd viis og oviis sem Daudans Dagur; Hver þorer ad segia fyrer viist, ad Hofud Engelsins Baasuna mune ei kveda vid i Skyum Himens, edur enn þesse Dagur er wte, 1. Theß. 4. Eñ

þvilijkann sem hinn sijdarste Dagur finnur Þig, þvilijkann og so ꝏ sig komenn, hefur hann Þig fyrer Doominn, muntu so odlast epter Þvi sem Þu hefur adhafst i Lijkamans Lijfi, hvert Þad var Illt edur Gott, 2. Cor. 5. Þvi Þꝏ mun hverium sem einum Losstijr skie af Gude, 2. Cor. 4. Verum Þvi strax i Dag Vakande, og varer um oss, bæde fyrer Dauda og Doome. Og Þo ad oss kunne ad sifia (Þvi lijka sifiade Þær forsiꝏlu Jomfrwrnar) Þꝏ voknum i Tijma. Hver einn Dagur, sie vor Vokudagur, hver ein Nott, vor Voku-Nott, so vier gietum tekid Vara ꝏ Þvi, ad hafa vora Lampa tendrada, og vera alvaknader, fyrer eina hreina Ydran og lifande Trw, ꝏdur enn Brwdgumenn lætur aptur, Matth. 25. Giætum nu Þessa alls ꝏ hinum fyrstu Dogum Þessa Sumars; Hveria Þo vier aflifum, Þꝏ vitum vier samt ei nema Þetta verde vort hid sijdarsta Sumar. Eg er viss um, ad marger Þeir sem lifdu hinn fyrsta Dag Þessa Sumars, munu ei lifa Þann seinasta; Enn hvert eg, edur Þu, verdum i Tolu hinna Fyrre, edur Siidare, Þad veit hverke eg nie Þu, Gud veit Þad: Enn hitt veit eg, ad ockur er Þad eins vijst og odrum hier vid ad skilia; Þvi vil eg ecke Varbwenn vera, helldur nu strax mig i Vakt taka, og fyrer heita Ydran og Hræsneslausa Lijferneslns Betran, mier ꝏ Veg til Himnarijkes snwa, so ad ef Daude og Doomur koma,

Þꝏ

Þar vil eg mæta þeim med sama Hugarfare, med sama Andvarpe sem Simeon, med Jesum a Ermarennar Ørmum i Hiartanu, Eph. 3. og med þetta Andvarp i Munnenum: Nu læt þu DRottenn Þioon þinn i Fride fara. Hver sem nu ydugleg a og a hverium Dege, hefur i Huga, þessa Fioora Daga, med sannre Sudhrædslu, hanns Dagar verda aller blessader, og betster þeir sijdurstu; Sæll er sa sem þess giæter, og giører þar epter.

Fleyre eru ad sonnu Dagar þeir, hveria H. Ritning hefur þess vegna uppteiknad, ad vier meigum þeim ecki alldeilis gleyma, helldur þa i Miñi hafa, til ad diirka med þeim Gud, og giæta vorrar Velferdar. Þar er 1. Vor DRottinns Dagur, sem og sierhvor annar helgur Dagur af Gude og Konungunum heilagre Þioonustugiørd tilteiknadur. Miñstu ad helga Hvijldar-Dagenn DRottins Guds þijns, stendur i Løgmaalinu. A þennan Dag minnist Lucas i Postulanna Giørningum, 20. Cap. v. 7. er hañ seger ad Lærisveinarner hafe komed samann a hinum Fyrsta Dege Vikunnar ad brioota Braudeð. Eirninn sa Johannes i Opiñberingunum, Ap. 1, 10. Guds Son a DRottins Dege millum þeirra 7. Lioosa-Stiakanna. Þennann Dag eigum vier med hinne stærstu Gudrækne heilagañ ad hallda, og a hinum Vikudogunum ad yferve-ga þad, sem oss a þeim helgu Døgunum i Guds

Orde kennt og predikad var; Enn allra hellst helg-um vier þennañ Dag, ef vier ꝏ honum byrium nijtt Lijferne, med nijrre Viku hvorre, og færum þanņig Avort af Ordsins Heyrn i Polinnmæde.

2. Sꝏ Añar er Nꝏdareñar Dagur, hv-ern Pꝏll kallar Dag Hialpræðisins, 2. Cor. 6. v. 2. Þennann sama Dag nefner Esajas back-næmilegt Ar DRottins, Es. 61. v. 2. Fyrer þeñ-ann Dag ꝏ ad skiliast Tijme Guds Nꝏdar i Evangelio frambodennar, med hvetre oss er frambodenn Sꝏluhiꝏlpenn og Riettlæted fyrer Trwna, vegna Christi Forþienustu; Þetta sañar Paulus, Rom. 3. segiande: Vier verdum wt af hañs Nꝏd ꝏn Verdskulldunar riettlꝏt-er fyrer þꝏ Endurlausn, sem ordeñ er fyrer JEsum Christum, hvern Gud skickade til eins Nꝏdar-Stools fyrer Trwna i hañs Bloode. Þesse Dagur er sꝏ eine Glede-Dag-urenn vor i þessum Heime, ad glediast i og af þeir-re Nꝏd, sem Gud hefur oss giefed i DRottne vorum JEsu Christo. Og ef riett er ꝏlited vort Stand, þa er þesse eine Fognudur hier stadfest-ur, eñ einginn añar, þad vitnar Paulus, er hann i odrum Stad talar um þeñañ Hiꝏlprædis Dag Phil. 4. segiande: Gledied ydur i DRottne alla Tijma, og eñ aptur sege eg, gledied ydur þvi DRotteñ er nꝏlægur, þad er Guds Nꝏd, er nu i Evangelio fyrer JEsum Christum fram-bodenn; Þessa Hiꝏlprædisins og Nꝏdarinnar

Dags eigum vier so med Packlæte ad minnast, ad vier eige forsoomum Naadarinnar Tijma, eige briootum hann af oss, helldur tokum med sann-ydrande og trwudu Hiarta, moote frambodenne Naad, so vier af JEsu Christi Fyllingu medtokum aller Naad fyrer Naad, Joh. 1. v. 16.

3. Sa Pridie er Dagur Reidennar, hvern Zophonias Spaamadur fyrersagde Gydingum, Cap. 1. er hann spaade umm þeirra Eydelegging, segiande: Sa same Dagur er Reidennar Dagur, Hrygdar og Angistar Dagur. Item seger Paulus, Rom. 2. v. 5. Enn þu epter þijnu forstockudu Hiarta safnar þier sialfum Reide uppa Reidennar Dag, og Opinberunar Guds Riettlætis Dooms. Fyrer þessum Degi eigum vier ad Ottast, og egna hann ecke yfer oss med vijsvitande Illgyrnis Syndum; Enn lofadur vere Guds Sonur, sem oss hefur frelsad fra tilkomande Reide, 1. Thess. 1. og med sijnu Blood-Regne slockt Guds Reide-Elld, enn þar a moot hefur hann med sinne Arnan og Forþienustu upptendrad i siins Fodurs Hiarta einn Oslockvannlegann Astar-Elld til allra hanns riettrwadra Barna, Jer. 31.

4. Sa Fioorde Dagur er Dagur Mootlætisins. Faer og iller eru mijner Dagar, seger Jacob: Þesse Dagur minner giarnann sialfur a sig, þvi hann er Guds Bornum nærsta fylgesamur. Ezechias Kongur kallar þad Neyd-

areñar Dag, 2. K. B. 19. Um̃ hañ talar so Job, Cap. 7. Hlijtur ecke Madureñ ad vera i sijfelldu Strijde a Jørduñe, og hañs Dagar eru sem eins Daglaunara. Þennañ Dag eigum vier ad um̃bera med Þolinmæde, þvi hann er þo alltijd kriddadur med himneskum Huggunum, Sæler eru þeir sem harma, þvi þeir munu huggader verda, seger vor Frelsare, Matth. 5. hann þienar Guds Børnum til hins besta. Gott er ad hafa Samfielag med JEsu i Hormungunum. Ef Heimureñ hatar ydur, seger hañ, þa vited, ad hañ hefur hatad mig fyrre; þvi sagde hann vid þa Tvo Reisendur til Emaus, Luc. 24. Hlaut Christur ecke þetta ad lijda, og so i giñga i sijna Dijrd. Latum oss þess vegna ei undra; þo vier eins og hann og hanns Eftirfylgendur, hlioturn fyrer margar Hormungar ad inngañga i Guds Rijke, Act. 14. Hier um̃ talar Paulus mioa hugaunarsamlega, 2. Cor. 1. er hañ seger: So sem Christi Þijsler yfergnæfa til vor, so yfergnæfer vor Huggun fyrer Christum. Hann liætter af oss þa best giegner, og lijdur ei ad vier freistuast yfer Megn fram, 1. Cor. 10. helldur giefur hann þad, ad vor Hrygd, sem stundleg er og liettbær, giorer oss eina eilijfa og yfermata mikla Dijrd, 2. Cor. 4.

5. Er Dagur Medlætisins, edur sem Petur, 1. Pist. 3. v. 10. ad Orde kiemst, Þeir goodu Dagarner, a þeim er oss eingu sijdur vand-

lifad, enn þeim bœgu, ad ei upphrokum vier oss, edur gleymum Gude, enn festum osmiog Hiartad vid þad stundlega. Þœll reiknar alla Hlute Þreck ad vera; so hann œvinne Christum, Phil. 3. Brwkum þvi so Tijma Medlætisins, ad vier alldrei sieum varbwner ad taka œ moote Dege Mootlætesins. Ef vier nu yduglega hugsum epter ollu þessu, þa munu oss aller Dagar, bæde œ þessu Sumre, og so leinge vier lisum, verda farsæler; Þa mun vor Dauda Dagur verda oss betre enn vor Fædingar-Dagur, Predik. 7. v. 1. og vor Lijfs-Vegur mun verda sem eitt skijnande Lioos, sem framgeingur og lijser yfer oss allt til Hœdeigis, Prov. 4. 18. Gud himneskur gefe oss og ollum vorum Nœungum og Astvinum alla Daga og Stunder farsælar og blessadar, hann lœte œ þeim tilkomande Dogum Jacob fœ Rætur, og hinn andlega Jsrael bloomgast, Es. 27. og innleide oss alla til þess eilijfa Gledi-Dags œ Himnum! Honum med Syninum og H. Anda sie Lof og Dijrd, frœ Eilijfd til Eilijfdar, Amen.

## 5. Hugleiding,
### af Hitanum.

Jerem. 17. v. 7. 8.

Blessadur sie sœ Madur, sem reidet sig uppœ Drottenn, og Drottenn mun vera

hañs Athvarf, hañ er eins sem þad Trie hiaa Vatne er plantad, og sem wtbreidir sijnar Rætur hiaa einum Læk, hañ mun ecke Ottast þo Hitenn kome.

N Y þvi Hiteñ er hellst um Sumar-Tijmann, þvi skulum vier nu taka oss wt af honum andlegar Hugleidingar. Hörmungum og Mootlætingum Guds Barna er opt i heilagre Ritningu vid Hitann lijkt, bædi i þessare Grein Jeremiæ Spaamanns, so og hiaa Postulanum Petre, er hann seger, 1. Pist. 4. Lated ei hañ Brunañ Hörmungaña undra ydur. Þu ert eiñ Skugge þess Fatæka fyrer Hitanum, seger Esajas, Cap. 25. 4. Horfed ei aa mig, eg er so döck, þvi Sooleñ hefur brendt mig, seger Brwdurenn i Lofkvædinu, Cap. 1. v. 5. Eins og þad Jonæ Spaamanne vard æred Omoott, og hann vanmegnadest af Hita Soolarinnar þa Lundurenn visnade, sem skylde honum, Jonæ 4. So er og fyrer þvi ad Ottast, ad ed epterkomande Sumre kunne oss ad verda Omoodt af Hita Hormunganna, nema vier med Hiaalp H. Anda i Tijma uppbyggium yfer oss einn Hlijfdar-Lund, hvors Rætur ad groodursettar sieu i Orde DRottins, og hvors Lauf-Blød ad sieu H. Anda Hugganer, nærsta skioolsamar til ad bera af oss Brunañ Freistinganna. Giætum vier nu þessu vel og gudrækilega i Verk

kom-

komed, þa er eg viſs um̃, ad eins og Gud kom til Abrahams i Dalnum Mamre, þa Dagureñ var ſem heitaſtur, Gen. 18. Eins mun Drotteñ, þa honum þocknaſt, ad laata oſs reyna Hita Mootlætiſins a þeſſu Sumre, vera hiaa oſs i Neydinni, oſs þadann wtrickia og oſs vegſamlega giora, enn þo med þvi Moote, ad vier berum þann Hita og Þwnga Dagſins rettilega; Þvi ſkulum vier taka oſs viſſar Reglur fyrer til Hugleidingar, ſem vier nu a hinum fyrſtu Dogum Sumarſins ſkulum læra, enn brwka þær ſijdar þa a þarf ad hallda.

Og er hin Fyrſta þeſſe: Ad. hafa ecke Hiartad faſt vid Heimeñ, edа þad, ſem i honum er. Þvi faſtara ſem toller nidur i Snærinu, þvi meira Kvalræde er ad þola, þa riſed er upp wr þvi; Þvi fremur ſem eiñ hefur feſt ſitt Hiarta vid þetta ſtundlega, þvi meire Atok þarf ſa himneſke Iſraels Grædare, ad rijfa þad fra holldlegre Ahyggiu. Þar fyrer, þegar oſs i Sumar þyker vænſt um̃ vort Stand, þa laatum oſs vænſt þykia um̃ þann, ſem ſo þæga Medlætis Sool giefur, og hofum alltijd Hiartad og þeſs Elſku a honum faſta. Elſked ecke Heimeñ, nie neitt þad ſem i honum er, ef nockur elſkar Heimeñ, i honum er ecke Kiærleike Fodurſins, ſeger Johannes, 1. Piſt. 2. Þo Madur villde flijа undann Hita Hormunganna i Forſælu Veralldarennar, edur ſtundlegra Muna, þa er þad til ad jafna, ſem einn villde flijа undann Hita Soolariñar, og kaſta ſier

i breñ-

i brennande Ellds-Glood. Lijdum helldur med Þolinnmæde, ad DRottens Hond þricke oss, so vier af Velgeingnenne ecke ofmiog ugglauser, edur upphrokader verdum. Guds Orvar eru skarbeittar og stijnga, þess vegna dempa þær og holldlegar Gyrnder. David gaf sig fra Lostasemenne med Bersabe, þegar Barned vard siwkt, 2. Sam. 12. v. 16. Bornen eru afvanenn med þvi ad eitthvad ramt er bored a Briooст Moodurennar; Gud afvenur sijna Trwada af Brioostum Veralldarennar, so kalla eg Vellystingarnar, med beiskre Krossins Malurt. Þo Gud kunne ad giora vorn Sumargang i einhverre Maata ordugann med Klwngrum Mootlætinganna, edur hriooftugann af Þyrnum Freistinganna, þa gioerer hann þad til þess, ad vier skulum þvi helldur laata oss langa til hans Myskunar og Dijrdar-Hwsa. Skorturen og Kreinen sneru þeim fortapada Syne til Fodur Hwsans aptur, Luc. 15. Astvinar Hormungenn rak þa Cananversku Konu fra Tyro og Sidon, Matth. 15. So sem Smidurenn hreinsar vr Maalminum Sorann med Elldsins Hita, so hreinsar vor goodur Gud af oss Sællijfisins og Syndanna Sour i Krossins Ofne; þvi seger hann h:a Es. Cap. 48. 10. Sia eg hefe hreinsad þig sem Sylfur, og wtvaled þig i Ofne Eymdarennar.

Ønnur Reglan er, ad under eins og vier tokum til ad reyna bagt, þa flijum til Christum;

Giefum oss i Fer med ollum þeim, sem þad hafa til Bragds teked, þegar ad hefur þreyngt. Ef vier reynum Heilsu-Brest a sialfum oss, þa verdum samferda h:num Lijkþraa, sem umgietur. hia Matth. 8. Ef reynum Bol og Mootlæte a Bornum vorum, giefum oss i Fot med Fødur hins Twngl-siwka, Matth. 9. og med Jairo, Marc. 5. Ef a Hiwum vorum, þa med Hundradshofdingianum, og so framvegis. Þad slær alldrei Feil, ad hia honum faum vier Boot a ollu Bole. Þvi meir sem Vatned Ox i Nooa-Floode, þvi meir hækkade Orkinn upp; So skulum vær og laata þau heitu Hormungaña Votn hefia Ork vors Hiarta til DRottins og honum nalægiast. Mijn Augu hef eg til DRottins, seger David i Psalm. 25. Item i Psalminum 120. Eg hiellt mier til DRottins i mini Neyd, eg hroopade og hañ bænheyrde mig. Hiortureñ af Hundum elltur flijr stundum sialfkrafa til Mannsins; So reka og Mootlætingarnar margann þann til Christum, sem ecki vard umhann skeitte; Þvi hvert skylldum vier annars flija? Hann rekur eingann þann fra sier sem til hanns kiemur; Hann hefur og alla Hlute nooga, hvad sem oss brestur: Sieum vier nakter, þa vill hañ klæda oss Kyrtle Rettlætisins og Mottle Hialpræd isins, Es. 61. Erum vier hungrader, þa er hann þad sanna Lijfsins Braud, sem af Himnum er ofann komed, og Heiminum gefur Lijf, Joh. 6.

6. Erum vier þyrster, þa er hann Brunnur Hiꝛ alpræðisins, so hvor hann dreckur af þvi Vatne, sem hann giefur, hann mun ei þyrsta að eilijfu, Joh. 4. Erum vier fatæker, þa er hann Gud allꝛ eina rijkur, sem a Himin og Jord og allt hvad þar er inne. Erum vier veiker, þa er hann ÐRꝛ ottenn vor Græðare, Ex. 15. Erum vier sem villuꝛ rafande Sauder, þa er hann Vegurenn, Sannꝛ leikurenn og Lijfed, Joh. 14. Erum vier ecke neitt i neinu, þa er hann allt i ollu. Leitum þvi ÐRottꝛ ens strax i Mootlætinu medann hann er ad finna, Es. 55. Hanns Hondur eru sem Segul-Steinn, er med Krossins Aþreifingu sigrar og dregar vor Hiarn- Hiortu ad sier.

Þridia Reglan; Verum Audmiuker; Medkiennum strax sem Mootlæted kiemur, ad vier sieum þess makleger; Segium med David, Ps. 119. Fyrer goodu vard mier þad ÐRottenn, ad þu lijtelækkader mig, so ad eg lærde þijnar Riettlætingar. Marger mundu reisa hærra Kambenn, ef Farg Krossins þrickte þeim ecki nidꝛ ur, og giordi þa vanmegna til ymsra Synda, med Hita Hormunganna. Hvar fyrer lijdum vier? Vegna Syndanna, þad er þa noog Orsok til Audmyktar, ad vier lijdum fyrer Glæpe vora. Gud straffar vorar heimuglegar Synder med opꝛ inberum Krossins Svipum. Þad er ecke æred gott Merke ad vera fyrer utan Aga ÐRottinns. Þar slepper ecke Faderenn Barne sijnu Oresstill,

sem

sem hann stijgur fram yfer Glæpe Prælsins, einkum sicae hann ei Lagfæringar Von. Enn hvar fyrer? Af þvi hann hefur meire Rækt a Barninu; Hvørn þañ Son sem Fadiriñ elskar, þañ agar hañ og tiptar, eñ ef vier erum an Tiptunar, þa erum vier Hiaa-Børn, eñ ecki Syner, seger Paall, Ebr. 12. Þvi audmiwkare sem vier lijdum, hvert sem þad er Heilsu-Veike a oss edur Astvinum vorum, Orbyrgd, Grasbrestur, Ovedurætta, edur hvad annad, þvi fliootari verdur Fader Giædskunnar ad lietta af oss Hrijsinu, og hiaalpa oss sem fyrst wr Hita Angistarinnar, og giefur oss ad meiga bwa sijdar vid Forsælu og Svolunar Blæ Vel-lijdunarinnar. So hardna nu þesser audvyrdelegu Tijgul-Steinar i Ofni og Elldi Mootlætinganna til lifande Steina, 1. Pet. 2. ad þeir verda ecke fyrer nockurt Hormunganna Regn aptur sundur losader.

Fioorda Reglañ, epter hvørre vier skulum skicka oss, ef DRottne þocknast ad laata oss reyna Hita Mootlætinganna a þessu Sumre, er, ad bidia og andvarpa til Guds; þegar þu typtar þaa, þa hroopa þeir, seger Esajas, Cap. 26. v. 16. Strax sem Læris-veinarner komu i Lijfs-Haaskann, þa hroopudu þeir: HErra hiaalpa þu oss, vier forgaungum, Matth. 8. Þvi hafa hiner Gømlu sagt: Hvar ecki er Kross og Mootlæte, þar er eingiñ riettskickud Bæn. Saa sem er Meistarenn til ad hiaalpa, Es. 36. 1.

vill þo vera bedenn um̃ Hiælp, og mæ þad sijñ-
ast minst verdt ad leggia þad til af sinne Hæalfu
sier til Hiælpar, ad bidia Gud um̃ Hiælp, þar
hann hefur lofad ad bænheyra æ Neydarinnar
Tijma, og hanns Myskunseme er sem Regned æ
Þerre-Tijmanum, Syr. 38. Enn so vier verd-
um vissare um̃ Bænheyrsluna, skulum vier læra
fyrerfram̃ ad bidia 1. Skynsamlega; So
sem oss er Omissande ad lijda Moorlæted, so er
þad og ecki verdt ad afbidia þess Hita, nema løgd
sie under eins Bænheyrslann i Valld og Vilia
Guds. Bidium þvi helldur optar um̃ Þoliñmæ-
de og gott Um̃burdarlynde, Kraft og Styrk til ad
gieta þolad Gude til Dijrdar og oss til Velferdar;
Enn um̃ Linun og Lietter skal Madur med Forør-
de bidia, so giørde JEsus siælfur: þo ecke minn,
helldur verde þinn Vilie. 2. Bidium aud-
miwklega, þvi audmiwka Ønd agtar Gud
mest. Þier hefur alltijd þocknast ad bænheyra
þæ audmiwku og lijtelæatu, sagde Judith, Cap.
9. Eg voga ad tala v.d DRottenn, eg sem þo er
Molld og Aska, seger Abraham, þa hann var ad
bidia fyrer Sodoma, Gen. 18. Þier DRottiñ,
heyrer Rietilætid til, enn vier meigum skam̃ast vor,
seger Daniel, Cap. 9. 7. Audmijkium oss undeᵣ
vollduga Guds Hønd, so hann upphefie oss æ
Vitiunar Tijma, 1. Pet. 5. 6. 3. Bidium
heitt og alvarlega. Gude mislijkar sw Bæn,
sem er æn Andagtar: Hvad stodar þad Bulldur

Var-

Varanna, ef Hiartad þeger, seger Augustinus. Þu heyrer ecke til þijn sialfur, og þo villtu ad Gud heyre þig. Vered glooande i Andanum, seger Paulus. Bidium so heitt, ad vier gietum ei betur. Ef Guds Hiarta a ad komast vid, þier til Myskunar, af þinne Bæn, so lat þitt Hiarta komast vid af Hita Bænarinnar. 4. Bidium med stødugre Trw um Bænheyrsluna. Þijn Efaseme i Bæninne giorer mestan Undandrætt a Hialpinne; Þad sigrade hinn Osigranda Gud i Christo, ad hin Kanverska var so trwud, þvi sagde hann, Mikil er þijn Trwa; Trwenn er Saal Bænarinnar, sie hun daud, þa er Bænin Ablálaus, Bidium i Trwne eckert efande, þvi sa sem efasamur er, han er lijkur Siafar-Bylgiu, sem er æst og uppvægd, seger Jacob, Pist. 1. 6. Hvad hellst sem þier bidied, ef þier trwed, munud þier þad ødlast, sagde Frelsarenn, Marc. 11. 5. Bidium Oaflatanlega. Þrautelkne sw, sem Eckiann hafde i Bænenne, vann a hinum ranglata Doomara, Luc. 11. Paulus bijdur ad vier skulum bidia a ollum Tijmum, Eph. 6. 18. Breitum epter Jacob, slepp-um ecke Gude fyrr, enn hann blessar oss, Gen. 32. Vere nu so til, ad DRottenn late Hita Moot-lætinganna verda oss so beyskann a þessu Sum-re, ad oss take til ad Omæda upp, eins og Jon-am, þa grijpum til þessara Raada; Flijum und-er þennann Fioor-kvijslada Jonæ Lund, sem Gud

i sijnu Orde hefur oß plantad til Hlijfdar vid Ofhita Hormunganna. 1. Hættum ad elska hid fallvallta Epterlæte Veralldarinnar. 2. Hölldum oß einasta til Christum. 3. Verum bolinmooder og audmiwker. 4. Bidium ſkynsamlega, audmiwklega, alvarlega, med stodugre Trw, og þad Oaflœtannlega. Hitenn a Sumrum er af Soolunne, Allar vorar Mootlætinga koma fra Gude, enn hann er Fader Miskunsemdanna. Menn flija i Forsælunna undan Hitanum; Flijum, þa Mootlætis Hitenn Omæder oß, i Nadar Skiooled DRottins, þar er hin hægasta Sæng ad liggia ſiwkur, þar er ad finna hina bestu Sælar Svolun; Þar er JEsu Saklevsis Abreida; Þar eru Lyknar Lijndwkar DRottins, Þar er Underdijna DRottins Elsku og Astar; Þar er Hægende Guds Nadar Fyrerheita; Þar er fullkomenn Bata-Von a ollum Lijfs og Sælar Meinum. Gud unne oß ad afstodnum Hita tijmannlegra Hormunga, ad odlast hia sier ſ... um sier eilijfann Jl og Varma himneskra... Glede og Huggunar fyrer JEsum Christum, Amen.



# 6. Hugleiding

## af Sædinu edur Bloomstrunum.

Matth. 6. v. 28. og 29.

Hygg-

Hygged ad Akursins Liliu Grøsum, hverninn þau vaxa, þau vinna ecke nie spinna; Enn eg sege ydur, ad Salomon i allre sinne Dijrd var ecki so skrijddur, sem eitt af þeim.

Ad Fyrsta Efne til allra Urta, Grasa, og Bloomstra er Sæded, sem annad hvert fyrer alvitra Raadar Forsioon Guds, sæest i Jordena af sialfu sier, edur þvi verdur af Monnum saad, rotnar so þar umm Vetrar Tijmann, enn fyrer lifande Anda edur Lijf, sem Natturunne fylger, uppvaxa þar af aa Vorenn adskilianleg Grøs og Bloomstur, efter hvers eins Sædes Tegund, so þad makileg Skynseme maa stoorum forundra sig þar yfer. Laatum oss þetta giør hugleida, og andlegar Hugleidingar hier wt af draga.

1. Af Grøsunum maa berlega sia Almætte DRottens, ad hann af þurre og avaxtarlausre Jordu framleidde I Ondverdu Jardarennar Avexte, hefur þeim so mørg Þusund Ar, i gegnum so marga kallda og harda Vetrar Tijma vid Magt halldet i Natturunne, ad saa Avoxtur, sem sprattt af Jordunne i þvi fyrsta Skopunar Verke DRottens, sprettur enn nu med sama Hætte til sønnu Gagnsemda hentugur. Þetta vitnar JEsus, talande umm sijns Fødurs Almætte, Joh. 5. Fader minn erfidar allt hijngad til. Hann endurnij-

urnijar Afijnd Jardarenar, seger David; i Ps. 104. Han bænheyrer Jørdena seger Hosées, Cap. 2. Han klæder Grased a Akrenum seger vor Endurlausnare, Matth. 6. Gud giefur Grasenu Lijkama, sem han vill, og hverju af Sædenu sinn eigen Lijkama, seger Paulus, 1. Cor. 15. Han koronar Ared med sinne Giædsku, seger David, Ps. 65. og lætur Grased vaxa a Fiøllunum, Psalm. 14. 2. Sia-um vier hier af Guds Alvitsku, ad han hefur skapad so margar Grasategunder, ad engen Natturu Spekingur hefur enn þa gietad uppgøtvad, hvad maraslags Grasa-Tegunder til eru, jafnvel þoott þeir hafe þad stoorum kostgiæft. Hver sem vill athuga allan Grasanna Lit, Løgun og Natturu, hann mun samþyckia þad David seger, Ps. 104. DRottenn, hversu eru þijn Verk so mørg og stoor, øll hefur þu þau med Speke til sett, Jørdenn er full af þine Mysskunseme. 3. Minner Jardar Avøxturenn oss a Nad og Giædsku DRottens, sem allt þetta hefur giørdt, og þvi ærlega vidhelldur Manneskiunne til Gagns, Glede og Epterlætes. Eg vil gefa þijnum Fenade Gras af Haganum, so þier skulud eta og verda sadder, seger han fyrer Mosen, Devt. 11. og i Psalm. 104. seger David: Þu lætur Grased uppspretta fyrer Fenaden, og Jurter Møñunum til Nytsemdar. So meigum vier nu aller enn einusinne yfer þessare Giædsku DR-

ottens

ottens i Inngænge þessa Sumars, segia med Salomone, Prov. 27. Hejed er uppvared, Grased er fyrer Hende, og Jurternar safnast a Fiøllunum, og med þessare sinne giædskuriis-te Forsioon og Fyrerhyggiu, sedur hann allar lif-ande Skiepnur, og þad allt vegna Manneskiunn-ar. 4. Skulu Grøsenn miña oss a, ad brwka Gaafur DRottens med goodre Sidseme, Aud-mykt og Þacklæte, enn ecke med Ofneytslu, edur Drambseme, so sem vær giætum teked þetta hiaa sialfum os; þvi annars er fyrer þvi ad ottast, ad DRottenn, vegna vors Oþacklætes og illrar Medferdar a Gaafum sijnum, mune svipta oss sinne Blessan, og ecke einasta þad, helldur og laa-ta oss sialfa so straffast, ad a oss framkome þad hann þeim ogudlegu og vanþacklaatu hootad hef-ur, hia Esaiam, Cap. 37. ad vier verdum lijker Twn-Grase þvi, edur Heye, sem er a Ræfrum uppe, sem snarlega uppvisnar; og David seger, Ps. 37. ad þeir ogudlegu mune verda snarlega upphoggner sem Gras, Item, seger hañ i Ps. 92. Hiner ogudlegu grænka sem Gras, og þeir Illgiørda Men bloomgast þar til þeir af-maader verda. 5. Skulu Grøsenn miña oss a, ad vier bloomgunst sijfelldlega i øllum Dygd-um og Daadum, sierdeiles i Hlijdneñe og Þack-lætenu fyrer þessar og adrar Drottens Velgiør-der; ad vier, eins og Arons Vondur, Num. 17. berum Mandel, þad er, Avexte sannrar Gud-

hrædslu, sem er til allra Hluta nytsamleg; þvi soo-
mer ei vel, ad þesser hiner daudu Hluterner bloom-
gest og fære Avoxt, og þad allt oss til Gagns og
Nota, ad vier þa sieum eitt avaxtarlaust og kal-
ed Tre, edur þad Tre, sem her vonda Averke,
hverju i Elldenn mun kastad verda, Matth. 3.
helldur eigum vier ad bloomgast sem Pæalma-vid-
ur, Psal. 92. og standa þyckvaxner af Avoxtum
Andans, Gal. 5. og sannrar Gudhræðslu; so
vrun DRottenn lijfga Sæaler vorar med þeim
andlegu Bloomstrum, Cant. 2. sinnar Blessun-
ar, Naadar og Myskunar. 6. Skulu vor
Sumar Bloomstur, minna oss a þad blessada
Bloomstred i Saron, Cant. 2. HErrann vorn
JEsum Christum, þvi hann mun enn þa a þessu
Sumre standa bloomlegur fyrer Sæalum vorum i
Alldengarde sinnar Christne, og Lystegarde sinna
blessudu Lijfsins Orda, af hveriu Edla Bloomst-
renu, ad hanneiker Hunangs Dropar hans ble-
ssada Bloods, og Forþienustu Kraptar til vor
fliota. Þess vegna, þa vier siaum hann hvijta
Farva a Grosunum, þa minnunst hann var
færdur i hvijtt Klæde, sier til Hadungar, en er
þo raunar hvijtur i sijnu Sakleyse, so engenn kunne
ad straffa hann um nockra Synd, og hefur so þet-
ta blessada Sæalar Bloomstred vort JEsus med
sijnum hvijta Liliu Farva, afrekad oss og giefed
þad rietta Sakleyse Sæalarennar, og hvijtann
Skrwda Dijrdarennar. Nær vier siaum hinn
rauda

rauda Grasanna Lyt, þa mininunst aa vora bless-udu og raudu Saalar Roos Endurlausnarann vorn, sem allur vard raudlitur af siinu Bloode, so hann med þvi sama Bloode þvæde af Saalum vorum allar vorar bloodugar Synder og Illgior-der, og ad vier skylldum ei fyrer Guds Doome þursa ad standa nakter af Ovirdingu, vegna vor-rar Bloodskulldar, helldur ad Saaler vorar kuñe so sem ad synda i Blood Hafe JEsu Forþienustu, til Sæluhafnar og Fodurlands, þess eiliifa Gled-ennar Sumars. Enn sa blaa Litur Bloomst-ranna, skal miña oss a þad, ad vor Lausnare var blaar og bloodrisa undann Fiotrum og Svipum Kvalaranna, vegna vorra Illgiorda, so vier fy-rer hanns Beniar skylldum verda heilbrigder, Es. 53. Kieppustum þvi vid, ad kasta fraa oss Saurfarva Syndanna, enn taka aa oss Himen-blaaann Farva, þad er ad breita epter blessudum Liifs-Reglunum Lausnarans, sem af Himnum ofann til vor komenn er, so vier skylldum gaanga i hanns Footspor, so hann sijdar meir giore oss ad einu dijrdarlegu Himen Bloomstre, i Alldengarde eiliifrar Paradiisar. 7. Skulu Grosenn miña oss a, hvad veikt og fallvallt þetta stundlega Liif er, þvi seger David, Ps. 103. Madureñ er uṁ siina Liifdaga, lijka sem aña Gras, lijka sem Bloomstred a Mørkeñe, og Esaias Cap. 40. seger: Allt Holld er Hey, og allur þess Goode sem Akursins Bloomstur, Heyed

uppþornar, Bloomstred visnar, þvi ad Ande DRottens blæs a þad. Þess vegna skulum vier alltijd aliita, a hvad veikum Fæte þetta vort Lijf stendur, ei upphroka oss, ei lifa ugglauslega, ei fara ovarlega med vora Heilsu og Lijf, þvi alldrei veit nær enn Daudans hvasse Liar uppskier oss fra Rootum, og ættum vier þa ad vera so underbwner, ad oss yrde safnad i Kornhlodu DRottens og Bindene lifendra a Himnum, 1. Sam. 25. 8. Skulum vier lata Grosenn minna oss a hvad Eymdafullt þetta Lijf er. Grosenn mæta Storme og Hretvidre, og þa beigia þau sig til Jardarennar, sem vilie þau flya þangad, hvadann þau hafa sinn Uppruna; so erum vier og morgum Eymdum og Andstreyme undervorpner. Gud hefur skapad Blodenn og Jurtenar til ad bera af Avoxtunum Hrijdernar, og Menn hlada Girdingar krijngum Alldengardana, Grosunum til Skiols. Vernd og Hlijfd hinns almattuga Guds er vort Skiool og Girding moote ollum Hæska, Slisum og Voda; Skijl mier under Skugga þinna Væingia, seger David, Psalm. 17. Mannanna Børn hafa Traust under Skugga þinna Væingia, seger hann enn aptur, Psal. 36. Fra honum erum vier i Ondverdu komner, þvi hann hefur Skapad, Endurleyst og Helgad oss: Til hans skulum vier einnenn flya, og oss hallda i Stormvidre Hormwnganna, og audmijkia oss under

hanns hollduga Hond, enn Upphefia oss med Bæn og Von til hanns Hiaalprædes; Huggande oss vid þad, ad fyrer margar Hormungar hlíootum vier inn ad gaanga i Guds Rijke. 9. Minna Grøsenn oss aa Uppriſu vorra Lijkama; Þvi ſo ſem Sæded rotnar og ſwnar i Jordunne, aadur enn þad ſkal hentugt til ad gefa af ſier Bloomſtred aptur, eins verda vorer Lijkamer ad rotna og ſwna i Jordunne, aadur enn þeir ſkulu verda hentuger til ad verda Bloomſtur þeirrar eilijfu Paradyſar. Þetta vitnar Paulus, 1. Cor. 15. ſegiande: Þad ſem þu ſaaer, lifnar ecke nema þad deye, ſo er Uppriſa Framlidenna, þad verdur ſaad i Forgeingelegleika, enn upprijs i Oforgeingelegleika, þad verdur ſaad i Vanſemd, enn rijs upp aptur i Vegſemd. Og ſiaalfur Endurlauſnarenn vor ſeger, Joh. 12. Sannlega, ſannlega, ſege eg ydur, nema Hveite-Korned falle aa Jordena og deye, blijfur þad einſamallt, enn ef þad deyr, ber þad mikenn Avøxt. 10. Ad ſijdurſtu ſkulu Grøſenn minna oss aa þeirra Utvolldu Aſigkomulag; O! hverſu Lyſteleg eru þau føgru, og allavega litu Bloomſtur, ſo Salomon i allre ſinne Dijrd, var ei ſo ſkrijddur ſem eitt af þeim: O! hverſu Lyſtelegur mun verda Lioome og Fegurd allra þeirra Utvolldu aa Himnum! Grøſen lifna og riettaſt vid, af hægum Varma Soolgrænnar, ſierdeiles ef þau faa Vok-

vañ med: Þeir Utvolldu hafa hid mesta Epterlæte, af Elsku og Kiærleika þeirrar eilijfu Riettlætes Soolarennar, vors HErra JEsu, sem dryckiar þaa med Straumum Vellyst́inganna; Hier eru þær hvijtu Liliur; Þeir Utvolldu klædast hvijtum Skrwda þess himneska Sakleysis og Fegurdar. Hier eru þær raudu Roosir; Þeir Utvolldu eru klædder þvi rauda Riettlætes Klædenu JEsu Christi. Hier eru þau Gros, sem kallast Solseqvia, edur Soolfylgendur, af þvi þau snwa sier epter Soolunne; Þeir Utvolldu fylgia epter Lambenu, hvert sem þad fer. Oll Grosenn med sinne Fegurd, so sem dansa og leika fyrer Ondvege Sumarsins; Þeir Utvolldu dansa i kriingum Stoolenn Guds og Lambsins, a þvi eilijfa Diijrdarennar Sumre; Allskyns Hlioodfære hliooma þar. O þu blessada Bloomstred i Saron, HErra JEsu! Gief oss, ad vier a Haustyrkiu-Dege vors Dauda, finnunst so bloomgader med Avoxtum sannrar Gudhrædslu og lifande Trwar, ad verduger finnast mættum, ad verda Innplantader i þann eilijfa Paradysar Alldin-Gard. Vænheyr þad, fyrer þijna Forþienustu, AMEN.



# 7. Hugleiding,

## Af Regnenu.

Es.

Es. 30. v. 24.

DROTTenn mun gefa þijnu Sæde Regn, hvar med þu mant sa Jørdena.

HOD Sijdurstu, skulum vier nu draga oss Handlegar Hugleidingar af Regnenu, sem er einhin betsta Gaafa DRottenns, af hanns Lijkamlegum Velgiørningum. Og er þad fyrst athugaverdt, ad eg finn i H. Ritningu, gieted um̃ Tvennslags Regn, nefnelega: Regn Reidennar, og Regn Naadarennar; Þvi hinu fyrra Spaaer David þeim Ogudlegu, er hann seger: Hann mun rigna laata yfer hina Ogudlegu, Leyptran, Ellde og Brennesteine, Psalm. 11. Hvilijkt Reidennar Regn, wtvegade Samuel med Bæn sinne, til Straffs yfir Foolked, fyrer þad, ad þad hafde beded um̃ Konung, 2. Sam. 23. Þañeñ liet Drottenn rigna yfir hina fyrstu Verølld, i Noa Flóde, til ad dreckia øllu syndugu Hollde, og fyrer hid sama hanns Reide-Regn, Ellds og Brennesteins, fyrerfoorst Sodoma og Gomorra. Vid þetta Guds Reide-Regn a þad skyldt, þegar honum þocknast ad laata koma Ofaran Þerreleyses, og ydugleas Votvidres, yfer Avøxtu Jardarennar, edur Abla Siaafarens, so hañ verdur ei verkadur til Notkunar, kiemur so tijd-

um ꝏ epter Hwngur og Manndaude, sem og skied hefur i voru Lande, og optar enn eitt Sinn. Hin hellsta Ordsok til þessa, eru Glæper og Illgiorder Mannanna: Þegar Menn hafa so lꝏngvaranlega þꝏd og medteked þessar Gꝏfur DRottenns, ad þeir ecke einasta leggia honum þær alldrei einusinne vel i Þock, eins og þeim være þetta engenn Goode, edur og Gud være skylldugur ad gefa so almenna Velgiorninga, þo alldrei fꝏe hann þar fyrer eitt Ord til Þackar; helldur og þar ad auke, eru sumer so Gudlauser, ad þeir lasta þessar Gꝏfur Guds, hæda ad þeim, og formæla; So þad er stoor Raad DRottenns, ad hann lætur ecke rigna yfir þꝏ Hagle og Elldingum, er þannig foragta og lasta hanns nꝏdarfulla Stioornan ꝏ hanns Skepnum. Lijted þenkia þesser epter þvi, þꝏ Gud sloo med Ovedre, Fim̄ Konunga Amoritarum, med ollum þeirra Her-Fylkingum, Jos. 10. Edur þꝏ hann hrædde og sloo Philistæos, er þeir strijddu moote Israels Bornum i Samuelis Tijd, 1. Sam. 7. Edur þꝏ han̄ sloo Egyptalands Avoxtu, Tre, Foolk og Fenad, þeirra sem foregtudu Ord DRottens, fyrer Mosen talad, Ex. 9. Ad eg nu ecke tale um̄ sannferdug Dæme DRottens Reide Regns, sem optlega hafa sijdann skied; Þetta ætte nu allt ad koma oss i Hug, med Inngꝏnge þessa Sumars, ad þad uppvekte hiꝏ oss auðmiuka

Idran, fyrer Vanþacklæte vort, sem so margasalldlega hefur af oss, vid vorn gooda Gud, framkomed; So ef skie kynni, ad DRottenn hefde oss Fyrerhugad ad lijda Refsingar med Ocaran bockurre a epterkomande Sumre, fyrer undangenged Oþacklæte og Illgiorder, ef hañ þa kyñe ad snwa fra sinne Reide, vegna vorrar Idrunar og Yfirbootar, og lata oss nioota sijns Sonar Arnañar og Forþienustu, þvi hann er Gud mikellar Þoleñmæde og Laanglundar Geds, og snarlega ydrar hann Straffsins, Ex. 34. Einsetium oss ad byggia alldrei so Velgiorder DRottenns, ad vier ecke leggium þær vel i Þock, þvi so seger hann siaalfur; Hver hann offrar Þacklætenu, hann Heidrar mig; og þad er Vegurenn, ad eg sijne hønum mitt Hiaalpræde, Psalm. 50. Og ef vier so giorum, þa er Gud vijs ad stioorna Hofud-Skiepnunum oss so i Hag, ad Jardarennar Avexter verde oss til Blessunar og goodra Neta, bæde fyrer oss, og vorar Skiepnur. Gud, fyrer JEsu Christi Skulld, vardveite oss fra Oþacklæte og allre Synd, og laate ei koma yfir oss vort forþient Straff, helldur yfirdoggve oss, med sijnu blessudu Naadar Regne!

Nu vilium vier athuga Naadar-Regned DRottenns; þad er og Tvennslags, Andlegt og Lijkamlegt; Um hid Fyrra talar Esaias, Cap. 34. Eg vil blessa þa, og allar mijnar

Hæder

Hæder allt um̃ kríng, og lata rigna yfir þa, i riettann Tijma, þad skal vera ein Blessun-ar-Døgg. Epter þessu Naadar Regnenu, lcangade Esaiam innelega, og þvi seger hann: Driwpe þier Himnar hier ad ofan, og Sky-enn rigne Riettlætenu, Es. 45. Item seger hann, Cap. 64. Æ! ad þu sundurslitert Himnana, og kiæmer hier ofann. Þetta Naadar Regn, er sialfur HErrann vor JEsús Christur, med øllum sijnum Naadar Velgiørn-ingum: Þvi seger David, þa hann talar um̃ Christi Hijngadkomu i Hollded: Ofann mun hann koma, sem Døgg yfir Ullar-Reifid, Psalm. 72. Og þetta sagde hann af þvi, ad Christi Getnadur var fyrermyndadur med Nættdøggenne, sem kom yfir Giæru Gedeonis, Dom. B. 6. Þetta himneska Naadar Regn-ed, yfirdøggvar þa goodu Jordena, sem er gott og gudhrædt Hiarta, med blessudum Nættdro-pum himneskra Huggana i Guds Orde, sem all-er hafa sinn Uppruna fra þeim Wokvamiklu Skyum blessadra JEsu Christi Bloodrigninga, þvi hann hefur sitt Blood til þess wtglefed, ad oss skylldu Guds Naadar Fyrerheit Predikast, og þau hafa øll sinn Krapt af JEsu Bloods Uthell-ingu, og i hønum eru þau øll Ja og Amen, 2. Cor. 1. Fyrer þessa himnesku Naadar-Døgg, uppspretta i Mannanna Hiørtum allrahanda Dygdanna lysteleg Bloomstur, so sem eru:

Kiær-

Kiærleike, Føgnudur, Fridur, Langlundar = Gied, Goodgyrne, Goodfyse, Trw, Hoogværd, Bindinde, Gal. 5. Þessare Nadar-Doggenne rignde fyrst, þa DRottenn sagde vid vora fyrstu Forelldra: Kvinnunnar Sæde skal i sundurmeria Høggormsens Høfud, Gen. 3. Siidann framepter Olldunum rignde henne eins og annare Nattdogg, med Uthellingu Foornfæringanna Bloods, og i Huggunum Fyrerheitanna um Messiam; Enn i Christi Hijngadkomu, fiell hin mesta Steipe-Dogg DRottenns Nadar og Elsku yfir allt Mannkyned. Þa byriadest Dag-Rigning JEsu Christi Nadarfullu Dadsemdar-Verka, og huggunarfullu Kienninga, asamt med Blood-Skwrum hans Unnskurnar Sara, sem voru so sem heilnæmar Morgun-Skwrer, tempradar med Hita og Varma hanns guddoomlegrar Elsku til vor. Sw Dagrigning hielltst vid i allre hanns Pijnu, og varer enn þa, i andlegann Mata, i Hiortum allra Guds Barna, fyrer Predikun Orda DRottenns, hvar af øll sorgmædd Hiortu, sa blessada Salar Svolun, og Lesking i Hita Hormunganna. Lofad og blessad sie Nafned DRottenns, og giefe oss a fyrstu Dogum þessa Sumars, sem alltiid, siinar blessudu Nadar Skwrer i Sumar-Giof, sem Vokve so rijkuglega Alldingard vors Hiarta, ad i þvi mætte, honum til Epterlætes, enn oss til Farsælldar,

upp

uppspretta Bloomstur Trwarennar, Urt Bæn-arennar, Alldine Polennmædennar, Lilja Liljt-læteſins, Roos Gudhrædſlunnar, Eple Elſkun-ar, Mandel Packlæteſins, og Dudaim Bonar-ennar.

Pad Annad DRottens Nædar Regn, er vort Nætturlega Regn, ſem hann geſur yfir vora Akra og Engiar, Alldine og Gros, þeim til Friooſgunar, og Skepnunum til Foodurs og Vokvunar, þvi ſeger Paulus, Poſt. G. B. 14. Ad hann veite oſs miked Gott, og giefe Dogg af Himne, og frioosſama Tijma, uppfyllande vor Hiortu med Fædſlu og Fognude; Hvar ſyrer og DRottenn lijker ſinne Myſkunſeme vid þvilij-ka Dogg, hiaa Hoſeam, Cap. 6. Su Nææd ſem eg vil veita ydur, ſkal vera ſem eitt Dag-gar Sky um̃ Morgunenn, og ſem Dogg ſu ſig aarla wtbreider. Og i Cap. 26. ſeger hañ; Ef þier gangeð epter mijnum Setningum, og hallded mijn Bodord og giøred þau, þa vil eg giefa ydur Regn aa ſijnum Tijma, Jordenn ſkal og giefa ſinn Grooda. Um̃ þetta Nædar Regned kemſt Moſes ſo ad Orde, Devt. 28. DRottenn mun uppliwka ſijn-um gooda Fieſlood Himnenum, til ad giefa þijnu Lande Regn aa ſijnum Tijma, og bleſſa øll þijn Handaverk; Og med þeſſum Greinum verdur oſs yfir bevijſad ad þad er Nææd DRot-tenns ad Packa, þa hañ geſur Regn aa Jordena.

Þeſſa

Þessa ættu þeir ad giæta, ꝏ hveria eg fyrer skomu minnteſt, ſem giarner eru ad mogla ꝏ moote Vedurꝏttunne, og jafnvel einne Skwr, ef hun fellur ecke þeim i Hag, og vita ſkulu þeir þad, ad þo lꝏngvarande Urfelle Oniite vora Lijfs-Biorg og Jardar Avoxt, þa Ordſakaſt þad vegna Synda þeirra, og Ogudlegs Vanþacklætes; Jꝏ, þeſſer ordſaka þad, ad DRottens nꝏtturlegs Nꝏdar-Regns Brunnar, verda Stundum ſo uppþurkader, ad ecke rigner i heil-lꝏnga Tijma, ſo Jorden ſpriingur i ſundur, af þvi þad rigner ecke ꝏ hana, eins og þar ſeger hiꝏ Jeremiam, Cap. 10. 4. Þeir ſegia ecke einuſinne i ſijnu Hiarta: lꝏtum oſs Ottaſt DRotteñ vorn Gud, ſem giefur oſs Morgun Døggena, og Kvølld-Regned i riettann Tijma, Jer. 5. Þeſs vegna tekur Nordann-Vindurenn burt Regned, ſeger Salomon, Prov. 25. Jꝏ, þad hefur ſkied, jafnvel hiꝏ oſs i þeſſu Lande, ſem DRottenn hootade Jſrael, ef hann þverſkallꝏdeſt, og villde ecke hlijdnaſt ſiinum Gude, Ad hann ſkyllde gefa yfir Landed Rik og Øſku, fyrer Regn af Himne, Deut. 28. Hefur ſo Himenenn innchallded ſinne Dogg, og Jordeñ ſijnum Grooda, Hagg. 1. Þꝏ hann hefur bodꝏed Skyunum, ad ei rigndu þau yfir hina Ogudlegu, Eſ. 5. Stundum hefur hann lꝏted yfir einn Stad rigna, enn ecke annann, So eiñ Akurenn fieck Regn, og hiñ añar fieck ecke Regn,

eins og Amos Spámadur ad Orde kiemst, Cap. 4. O! hversu dijrmæter hafa þá orded Daggar-Droparner, þeir, hverium gudlauser Syndanna Prælar, skirrast ei vid ad formæla, þegar þeim þikia þeir ecke falla sier i Hag. Mikel er Náad og Giædska þess millda Myskunsemdaña Fodurs, er samt sem ádur lætur sitt blessada Frioofgunar Regn, rigna so vel yfir Vonda sem Gooda, Matth. 5. Fordustum þessara Dæme, giætum helldur ad þvi, ad þad eru fleyre enn Þusund Blessaner, i hverium Daggardropanum sem DRottenn veiter oss, og dijrmætt þiker Regned á Veturnar, þegar Iorden er yfir þakenn med Svell og Snioo. Fylgium þvi Raadum Zachariæ Spámanns, Cap. 10. er hann seger: Þar fyrer bidied um Kvølld-Regn af DRottne, somun DRottenn giøra Sky, og giefa ydur nooga Døgg til alls Grooda á Jørdenne. Þa munu vorer Akrar og Enge medtaka Blessan af DRottne, Hebr. 6. Vyrdum sijfelldlega fyrer oss Tilgang DRottens i øllum Efnum, sem er sá, ad hvert sem oss finnst blæsa med edur moot, hvert sem yfir oss rigner Hagl edur heilnæm Vor-Skwr, þá giører hann þad allt oss til betsta, og hanns Asetningur er alldrei annar, enn ad bera Umsorgun fyrer sinna Barna tijmannlegre og eilijfre Velferd.

Samlijkingar, sem hier wt af má draga eru

marg-

margar og miøg eptertakannlegar, eins og þad, ad Regned er til þess giefed, ad þad skule vøkva Jørdena; So vøkva og hugsvala Nædar Fyrerheit D Rottins hrelldum og angrudum Saalum sem epter honum þyrsta. Krapa-Skwrernar eru ad sønnu kalldar, enn Soolar Varmeñ giører þær hagkvæmari til Groodursins; Blessud Nææd og Forþienusta JEsu Christi þijder og vermer þær hordu Hret-Skwrer Logmaalsins straungu Hootana, fyrer nædarfullann Varma sinnar Elsku og Evangelii Predikunar. Regned ad ofann komed seidest i Jørduñe og fyrer Krapt Solarinnar dragast þvi meire Vessar upp i Lopted, sem aptur verda ad friooffsomu Regne; Þad blessada Orded Guds, sem Sonurenn wr Fødursins Skaute hefur oss opiñberad, uppdregur fyrer Krapt H. Anda, (hvern Sonurenn hefur oss giefed) Yorunar og Bænar Vøkva, sem aptur afrekar oss yferfliootannlega Dogg Guds fødurlegrar Myskunar og Velgiørninga. Skwrunum fylgia Skinenn a mille, og epter Skwr kiem ur Skin; So blandar og temprar D Rotteñ opt og tijdum Medlætis Skyn sinna Barna med Mootlætinganna Skwrum, þvi Sorgenn og Gledenn verda opt samferda; Krossinn er alldrei af honum so uppa lagdur, ad þar fylge ecke einhvør blessud Lijnkinde med til Vægdar. Regninu fylger opt Stormur; Mootlætinu fylgia opt Freistingar, so ein Eymd bijdur anari heim.

Þa siest hvad good og avaxtarsom Jorden er, þa hun fær noog Regn; þa siest hvad einn er trwadur, þolinmoodur, bænrækenn, kiærleiksfullur og dygdugur, þegar Steipi-Dogg Hormungarennar lemur a honum. Þvi leingur sem einn Hlutur rigner, þvi hreinni og hviitare verdur hañ; þvi leingur sem einn reyniſt i Mootlætinu, þvi fremur hreinſaſt hañs Liiferne fra saurugum Syndanna Verkum. Grøsenn þwngud af Regn-Vætunne lwta nidur og svigna; Krossenn gior er Mannenn audmiwkann og kienner honum ad liitelæcka sig under vollduga Guds Hond. J Regninu leita Menn Skiools og Hwsa, J Angiſtenne leita Meñ DRottens. Þad er vid Vindenn þurkad, sem i Vætuñe voknar; Hugsvolun DRottins Anda huggar þau af Hormungunum hryggvu Hiortu. Þar verda Votn i Regninu, sem adur var þurr Jord; Krossinn kiemur wt þeim Taarunum, sem adur villdu ei grata siinar Synder fyrer Gude. Soolenn uppþurkar þad vota, sem i Regninu fiell; Gud þurkar Sorgar-Taarenn af sinna Barna Augum. J Dalverpunum nemur Regned hellſt Stadar, J liitelatum Hiortum nema Guds Naadar og Myſkunar-Straumar hellſt Stadar. Epter langvarande Votvidre, er Von a langvarande Liettvidre og Soolſkine; Epter langſamlegt Veralldar Volæde, meiga oll Guds Born bwaſt vid ſiifelldu Soolar-Skine þess eiliifa Liifsins.

Epter

Epter nærst aflidenn Vetur, er nu komed glede-legt Sumar; Epter allar vorar aumu Hiervister og Hormunganna Vetrar Horkur, mun Oend-annlegt Blijdvidre þess himneska Dijrdar Su-marsins bada ad vorum Sælum. Þar mun ei Steipi-Regn Angistarennar oss væta, ei Hagl Heimsins Ossookna lemia, ei Stormur Freistin-ganna æbilia, ei Kulldi Haturfins kiæla, ei Hi-te Mannraunanna brenna, ecki Svækia Verall-darennar Vasturs fyrerglepia, helldur mun af øllum þar komuum, øllu Angre liett verda. Þar kiemur loksins þad kvijdalausa Sumar, Sw stoduga Sælann, Þad skwralausa Skined, Þar eru þau Bloomstrenn, sem alldrei folna, Sw Sool, sem alldrei undergeingur, Þad Lioos, sem alldrei slocknar, Sæ Elskunnar Elldur, sem all-drei koolnar, Sw Gleden, sem alldrei dvijnar, Sw Audlegden, sem alldrei þverrar, Sw Heil-brygdenn, sem alldrei krenkest, Þar er feingenn Klædnadur fyrer Nakleikann, Hite fyrer Kull-dann, Svolun fyrer Þorstann, Sadning fyr-er Hwngred, Audlegd fyrer Fatæktena, Hvijld fyrer Lwann, Lioos fyrer Myrkred, Fodur Land fyrer Utlegdena, Frelsed fyrer Fangelsed, Heilsa fyrer Siwkdoomenn, Æska fyrer Ellena, Lijfed fyrer Daudann, og eilijf Oendanuleg Sæla, fyrer stundlega Eymd og Armædu.

O Jesu! Þu blessada Sumar-Sool! Verm þu oss! Þu blessada Sumar-Lioos! Upplijstu

oſs! Þu bleſſada Sumar-Bloomſtur! Endurnær þu oſs! Þu bleſſada Sumar-Døgg: Svala þu oſs. Medtaktu nu i Nꜳd þeſſar vorar lijtilſiorligar Sumar-Gaſur, og giør þær þacknæmilegar fyrer þijnum himneſka Fødur. Gief oſs ad wtenda ſo allar vorar Æfi-Stunder, ad oſs ſie þvi viſſara, ad fꜳ ad nioota þeſs eilijfa Dijrdar-Sumarſins, ſem vier erum nær Daudanum.

Þier eilijfe Gud og himneſke Fader, ſie Lof og Dijrd! Þier JEſu Chriſte! Guds Sonur! Sie Heidur og Þackargiørd! Þier O! þu goode heilage Ande ſie Prijs og Vegſemd. Bleſſud ſiertu heiløg Þreñing, Og þu Odaudlega Eining i fra þeſſu og um alla Eilijfd. Amen, fyrer JEſum Chriſtum, Amen.



# Sio Hugleidingar,

## ſem leſaſt meiga i Jñgaungu Vetrar.

## I. Hugleiding,

### Af Vetrinum.

Pſalm. 104. vers. 24.

DRotteñ! Hverſu eru þijn Verk ſo marg og ſtoor, øllum hefur þu þeim med Vijsdoomi nidurſkipad, Jørdeñ er

er full af Guds Myſkunſeme.

Forſioon og Fyrerhyggia hins lifanda Guds, ſem hann lætur oſs ſiaa og forſmerkia i allre ſinne Stioornan, er ſo daaſamlegur og Sañleiks-fullur Vottur hañs Giædſku og fodurlegrar Polinmæde vid oſs Mennina, ad eckert Mañs Hiarta, ſem þad riettilega og med Gaumgiæfne athugar, kiemſt hiaa þvi ad upphroopa af ſtærſtu Forundran þaryfer med framſogdum Davids Ordum: DRotteñ! Hverſu eru þijn Verk ſo mørg og ſtoor. A þeſſa hanns guddoomlega Forſioon miñer oſs naalægur Tijme, aa hverium vier meigum medkienna, ad hann vijsdoomslega hafe þvi nidur ſkipad, ad vier hofum enn einuſiñe uppbyriad einn Vetrar Tijma, epter afſtadenn gledilegann Sumar Tijma. Eñ hvad er i þeſſu hellſt adgiætande? Guds fodurleg Forſioon og Fyrerhyggia, ſem berlega hefur augliijſt ſig aa øllum Hlutum bæde aa Himne og Iordu aa þeſſu Sumre; Þvi Himiniñ og Jørdeñ ſtandaſt fyrer Guds Krapt, ſeger Petur, 2. Pet. 3. 5. Og ſo ſem hanns bleſſud Forſioon hefur nu ollum Hlutum ſtioornad oſs i Hag, ſo laatum vort Packlæte i Inngangngu þeſſa Vetrar vera medal annars hellſt i þvi innifaled, ad yfervega oſs til Packlætis Upporfunar, hvilijka Umſorgun hann hefur bored fyrer oſs aa undannfarande, ber enn þa fyr-

er oss a yferstandande, og mun bera fyrer oss a epterkomande Tijmum. Gud styrke oss hier til med sijne Naad i JEsu Nafne, og læte þetta verda sier til Dijrdar, oss til Farsælldar og Blessunar andlegrar og lijkamlegrar, tijmannlegrar og eilijfrar, Amen.

Ef vier vilium athuga Guds fødurlega Forsioon vid oss a undannfornum Tijmum, þaa lijtum lengra fram, enn til þeirra Tijmanna sem nærster hia lidu. 1. Hvør bar Umhyggiu fyrer oss aadur enn vier vorum til? David svarar hier uppaa og seger: Þijn Augu saau mig þegar eg var ei nu ecke skapadur, og þesser Hluter voru aller skrifader i þijna Book, Psalm. 139. þad er, hann hefur laungu fyrr, aadur en Grundvollur Veralldarennar lagdur var, uppteiknad og aalyktad i Book sinnar eilijfu Forsioonar, ecke einasta hver vera skyllde sa seinaste Dagur vors Lyfs, helldur hvad yfer oss skyllde koma a hverium Deige, hvenær vier skylldum mindast i Moodur Lijfe, hversu oss skyllde þar lijda, hvenær þadann utfara, hvad a vora Daga skyllde drijfa i þessu Lijfe; hvert vier skylldum verda rijker, hvert fatæker, hvert og hvenær bwa vid Medlæte edur Mootlæte, hvad langlijfer, hvad skamlijfer vier skylldum verda, þvi sagde hann vid Kongenn Cyrum, Es. 45. Eg kallade þig med þijnu Nafne og nefnde þig, þaa ed þu ei þeckter mig ecke, þad er ad segia, aasette ad lata þig ver-

da Konung, og þesse Spaadoomur segia þeir Lærdu, ad hafe vered framfluttur af Esaia, 200. Arum fyrer Cyri Fæding; 300. Arum ꜳdur enn Josias Kongur fæddest, kallade Gud hann med sijnu Nafne, og sagde hann skyllde aptur helga Altared i Bethel, 1. Reg. 13. So hefur þꜳ Gud i Himnenum fyrer laungu ꜳlyktad, ad þad skyllde yfer oss koma, sem vier hofum ꜳ umlidnu Sumre reynt, hvert oss þookte þad blijdt edur strijdt, þar fyrer er gott ollu þvi ad taka, sem hann vill vera lꜳta.

2. Eins bar hann Umhyggiu fyrer oss i Fædingunne, þvi seger Salomon: Aller Hluter hafa sinn vissann Tijma, Tijme er til ad fædast; þu minn Gud vtleidder mig af minnar Moodur Lijfe, Pred. 3. Þad Dꜳsemdar Verk Guds Forsioonar hofum vier opt mꜳtt sia og tilspyria ꜳ umlidnu Sumre, yfer hveriu oll Verolldenn mꜳ undrast, og falla i Forundran, jafnvel þo þad sie ad litlu lagt, af þvi þad skiedur daglega. Enn hver er so blindur, hann siꜳe þar ecke augliossa Guds Tilhlutan? Hvad gietur Mooderenn tilhiꜳlpad? og flestar ꜳ medal vor til þeirra Starfa kosnar, kunna lijtt ad þvi Verke, so allt fare vel; Hver er þa Lioosmoodur Hondenn hollust? Þad er þijn Hiꜳlpar og Mysknar Hond minn HErra og minn Gud! Rachel doo af Barnburde, þo var Beniamins Ættlidur sꜳ hellste, Gen. 35. Hversu mikla Asookn mun Dioosullenn ecke hafa

ad drepa þau Børn i Fædingunne, sem hañ grunaa munde ad Guds Christne kyñu verda til Uppbyggingar? Hverſu munde fara ef Guds Forſioon ſæe þaa ei beſt til? Honum einum er þad ad þacka, ad þaa er allt vid Hondena ſem medþarf handa Barnenu, og hanns Englar ad taka þaa Skiepnu ſtrax i Voktun, hveria þeir eiga ad bera aa ſijnum Hondum, ad ei ſteite hun Foot ſinn vid Steine.

3. Oh! hvad naakvæmlega leit hanns bleſſud Foorſioon til vor i Ungdoomenum og Uppfooſtrenu, þar um meigum vier aller ſegia med Job, Cap. 10. Þitt Tillit (Adgiætne) hefur vardveitt miñ Andardraatt. Eiñeñ ſeger David i Pſ. 22. Þu varſt mitt Hialpar Trauſt, þaa eg var enn nu aa miñar Moodur-Briooſtum. þu ert minn Gud allt i fraa miñar Moodurkvide. Guds Myſkunſeme var ſw Lioofs-Mooder ſem took oſs fyrſt i Skaut, og æred ſkamt naade Forſioon vorra Forelldra, ad vakta oſs fyrer ollum Dioſulſins Skadſemdum, er hann lagde i Veigeñ fyrer oſs aa Skeide vorrar Æſku. Til ad minnaſt þeſſara Guds Velgiørninga eiga ſier hver Tijmanna Umſkifte ad upporfa oſs, ſo vier med þeſs hættar H. Hugleidingum, þockum fyrer og endum vel þaa umlidnu, enn helgum og bleſsum þaa epterkomande Tijma.

4. Þeſsare ſinne bleſſadre Umſorgun hefur hann ſijdann allt til nalægs Tijma framhallded

vid

vid oſs, og enn þaa aa nærſt umlidnu Sumre, breitt vid oſs, ſem einn elſkulegur Fader vid ſijn aaſtkiær Børn. Hañ ol Oñ fyrer Saalum vorum, ad þær ſkyllde alldrei aa Bord breſta, helldur ſkyllde þeim ſijfelldlega ſvalad verda aa hanns Myſkunar Straumum, og þær ſkylldu verda endurnærdar med þvi hinineſka Maña, hañs bleſsudu Lijfſins Orda; Hanns Forſioon var yfer vorre Næringu, Hondlun, Utrettingum, og ollu þvi vier tookum oſs ſyrer Hendur ad giora; hañ ſende oſs Bleſsan af Himnenum, hann gaf Avøxt aa Jordena bæde fyrer oſs og vorar Skiepnur, hañ ſende oſs Bleſsan gegnum Hafed vor odrum Londum, hann færde og flutte hvern einn af oſs til þeſs Stadar, hvar vier ſofundum hanns Bleſsan til vor; hann flutte oſs og ſijnar Gaafur med oſs yfer allann Haaſka og Torfærur ſliſalauſt Dag epter Dag. Hverſu margur hefur ydugleaa med vodaleg Verkfære hondlad, Jaa, og þad ſtundum miog ovarlega? Eñ alls engeñ edur miog faaer ſkadad ſig: Munde þad vera vorre Varfærne ad þacka? Nei, langt fraa; helldur Guds fodurlegre Forſioon og Adgiætſlu, og þad midt i þvi vier vorum ad moodga hann og ſtyggia, bæde med vitanlegum og ovitanlegum Illgiordum vorum. Hver ſkyllde ei komaſt vid i ſijnu Hiarta af Yſervegan þvilijkrar Guds Giædſku og fodurlegrar Fyrerhiggiu, andvarpa af Hiarta og ſegia: Miñe er eg Drottenn ollum þijnum Myſkunſemdum

um, er þu lætur fram vid oss koma. Item: Hvad skyllde eg DRottne endurgiallda fyrer allt þad gott sem hañ hefur giört vid mig, Lof seig þu Ønd mijn DRottne.

5. Nu, ef vier athugum þann yfer standande Tijma, þa byrium vier einn Vetur i Dag; Eñ i hveriu Asigkomulage edur Stande? Eg svara; under nædarfullre Stioornan hinns giædskurijka Fodurs, aller heiler og heilbrygder, æsamt aller vorer Astviner; vor Hws og Heimile eru enn þa, og allar vorar Skiepnur under hanns blessadre Vernd og Varatekt. Þvi sem hann widdeilde oss i Sumar, hvsum vier safnad i vorar Korn hlodur; blessad sie Nafned DRottens! Hier yfer meigum vier fagna, ad hann er oum̃breitanlegur i sinne Goodgyrne og Myskunseme; eñ ef nockurn brestur, so hann hefur ei allt fyrer Augum sier, þad hann fyrer sitt Hws medþarf til Vetrarens, þa er gott vid þad ad una, ad Gud vill so hafa þad; verde hanns Vilie! vorpum þvi allre vorre Ahyggiu uppa hann, hañ mun þvi ollu vel til Vegar koma. Vor himneskur Fader veit, ad vier þurfum alls þessa vid; Þad er vel, þo hann geyme vort Biargræde, þar til Vier þurfum a ad hallda; hanns hægre Hond er ecke so stutt ordenn, ad hann kunne ecke, og hanns Myskunar Hiarta ecke so hardt, ad hann vilie ecke hiælpa: a Deige Hiælpprædesins hiælpar hann oss; þad er miklu betur geymt hia honum enn oss, sem hañ

ætl-

ætlar oss og vorum ad lifa af ; verum ad eins aanægder med þad sem yfersteńdur: Engeñ af oss er so orbyrgur ad hann eige ecke Gud ad, og þad vijdur aa mestu, þvi nær vier ad eins høfum hann, þaa hyrdum vier hverke uḿ Himennie Jørd, Ps. 73. medann hanns Hond helldur fastlega med oss, og hanns Armleggur styrker oss, Ps. 89. þaa er noog : þvi þad kiemur ecke af Austre nie Vestre, ecke helldur af Fiøllunum i Eydemørkunne, Ps. 75. sem vid eigum ad biargast vid, helldur kiemur þad ad ofann fraa Fødurs Liooſanna, Jac. 1. og vor Hiaalp kiemur af Drottne, sem skapad hefur Himen og Jord: Ef vier ottustum hann, þaa lætur hañ oss ecke lijda Skort til lengdar, Ps. 34.

6. Hanns Forsioon mun og lijta til vor aa efterkomande Vetre: Engenn Ordsok er til þess ad vier berum Kvijda fyrer honum: Saa Konunglege Spaamadur David, hefur oft, og i einum sijnum Psalme, 26. sinnum itrekad þesse Ord: Hañs Myskunseme varer eilijflega, Ps. 136. Ecke gierer David þetta af Raadleisu, helldur af aasettu Raade heilags Anda, so aller skule hafa i Minne þesse Ord aa øllum Tijmum og Tijmamootum: Hañs Myskunseme hefur varad, varer enn, og mun vara, yfer Ungum og Gømlum, Rijkum og Fatækum; Eins og þad Soolenn hefur skyned ; skijn enn, og mun skijna, og þreitest ecke, helldur gledur sig ad hlaupa siñ Veg, Ps. 19.

so er Guds Myskunseme, hun er hvern Morgun ferſk og ny: Þad ſkal vera mijn Glede ad giøra þeim gott, ſeger hann hiaa Jeremiam, Cap. 32. ſaa Straumur þverrar alldrei, þad Lioos ſlocknar alldrei, þeſſe vor Gud, hañ er vor Gud alltijd og æfennlega, Pſ. 42. Hvar fyrer kvijdum vier þaa Vetrinum? Þo vort Aſtand kunne i nockru, Jaa, i morgu hiaa ſumum, lijta ut til Veſælldar; hvar fyrer ſyrger þu þaa? hvij kvijder þu þaa? fyrſt Guds Myſkunſeme varer eilijflega. Þegar eg yrde þeſs var, ad Gud liete af ad vera myſkunſamur, liete af ad ſtioorna, vernda, hiaalpa og bleſſa, þaa villda eg fyrſt kvijda fyrer Allvoru, þaa villda eg bera mig hormulega. Þar fyrer, þaa þu, O! Madur, hugſar fyrer Vetrenum, þaa ſeig eins og Abraham: Gud mun ſiaa fyrer Foorneñe, Gen. 22. Eins geck þad Jacob, þaa hann kveid fyrer Dijrtijdenne; hann viſſe þaa ecke ad Gud var bwenn ad ſetia Joſeph i Volldenn, ſo hann giæte hiaalpad uppaa hann, Gen. 42. Guds Sonur ſpurde: Hvar kaupum vier Braud, ſo vier faaum þaa mett-ad? enn hann viſse vel hvad hann villde giora: Gud veit noog Raad til ad hiaalpa þo vier vitum ecke. Þeſſer og þvilijker Þanckar eiga ad koma upp hiaa oſs, þaa vier forum ad kvijda fyrer ſeiñe Tijmunum. Þegar eg hugſa til Vetrarens, og hverſu lijtenn Forda eg heſe fyrer mitt Hws, þaa ætla eg ad ſegia med David, Pſ. 31. DRottenn,

hverſu

hverſu mikil er þijn Goodgyrne, hveria þu hefur geymt þeim ſem þig ottaſt. Giædſka Guds er opt og tijdum hulenn i læangañ Tijma fyrer oſs og þar af ordſakaſt vor Kvijde, og Vijlſeme, enn æ ſijnum Tijma auglijſer hun ſig ſo lyſtelega, ad þad er Unun ad reyna og ſiaa. Þu ſeger opt: Hver mun vellta fyrer oſs Steinenum af Grafar-Muñanum? Eñ þaa ſaa Tijme kiemur, ſem þu kveidſt meſt fyrer, þaa ſier þu ad Steinnenn er af velltur. Hverium villtu befala þijna Saal i Daudanum? Þu ſeger: Mijnum HErra JEſu Chriſto. Þu ſvarar riett; Eg befala mijna Saal i þijnar Hendur, þu trwfaſte Gud, ſeger David, i Pſ. 31. Ef vier vogum ad befala honum i Daudanum ſo dijrmætann Fiaarſiood, ſem Saalenn er, þvi vogum vier þaa ecke ad æbyrgiaſt honum i Lijfenu, þad miklu minna er verdt; Þar fyrer, ſaa Gud ſem hijngad til hefur aled Onn fyrer oſs, og greidt alltijd dæſamlega wr vorum Vandrædum med ſinne Guddoomlegre Speke og Almætte, hann mun og vel ſiaa fyrer voru Raade æ efterkomande Vetre; þvi ſkal eingu kvijda, þo ovænlega þyke æhorfaſt i einhveriu: Þockneſt honum ad laata oſs lifa, þa lifum vier fyrer þad Medal, ſem hann finnur fyrer gott ad hiaalpa oſs med; Enn þockneſt honum ad laata oſs deya, þaa deyum vier DRottne, ſo hvert vier lifum eda deyum; þaa erum vier DRottens. Kome þad uppaa ſem koma vill; hann vill þaa ſo

hafa þad; þad er best sem hann vill; Læatum oss nægia þad Tilstand, sem Gud setur oss i, hvert sem þad verdur Medlæte edur Mootlæte; spyrium ecke eins og Petur: Hvad skal þesse? helldur segium med David: Eg vil þeigia, og ecke mijnum Munne uppliwka, af þvi þu giørder þad, Ps. 39. holldum med Gude, enn moote sialfum oss; siungium og segium af Hiarta: Verde ætijd hvad vill miñ Gud, edur med Paule, 2. Cor. 12. Fyrer þvi em eg med goodu Trauste (þad er, vel ænægdur) i Breisklleikanum, i Forsmæanenne, i Neydenne, i Offsooknenne; Item, med David: Befala þu DRottne þijna Vegu, og vona æ hann, hann mun þvi vel til Vegar koma. Sæ same Myskunsemdanna Fader gefe oss, ad þesse epterkomande Vetur verde oss ollum blessadur og farsæll, snwe fræ oss allre Olucku bæde Lijfs og Sæalar, enn sende oss Heppne og Hamingiu til allra Utrettinga vorra, hann uppfylle alla vora Naudþurft, epter sijnum Dijrdar Rijkdoome i DRottne vorum JEsu Christo, AMEN.



## 2. Hugleiding, af Tunglenu.

Ps. 136. v. 1. og 9.

PAcked DRottne þvi hann er goodur, og hanns Myskunseme varer eilijf-

lega, hønum sem giørde Tungled og Stiørnurnar ad stioorna Noottune, þvi hanns Myskunseme varer eilijflega.

Ð Vepte og Byrtu er Tungled þad Himen-Lioos, sem Sooluñe er lijkast fyrer vorum Sioonum, hvar fyrer Moses seger, ad Gud hafe giørt tvø Stoor-Lioos, þad stærra Liooſed ad stioorna Deiginum, enn þad minna ad stioorna Noottune, hvar hann can Efa meinar Soolena fyrer þad stærra, enn Tungled fyrer hid minna Liooſed. Gude sialfum lijke eg vid Soolena, og so giorer Malachias, Cap. 4. þvi hann er laangtum fegre og dasamlegre, enn allar þær Skepnur, sem hann skapad hefur, jafnvel þo þær sieu allar harla goodar af hønum giordar. Enn næst hønum kalla eg ad gaange sanngudhrædd Manneskia, og þad fyrer þaa Ordsok ad Ritningenn kallar þaa gudhræddu Brædur Christi, Joh. 3. Born edur Syne Guds, Joh. 1. Erfingia Guds, Rom. 8. Samarfa Christi, 1. Pet. 3. Brædur Christi, Joh. 20. Lideog Lime Christi, 1. Cor. 12. Mustere heilagrar Prenningar, Joh. 14. og fædder af Gude, Joh. 8. Eiñeñ fyrer þessar Samlijkingar.

Þess vegna er Tungled eitt hid fegursta Lioos, ad Soolarennar Birta stijgur ofann til þess og ylirlijsir þad; Manneskiann er þess vegna ein veglegasta Skiepna Guds, ad sin blessada Rie-

 lætes

lætes Sool JEsus, stie nidur i hennar Holld, og samteingde þvi sijna guddoomlega Nattúru. Og vilie nockur segia, ad Englarner gange nærst Gude ad Vegsemd og Sooma, þa hefur þo Christur ecke þa, helldur Abrahams Sæde upp a sig teked. Tungled er eitt h d minnsta Himen-Twngl, enn sijnest stoort sokum þess þad er so nalægt oss; Hvar fyrer skylldum vier ecke aalijta, og athugasamlega yfirvega vort eiged Ma-sigkonulag, sem erum nærster sialfum oss, og giæta þar ad, ad vier, vegna Adams Syndar, vorum ordner su minnst verda og vidurstyggelegasta Skiepna fyrer Guds Auglite, og þad erum vier enn þa af Natturunne til, Born Reidennar, Eph. 2. Syndarennar Þrælar, Joh. 8. Ef vier nalægium oss Orde DRottenns, þa sia-um vier oss, fyrer Christi Forþienustu, nærsta stoo-rann Veg og Virding hloted hafa, þar vier nu fyrer Trwna a hañ erum Guds Born ordner og Brædur Christi, Hebr. 2. Samborgarar Heilagra og Heimamenn Guds, Eph. 2. Syner Ljoosins, Eph. 5. Heilog Þ.ood, Konunglegur Keñemañskapur, 1. Pet. 2. Og Siaalldur Guds, Zach. 2. O! hvilijkur Vegur og Virding er þetta! Tunglid hefur sijna Byrtu af Soolunne; ef hun skyne ecke a þad, þa være þad alldunges dimmt Lijkame; Eingenn fær vorn Skilning upplijstann i Saaluhialplegre Þeckingu Guds og hanns Orda, nema Sool Riettlætesins

tesins JEsus, sem upplijsir alla Menn er koma i þennann Heim: Hvad Loflegt er, hvad Gofugt, Astrodlegt og Gott er, i, med, og hiaa ofs, þad er af honum, og af hanns Fyllingu hofum vier þad medteked, og fenged Naad fyrer Naad, þvi i honum erum, lifum og hrærunst vier, Act. 17. Og hann er ofs af Gude giordur og giefinn til Vijsdooms, Helgunar og eilijfrar Endurlausnar, 1. Cor. 1. Tungled upplijsir þaa myrkvu Noott: Gott Nafn og Lijferne eins sanngudhræddz christens Manns, er sem eitt Skridlioos, epter hveriu hiner adrer eiga ad regla sijnar Gierder. Tungled vex og mijnkar, edur riettara ad segia, þess Lioome og Byrta: Christnen Gudshefur fraa Upphafi ymest mijnkad fyrer Offooknernar, edur vaxed fyrer naadarfullt Yfirskyn gudlegrar Hiaalpar og Vidurkienningar; Hvad hid sijdara vier eigum hiartanlega ad þacka þeim himneska Lioosanna Fodur, ad enn nu til naalægs Tijma vidhelldur hann sinne Christne hiaa ofs med riettre Kienningu Guds Ords, og reglulegre Tijdkun Sacramentanna; Blessad sie hanns Nafn ad Eilijfu, og giefi ad hun lijde einga Formyrkvun Offooknanna nie Villu-Lærdoomanna aa þessum Vetre, helldur ad hun bloomgest sem einn plantadur Guds Vijngardur, allt til Veralldarennar Enda! Eckert Himen-Tungl gengur fliootara til Austurs enn Tungled aa moote Soolarennar Uppruna; Fetum nu oll

vor Footspor Hugrenninganã, Verkanã og Or-
danna a Veg fyrer blessada Riettlætes Soole-
na JEsum Christum, a epterkomande Vetrar-
Tijma, og byrium þann Gang strax i Ondvege
Vetrarens, so hann verde alltijd a Vege fyrer
oss, oss til Hiaalpar og Hamingiu, hvad sem oss
aliggur. Hann er Vegurenn, Sannleik-
urenn og Lijfid, Joh. 14. Bidium hann ad
greida vorar Fætur fram a Veg Fridarens.
Verum hradfætter a Vege Dygdanã og Manñ-
kostanna: Fetum swoser, og viliuger til þeirra St-
adanna, hvar Guds Ord er kiennt og predikad,
þa mun JEsus upprenna oss sem ein blessud
Naadar Sool i sijnu Orde, og vor dofenn og
Jskolld Hiortu, med sijnum Naadar Jl, og
Varma sinn huggunarfullu Fyrerheita mysk-
unsamlega þijda og verma, og upp af þeim dra-
ga heitann Jdrunar og Bænar Vokva og Var-
ma. Tunglsins Formyrkvan ordsak-
ast þar af, ad þad geingur inn i Jardarennar
Skugga, verdur so Jorden midt a midle þess
og Soolarennar, hvar fyrer hun getur ei a þad
skyned: Laatum ei þad Jardneska og Forgeingi-
lega byrgia fyrer oss JEsu Naadar Lioma:
Þegar Hiartad er fullt af Gyrnd og Lysting til
þess jardneska, þa er þad riett formyrkvad, so sw
Saal sier ei Fegurd sijns Lausnara: Allra sijst
skylldu vor Hiortu verda Formyrkvud af Gyrnd
og Lysting til Myrkranna Verka, helldur sijelld-
lega

lega vera upplijst med skylausum Jdranar Anda: Þegar Tungled geingur Austur um, ad Vij vid Soolena; þaa beiger þad Gaang sinn til Jardarennar, so sem þad vilie veita henne Lotn-ingu um Leid: Verum alltijd lijtillaater fyrer Auglite Mannanna, enn allra hellst audmiwker i Auglite Guds, audmykium oss under hans voll-duga Hond, so hann Upphefie oss ad Vitiuinar-Tijmanum. Hvenær sem vær nalægiunst hanni i hanns Hwse under Guds Orda Heyrn i vorum Bænum og Andvorpunum, þaa komum fram under eins med einn sundurknosadann An-da, og harmþrwnged Hiarta. Þo Tungl-ed sie i mesta Maata upplijst, þaa er þad þo all-tijd haalft myrkt og dimmt: Ætlunst ei til, ad gefa Gude haalst Hiartad vort, enn laata þad haalft vera Yfirskygt med svartre Bwksorg, og Ahyggiu þessa forgeingelega Lijfs, helldur Elsk-um hann af ollu Hiarta, allre Ondu, ollu Hug-skote, Matth. 22. Þvi ecke gietum vier under eins Gude Þioonad og Mammona, Matth. 6. Tungled verkar miklar Umbreitingar, bæde i Vedrenu, Sioonum, og lijka ad Jordunne, og optast ordsaka þær Kullda og Mykendaleyse: Enn Soolen þijder þad allt og temprar med sinu Verkan: Vort tijmannlega Lijf er alldrei stod-ugt, helldur hefur ad sier sijfellda Velltu, og opt-ast til Austreymes og Barættu: Enn JEsus, med sijnum stoduga Naadar Varma og krostug-

re Lyknar Verkan, mijker og linar oll vor Vægende, og gefur Freistingum og Mannraunum þann Enda, ad vier fæum stadest, 1. Cor. 10. Hann læger Siöo og Bylgiur Mootlætinganā: Hann þijder Kullda og Hretvidre Heimsins Ofsookna: Hann hastar a Storm Freistinganna; Hann sefar allt Anstreyme med sinne Hiælp og Huggun. O Drottenn siælfur giefi nu, ad Tunglsens Verkaner allar stioorneft oss i Hag og til Blessunar a epterkomande Vetre, bæde fyrer oss og vorar Skiepnur, so vier verdum af ollum Guds Handaverkum blessader: Hann mijke og tempre alla Ovedurættu, og Væge oss fyrer Hagle og Hrijdum, Stoor-Hardendum og Land-Plægum, Skruggum, Elldingum og Vatns-edur Snioo-Floodum, samt allre annare Oæran. Hann vere lofadur og blessadur fyrer nædarsama Stioornan þessa Himen-Tungls a Umlidnu Sumre, og fyrergiefi oss Oþacklæted vort og Hyrduleysid, i þvi ad taka a moote hanns Velgiorningum, med skylldugre Vidurkienningu hanns Myskunar og Dæadsemda, sem hann hefur i þvi og ollu odru oss Gott giort, og læte oss ecke a epterkomande Vetre giallda vors stoora Oþacklætes med þvi ad svipta oss hvilijkre sinne himneskre Nædar-Stioornan, helldur vyrdest ad framhallda þeirre somu Næd og Giædsku epter Rijkdoome sinnar Dijrdar i Drottne vorum JEsu Christo, hverium ad sie

Dijrd

Dijrd og Valld ad Eilijfu, AMEN.

# 3. Hugleiding,
## Af Myrkrenu.
Joh. 12. v. 35.

GAnged þar Stund þier hafed Liooséd, so Myrkred hondle ydur ecke, hver sem geingur i Myrkrunum, veit ecke hvert hann geingur.

EG tilbij Liooſed og ſkapa Myrkred / ſeger Gud fyrer Eſajæ Spaamañs Muñ/ Cap. 42. Sw er Raadſtofun hins alvitra Guds, ad ſa myrkve Vetur ſkal arlega fylgia a epter þvi biarta Sumre. J Vor heyrdeſt þar eitt Gledi-Hroop a medal vor: Veturiñ er umlidiñ, eñ Sumared tekur ad nalgaſt, Cant. 2. v. 11. Enn nu er þad umbreitt i þeſſa Sorgar-Klogun: Sumarid er hiaalided, eñ hiñ dime Vetur er yferkomeñ, ſem ſærer med ſier margann þann Oheutugleika, er Sumarid eckert af viſſe, enn þo ſierdeilis Myrkred og Dimuna; Þar fyrer, ſo hættulegt ſem þad er fyrer hiñ heilſkigna, ad ganga i Myrkrinu an Liooſsins, og ſo ſkadvænlegt ſem þad er fyrer hinn blinda an Leidſagnar-Manns, þvi þar ſem hinn vantar

Dags-Liooſed, þar vantar þennann Augna-Lio-
oſed, ſo er þad bædi hættulegt og ſkadvænlegt fyrir
oſs ad inngannga þann myrkva Vetur-ann Liooſs
og Leidſagnar þeſs Ords, ſem er Lioos a vor-
um Vegum, og Lampe vorra Foota, Pſ. 119.
Uppliſum. þvi hinar fyrſtu og dimu Vetrar Næ-
tur med þeſſu Liooſe, ſo munu allar adrar; ef
vier þvi ſama framhölldum, oſs uppliſtar ver-
da af himneſkum Liooma Guds naadarfulllrar
Naalægdar, Sierdeilis, ef vier þa ei forſoomum
ad uppliſa þær med Leſtre Guds Orda og Bæn-
enne, þvi hiaa hønum eru ecke Myrkurenn
Myrkur, og Nootten maa liſa ſem Dagur-
enn, Pſ. 139. Og han er ſiaalfur þad Lioos, i
hverium eingen Myrkur eru, 1. Joh. 1. Þa
gietum vier ſagt eins og David ſagde: Þu DR-
ottin ert min Lampe, DRottenn mun upp-
liſa miin Myrkur, 2. Sam. 22. 29. Þa J-
ſraels Foolk var aa Ferd i Eydemorkenne, þa
uppliſte DRottenn þeſs Natur Myrkur med
Elldſtoolpanum, Exod. 13. Hann uppliſe og aa
þeſſum Vetre bæde þeſſa Nott og allar adrar
med ſinne Vernd og Naadar Naalægd, ſo munum
vier ei þurfa ad Ottaſt fyrer þeirre Drepſootteñe
ſem i Myrkrunum lædiſt, Pſ. 91. 5. Marger
hrædaſt Myrkurenn eins og þeim ſie i þeim meire
Hætta bwenn, enn i Byrtunne; Enn þar eru
Syndſlegs Myrkur, aa hverium Menn ſkulu
helſt taka Vara, ad þau ſkade þa ecke.

Hin Fyrstu eru Syndañ Myrkur; Þvi hrædast Menn þau ecke? J þeim bwaþo þær Vosur, sem mest er ad Ottast fyrer, og orsaka eilijfann Sælar Skada. Enn þetta geingur so andsælis, ad Menn Ottast fyrer þeim Myrkrum, sem ecke færa meira Jllt med sier, enn Byrtann; Þviad so sem þar er til siw Drepsott, sem i Myrkrunum lædist, Ps. 91. so er þar og til siw Drepsott, sem um Middeiged fordiarfar; enn þau hin somu Myrkur, sem þa mest skada og leida epter sig eilijfa Drepsott bæde Sælar og Lijkama i þeim eilijfu og ytstu Myrkrunum, Matth. 25. þau hin somu, sege eg, elska Menn meir eñ Liosed, Joh. 3. og hafa so Samfelag vid Ofriovfsom Verk Myrkranna, Eph. 5. Nu ef vier viljum ad þesse nijkomne Vetur verde ofs blessadur og farsæll, þa ydrunst þeirra Myrkrañ Verka, sem vier giordum æ umlidnu Sumre, ad ei kome yfer ofs i Vetur þad David spaer þeim Ogudlegu, seigiande: Þeirra Vegur mun verda harla myrkur og sleipur. Jtem seger Job, C. 12. Ad Gud late þæ faulma so sem i Myrkre, þad er: Þeir ana rædlauslega fram, þvi hañ slepper af þeim sinne Verndar Hende. Guds Englar eru Englar Liossins, utsender þeim til Þenustu, er Sæluhiælpina erfa skulu, Ebr. 1. Eñ hreiner þeir flija Synd, ef siæ, so sem Bijflugur Reiknum frar. Þeir sleppa sinne Vortun af þeim, sem segia hid vonda Gott, og

hid gooda Voudt, sem giora Myrkred ad Lioose, og Liooſed ad Myrkre; Enn ef Gud tekur frá oss sijna Vernd og Voktun sinna H. Engla, hversu biart mun þa verda i kriingum oss? Mun ecke hann, sem er Myrkra Stioornare þessa Heims, Eph. 6. sæta þvi Tækifære, og kappkosta ad koma oss i þau ytstu Myrkur. Þess Vijsa Augu eru i hanns Hofde, seger Salomon, Eccl. 2. 14. enn Dáarenn geingur i Myrkrenu, þad er, blindt áfram i Andvaraleysinu og Myrkrum Syndanna og Blindne Holldsins. Einsetium oss þvi ad láta vor Verk og allar Athafner á þessum Vetre vera i Gude giordar, Joh. 3. 21. Eg em Lioos Heimsins (seger JEsus, hiá J. h 8: 12.) hver hañ fylger mier epter, hañ skal ei gaanga i Myrkrunum, helldur skal han hafa Lioos Lijfsins. Enn hvernig er hann Lioos Heimsins? Auk þess, ad hann med Liooſe siña blessudu Orda upplijste alla Menn, sem koma i þeñann Heim, Joh. 1. hefur hann lijst oss med sijnu blessada og heilaga Lijferne, ecki einasta ad votta þar med sitt syndlausa Lijferne (þar eingeñ kuñe ad straffa hann um̃ nockra Synd) edur med siñe Hlijdne uppfylla vor vegna Logmaaled, helldur einnig er hann Lioos Heimsins til þess, ad hanns Lyferne sie oss til Efterbreitingar; þar fyrer seger Petur, ad hañ sie settur oss til Fyrermyndar, ad vier gaungum i hañs Foot-Spor, 1. Pet. 2. þvi sagde hann vid Læriſveinana, þa hañ

haf-

hafde þveiged þeirra Fætur: Eg hefe giefed ydur Epterdæme, ad eins sem eg giørde ydur, so skulud þier og giøra, Joh. 13. 15. Þess vegna, ef vier setium oss hanns Dæme fyrer Siooner, til Efterbreitingar, þa erum vier þau riettu Lioossens Born og Dagsins Syner, 1. Thess. 5. þa gaungum vier ecke i Myrkrunum, giørum og eige Myrkranna Verk, helldur frelsunst fra Verdlaunum Myrkranna. Skeitum þvi ecki, þo oss sijnest þeir Ogudlegu komast vel af med sitt Myrkra Athæfe, þvi þessa Heims Tijme er þeirra Tijme og Magt Myrkranna; Luc. 22. Hvad seger Esajas, Cap. 29. 15. Vei þeim sem søckva sier diwpt fra DRottne, ad hylia þeirra Asorm, og hverra Verk eru Myrkrana Verk, og segia: Hvør sier oss? hver þeckter oss? helldur tokum Vara a siaalfum oss, ad ei gaungum vier i þeirra Foot-Spor. Laatum helldur vort Lioos lijsa fyrer Monnum, so ad þeir siae vor Goodverk, og dijrke vorn Gud, sem er a Himnum, Matth. 5. Þa munu Lioossens Englar vera hia oss og vardveita oss fra Myrkrana Hofdingia þessa Heims, og ollum hans Slægdar og Viela Myrkrum; So munu vor Vetrar Myrkur verda af þeirra dijrdlegre Naalægd og himneskum Liooma upplijst.

Hver sem nu þessa giæter, hann þarf ei ad kvijda fyrer hinum ødrum Myrkrunum, sem a skyggia opt Guds Born i þessum Heime, sem eru Hørmung-

mungaſna Myrkur; A þeim ſkulum vier eirninn Vara takaſ, ſo ad ei giorum vier Chriſti Krois og Næningians Kroſſe. Gud veit hvad uppa kan̄ ad falla fyrer oſs a epterkomande Vetre! Skied gietur ad vier miſſum vora Heilſu, og þa þyker morgum aſkyggia, þegar ſo fellur. Falla ma, ad vier an̄adhvert reynum bagt a vorum Aſtvinum, hvad morgum fellur ecke liettara, enn þo að þeim ſialfum læge, þad a þeirra Aſtvinum liggur, edur kannſkie vier hliotum ad ſia a Bak þeim, og miſſa þeirra ynduſlega Samtwi; þa er ecke ſtundum leinge þeſs ad bijda, ad Elldur, Vatn, Vindur, edur ennur voveiſleg Tilfelle, grande vorum Eignum edur Skiepnum, og hvor kann þad allt ad upptelia, ſem ad vill ana, þegar Vetrar Tijme Hormunganna yfer ſtendur? Varum þvi ei varbuner! Kannſkie eitthvad af þeſſu hitte oſs. Hvor mun nu upplijſa þeſſe Myrkur? Hvada Sool edur Lioos mun þeim afvenda? Menn brwka Lioos i Hwſum a þeim dim̄a Vetrar Tijma; Enn hvad ſeger Gud fyrer Davids Munn: Þar mun upprenna Liooſed ſyrer þa Froomu i Myrkrunum, Pſ. 112. Hvad fyrer Myrkur meinar han̄ hier? Hann meinar Hormunganna Myrkur; Enn hvada Lioos meinar hann? Hann meinar Lioos gudlegra Huggana, þvi ſeger hann i odrum Stad, Pſ. 97. Þar er ſaad einu Liooſe fyrer þan̄ Riettlaata, þad er, hann er alltijd gladur i Mootlætinu, af þvi, ſa
Gud-

Gudhrædde og Froome huggar sig alltijd vid Guds Myskunseme. So er þad þa almættugur goodur Gud, sem upplijser Hörmunganna Myrkur med Raad og Hiælp, og burtrijmer þeim med sijnum Huggunum. Þo Lijkamenn sie i Egypstalands Myrkrum staddur, þa er Saalenn og Hiartad i sijfelldu Gosen Lande himneskrar Huggunar Byrtu, Fridar og Fagnadar i heilogum Anda, Rom. 14. Þegar Guds Huggun er nælæg, þvi hennar Lijf er foolged med Christo i Gude. Vier kieppustum vid ad vera byrger af Ljoose under Vetureñ, til ad upplijsa Myrkreñ med, sofnum nu under Veturenn Huggunar Ljoose Guds Naadar Losana i vor Hiortu, ad upplijsa med þeim Myrkur Angistarennar, ef þau kuña ad koma yfer oss, so ad Ljoos Huggunarinnar yfergnæfe hiaa oss Myrkur Sorgarinnar, Pred. 2. og vort Hrygdar Myrkur verde ad Ljoose, Es. 42. Þetta befalar oss sialfur Fader Ljoosanna, Jac. 1. er hann seger fyrer Munn Esaiæ, Cap. 30. 10. Sa sem geingur i Myrkrunum (þad er, i Hörmungunum) og ecke hefur Ljoosed (þad er lijkamlega Huggun) hañ skal vona a DRottenn, (þad er, vænta hanns Hiælpar og Adstodar). Item seger hann enn aptur, Cap. 58. Þitt Ljoos mun uppreña i Myrkrenu og þitt (Mootlætinganna) mun vera sem Middeged.

Hugsum epter þessu, ef oss kunna ad mæta nockrar Mannrauner, a þessum Vetre, giætum

ad,

ad, hvor þad er, sem leggur þær a oss, þad er sialfur Gud; DRottenn deyder og lijfgar, 1. Sam. 2. DRotteñ gaf, DRotteñ burttook, sagde Job, þegar þo sialfur Diofullenn hafde giort honum Skada og Skapraun; Enn Job visse þad gat ei skied nema fyrer Guds Tillatseme, og þar vid huggade hann sig. Guds Alag er ecke Sverd Doomarans, helldur Hrijs Fodursins; Þvi hvørn þañ Son, sem Fadereñ elskar, þañ agar hañ og typtar, Ebr. 12. Giæt og ad sialfum þier, hvilijkur þu ert, sem lijdur, þu ert ecke Myrkrañna Barn fyrer þad, þo þu siert i Myrkrum Sorganna staddur, helldur ertu Broder Christi, Hebr. 2. Sonur og Barn Guds, Joh. 1. Ja, þu ert Mustere H. Anda, 1. Cor. 3. Þu ert ecke kastadur fyrer Fætur Dioflanna, þo þier sie kastad i Mara Vatn Mootlætinganña, helldur ertu vtbryniadur med Herlide Engla DRottins, Ps. 34. Guds Hønd gietur umbreitt þijnum Sorgar Myrkrum i Lioos Gledeñar þegar hann vill, Ps. 77. hann giører þad og so þegar hans Tijme er komenn og þier giegner betst, Og þo þier kunne ad sijnast, sem hanns Huggunar Lioos sie aldeilis fyrer þier vtsloked, þa vert viss um, ad vegna siñar Elldheitu Elsku til þiñar Velferdar, tiptar hann þig og agar so þu skuler alldrei tapast ad eilijfu, þvi nær vier dæmunst, þa verdum vier af Gude typtader, seger Postulenn Paulus, uppa þad vier fordæmunst ecke med

Helmínum, helldur uppa þad, ad vier, ad Hor nunganna Myrkrum afstodnum, odlunst frid-samlegann Avoxt Riettlætisins, Hebr. 12. 11. Þu munt ecke helldur verda einn a Ferd i þeim svarta Sorganna Kedrons Dal; Aller Guds Astviner eru þier samferda, hverra Vega Bref þar i giegnum þannig hlioodar, Act. 14. Fyrer margar Hrellingar hlioo tum vier inn ad ganga i Guds Rijke, Ja, sialfur Strijds-Foringenn vor JEsus Christur, hlaut þetta ad lijda og inganga so i sijna Dijrd, Luc. 24. Og ef hañ hlaut lijda fyrer adra, þvi þa ei þu fyrer sialfañ þig? Hver n[?]s gietur þar dimtvered, sem Soolenn er a Ferd? Hvernig gietur hann vered nema med glad værre Samvitsku, sem veit ad Riettlætis Sooleun JEsus er i For med honum, þo hann gange i myrkvum Dal og Daudans Skugga, hræddest hann eingva Olucku, Psl. 23. Nu er þad vijst hañ skilur alldrei vid þa, sem bera hañs Kross þolennmoodlega, hversu þwngur, hversu saar sem þeim finnst hann ad vera, þvi hier eru hanns Fyrerheit vid Hondina, sem alldrei bregdast ad Eilijfu. Hann seger hia Esajam, Cap. 41. Ottastu ecke, eg hefe þig endurleyst, nær þu geingur i giegnum Vøtnenn, þa vil eg vera hia þier, so ad Straumarner skulu ecke dreckia þier. Item fyrer Davids Munn, Psl. 91. Eg vil vera hia høn um i Neydeñe, hønum þadann, wtrickia og hann vegsamlegañ giøra.

þess.

Þeſsum og ødrum þvilijkum heilagrar Ritning-
ar Huggunar Liooſum, eigum vier ad ſafna æ
hinum ſyrſtu Vetrar Døgunum. Guds Elldur
og Lamparner mattu alldrei ſlockna i Muſterinu:
lætum Þeſse Lioos himneſkra Huggunar Ellda
H. Anda ætijd loga i vorum Hiortum, ſo þau
upplijſe Sorga Myrkrenn vor, þa þau koma yf-
er oſs. J Myrkrinu hvijlaſt Menn og ſofa, J
Hørmungunum hvijlaſt Menn af Syndañá Jd-
iu, þvi hvør hañ lijdur æ Holldinu, ſæ lætur
af ad ſyndga, ſeger Petur, 2. Piſt. 4: 1. Þegar
Myrkrunum linner, þa kiemur Lioos og Byrta æ
epter. Eins og Skined kiemur epter Skúrena,
eins og Sumared kiemur epter þeñañ Vetur, eins
giefur Gud, ad aſtødnum øllum Vetrar Hørk-
um vorra Mootlætingá, oſs eitt gledilegt og hlijſ-
endafullt Fagnadar Sumar i Himninum. So
er þa Mootlæting þeſſara Tijma ecke verd
vid þa Dijrd, ſem ſijdar mun frañ vid oſs
koma, Rom. 8. Hann giefe oſs ad beriaſt go-
odre Baræattu, behallda Trwnni og goodre
Samviſku allt til Enda, 2. Tim. 4. Hann
vardveite oſs fræ vondum Myrkrañá Verkum
og ſtyrke oſs med Næad ſijns Anda til ad iklædaſt
Herklædum Liooſſins: Hann upplijſe Myrkur
vorra Hørmunga med Liooſe ſijns Hiælpræðis,
og Huggana. Hann giefi ad vier, ad aſtødnum
Daudans Myrkrum, ødluſtum eilijſt Fagnadar
og Lijſſins Lioos i Himninum! Hønum ſie Lof og
Dijrd

Vijrd frea Eilijfs til Eilijfdar, Amen.

# 4. Hugleiding, af Noottunne.

Psalm. 77. v. 3.

EG leitade DRottens a miñar Neyd-ar Deige, mijn Hønd var nu Noott-ena wtriett, og liet ecke af, mijn Sal villde ecke lata sier hugsvala.

Vel og vijsdoomslega hefur hin Güddoomslega Speke þvi nidurskickad sem ollu od-ru, ad so sem hun gaf oß þann biarta Dag til vors Erfides og Utriettinga, so gaf hañ og einnig ka dimu Noott til Hvijldar og Hress-ingar: David seger, ad Villudijreñ hreise sier hellst a Noottuńe, Ps. 104. ecke giora þad nema hin graadugu Villudijr Agyrndarennar, ad brwka og lata brwka til Erfides og Onædes yduglega þann Part Nætturennar sem til Svefn-sins barf, hverra Myskun ad er sem þess grima, seger Salomon, Prov. 12. og asælast sijna Þienara med Ofrijke, og gleyma DRott-ne, Ezech. 22 Flaa þeirra Hwd af þeim, og þeirra Holld af þeirra Beinum, Mich. 33. ∤ eir giefa ecke sier sialfum Roo, hvad þa odrum? Davids Hønd er lijka okyrr, og wtrett alla

Noottena, enn til hvers? Ecke til ad hrema forgeingelegt Gotz og Maura, helldur andlegt og Oforgeingelegt. Ja, til ad bidia og andvarpa til Guds, til ad græta sijnar Synder og Misgiördꝛer: Hans Grætur er hans Fæda, Dag og Noott, Ps. 42. Anna þiovnade Dag og Noott; Eñ hverium? Gude. Med hvada Starfe? med Föstum og Bænahallde, Luc. 2. Vel sie þeim sem vætet um allar Nætur sitt Legu-Rum i Tarum eins og David. Þo ecke sieu Dwrarner hinns angrada Manns aller lꝥanger, þa eru þeir yndesleger og holler, þegar hann a mille þeirra er ymist ad akalla Gud, edur ad lofa Gud. Þad er Hrædsla sumra Manna edur kannskie Edle þeirra, ad þeir hrædast eitt hvad i Myrkrenu, er þeir ecke hrædast i Byrtunne: Eñ ecke veit eg hvad þa er fremur ad ottast; þvi eins eru Hrecker og Vijgviel hinus vidurstiggelega fwla Anda oss ofijneleg a Dagenn sem a Næturnar. Eñ sa einaste maa vera bæde myrkfælenn og Lioos-fælenn, sem veit sig ad vera i Reide Guds, og oforlijktann vid hann, hvers Samvitska lætur hann hverke swyna sætann nie sofa værann, þvi þeir ogudlegu slija þo engenn ellte þa, Prov. 28. So leinge sem Samvitsku Ormurenn, og Samvitsku Elldurenn lifer, Es. 66. sefur ecke sa ogudlegt med Værd. Enn villtu, Vinur Guds, læra, hvernig þu skallt so um þig bwa, bæde a þessu Kvollde og odrum, ad þu þurfer fyrer engum

Hæiska, engum illum Anda ad ottast; hverke veg-
na þijn nie þinna, helldur hvijlast og sofa med
Værd under Vængia Skioole hins lifanda Gu-
ds, Ps. 91. þvi hann mun ecke sifia, og ei sofa
sem vardveiter Jsrael, Ps. 121. þa skalltu a
hveriu Kvølldе enda Dagenn og byria Noottena
med H. Hugleidingum. Til Dæmes, i þvi Dag-
urenn endar og Noottenn byriast, skalltu huglei-
da ad sa nærstlidne Dagur sie eirn sa Tijme,
af hvers Brwkun þu verdur Reikning ad standa,
a sijdarsta Deige, a hverium aller munu ødl-
ast epter þvi sem þeir hafa adhafst i Lijkam-
ans Lijfe, hvert þad er illt eda gott, 2.Cor.4.
Bid so med saaum, enn þo kroptugum Ordum,
hvad sem þu ert ad starfa, Gud Fyrergiefningar
bæde a þvi sem þu hefur forsoomad gott, og giort
vondt a þeim Deige, og lofa hann fyrer sijna
Naad og Polennmæde yfer þier. Eñ hafer þu
giort nockud sem þu visser Gude til Þægdar, þa
þacka honum fyrer þad, ad hann verkade þad med
þier, og under eins fyrer hanns Vernd og Vel-
giorder; Þetta getur þu giort og hugsad, þo ecke
ende þitt Erfide med Deigenum. Hier ad auke
skalltu befala strax under Noottena, allt þad þier
vidkiemur, bæde Saal og Lijkama, Menn og Sk-
iepnur, Hws og Heimile, under Vernd og Vara-
tekt Guds almattugs, og hanns H. Engla.
Þetta skalltu giora, hvert sem þu ert naalæagr
eda fiarlægur þijnu Heimile, hvert sem þu ert Ys-

erbodenn eda Undergiefenn. Þegar lijdur ad þinne Hvijldar Stund, skalltu alldrei lꝏta undanfellijda ad lesa edur lꝏta lesa openberlega Guds Ord i þijnu Hwse, ꝏ ollum þeim Kvolldum sem þvi verdur so vidkomed, ad aller i Hwsenu giete med Andagt epter þvi teked, edur velflester, so þu þar med locker inn i Hws þitt þann sem sagt hefur, Matth. 18. Hvar sem tveir eda þrijr eru samannkomner i mijnu Nafne, þar vil eg vera midt ꝏ medal þeirra. Med þessu moote fyller sialfur Gud bæde þitt Hiartans og Heimiles Hws, med sinne Nꝏdar Nꝏlægd, og Fylkingum H. Engla, so ad Diofullenn og hanns Andar sꝏ þar eckert Plats edur Rum ad leinast i, þier edur þvi til Skada og Olucku. Andvarpa so jafnframt i Hiartanu med þeim tveimur sem til Emaus geingu, Vertu hiꝏ oss HErra, þviad kvollda tekur og ꝏ Dagenn lijdur, Luc. 24. Þegar nu sꝏ Tijme kiemur ad þu villt leggia þinn Lijkama til Hvijldar, minnstu þꝏ alltijd, og lꝏt þad ei gleymast, ꝏ þitt sijdarsta Æfe Kvolld, ꝏ þijna Grof, ꝏ þinn sijdarsta Dauda Svefn, sem þu ei veitst nema verde sꝏ hinn same, hverium þu villt þꝏ sofna; hvar fyrer þier mun þykia Rꝏd, enn ecke Orꝏd, ad lesa alltijd eina stutta Andlꝏts Bæn, edur Andlꝏts Vers ꝏ hverio Kvollde, so ad Sꝏlenn sie i Hende DRottens, Spek. 3. hvad sem uppꝏ kann ad koma, þvi þu veitst ecke hvert þier mune audnast af þeim Svefne opp-

ur upp ad vakna. Varastu ad hafa nockurt Oskickanlegt, Otilheyrelegt Tal i Sæng þinne, eñ siidur Ogudlegt. Kannskie þier audnest ecke optar ad tala, og er þad ecke goods Vite ad hafa lagst wt af ad Kvollde med illann Munnsofnud, enn liggia kañskie daudur ad Morgne. Ad siidurstu þa þu hneiger þitt Hofud ad þijnu Hægende til Svefns, þa upplypte sier þijn Sæl og Hiarta med hinum lijfkroptuguſtu Andvorpunum, um allar Lijfs og Sælar Naudsyniar bæde þijnar og þinna; þa skal fyrer Alvoru þinn Ande hitna i Bænenne; leitastu vid ad vera faordur, enn þo gagnordur. Vittu fyrer vijst, ad Guds Englar eru þa vid Hondena, ad taka a moote þijnum Bænum, og bera þær i Himinenn, Job. 12. Ja, sialfur JEsus leggur þa vid sitt Myskunar Eyra, og bidur jafnframt med þier, og fyrer þier. Bid þu hann ad vera under þijnu Hofde eins og andlegañ Jacobs Svefn Stein, Gen. 28. Bid hann ad lata sijna vinstre Hond vera under þijnu Hofde, enn hanns hægre Hond ad umfadma þig, Loff. 2. Bid ad Sælenn þijn fae ad hvijlast i þeim yndeslega Verndar og Myskunar Fadme sijns Lausnara. Kome ad þier Svefnþijngsle, þa bid med sem færstum Ordum og mestu Giætne; vara þig ad ei verde þier Mismæle, bid þa Guds Son ad taka vid ad bidia, þar þu gietur ei leingur beded. Hafdu helldur heilaga Þanka, heilagar Hugleidingar, vertu ad iðnun-

da hier Giœdsku D Rottens, vid þig ꝏ Deigens um framkomna. Imyndadu hier Sœlu Himnarijkes, Kvøl og Pijnu JEsu Christi, og hanns Elld-heitu Elsku til þijn, og so framveiges, þar til sialfur Gud svœfer þig i sijnu Verndar Skaute, allt eins og Mooder sitt Briooſt Barn. Þa þu ꝏ Nœturnar vaknar, so vakne þijn Lofgiørd til Guds, sem þa vaker yfer þier; vakne þijn Andvarpan til hanns, ad hann vijke ei fra þier nie hanns Englar; so hvert þu vaker edur sefur, þa siertu D Rottens. Ef þig dreimer, ad þu þykest giøra edur tala þad sem er syndsamlegt edur saurugt, so bid Gud strax sem þu vaknar ad fyrergiefa þier þad; þo ecke giœter þu ad þvi giørt, þa var þad samt Synd; Bid hann og ad vardveita þig fra, ad moodga hann bæde i Svefne og Voku. Ef þu hlijder þessu, þa mœttu fyrer vijst vita, ad Gud bijr i þijnu Hiarta, og þu fær þad strax sem Jacob fieck, er hann svaf um Noottena i Bethel, Gen. 28. þa Gud sagde vid hann: **Eg vil vera hia þier og blessa þig:** Hann mun þa upplijsa med sinne Naalægd, sierhverja þijna Noott, eins og hann upplijste Noottena fyrer Israels Foolke, þa þad var ofsookt af Pharaone, Exod. 14. Ef þu bidur og hugsar til D Rottens alla Noottena, eins og Samuel, i Cap. 15. þa mun hann vekia þig i hæfelegann Tijma; og sier þu þad sialfur, hvad yndeslegt, gott og sœluhialplegt þad er, ad vera þannig bæde svœfdur og vaktur af sialfum Gude

Gude: Þu mætt þa segia eins og Brwduren i Lofkvædenu, Cap. 5. Eg svaf, en mitt Hiarta vakte, edr sem David, Ps. 3. Eg lagde mig og svaf, eg uppvaknade, þvi Drottenn vidhelldr mier. Ef þu Barned Guds vaker og sefur hveria Nott med þvilijkum Þankum og Andvorpunum, þa þarftu ecke ad kvijda þeirre Drepsottenne, sem i Myrkrunum lædest. Eg vil tala þa til þijn med Ordum Salomonis, Prov. 3. Legger þu þig, þa muntu ecke Ottast, þu munt hvijlast og þinn Svefn mun sætur. Gud himneskur Blesse og Farsæle oss bæde þessa Nott, og allar adrar a þessum Vetre, so þær verde oss Noosamar til Hvijlldar og Endurnæringar. Eg sagde fyrer skømu, ad Menn skylldu a hveriu Kvollde minnast a sinn sijdarsta Dauda-Svefn, þviad sa Nætturlege er af þeim Gomlu kalladur Brooder Daudans, hvad ecke er illa tilfunded, þvi þad er æred margt lijkt med þeim.

Giorum so nu, minnunst a hann, vier gietum innann Skams ad giefa oss til Svefns, giefum oss fyrr til Daudans Umþenkingar. Meige eg kalla Svefnenn Broodur Daudans, þa ma eg segia, ad margt sie lijkt med Skylldum: Lijker eru þeir ad Uppruanum. Svefnenn ordsakast af Vessa þeim er stijgur upp af Fædunne. Daudenn ordsakast af Oleyfilegre Nautn vorra fyrstu Forelldra. A hvorium þeim Dege sem þu etur af þessu Tre, skalltu

Dauda deya, sagde Gud vid Adam, Gen. 3. Hvi seger og Paulus Róm. 5. Lijka sem fyrer einn Mann er Synden innkomenn i Heimenn og fyrer Syndena Daudenn, so hefur til allra Manna Daudenn i gegnumþreyngt sier, i hvi aller Syndgudu. Þaa Madur sefur, fær hann aptur Vidrietting þeirra Krapta, sem hrørnudu i Erfidenu, og verdur hvi hæfiegre og frijskare til Erfidesins aptur Uppvaknadur; Eins skiedur þad i Daudanum; Aller vorer Kraptar vidrettast aptur, þaa sw blessada Riettlætes Sool JEsus upprennur oss i Uppriſunne; Pad verdur saad forgeingelegur Lijkame, seger Paall, Enn Upprijs aptur Oforgeingelegur, 1. Cor. 15. Þaa Madur Sefur, Hvijlest hann af sijnu Erfide; Eins seger Ande Guds, Openb. B. 14. ad þeir Gudhræddu giore i Daudanum: Þeir ganga þaa inn i sitt Svefnhws, Grøfina, og lata aptur Dyrnar epter sier, Es. 26. Þeir hvijlast i Abrahams Fadme, Luc. 16. J JEsu Christi Dijrdar Fadme. O! hvers su mikel Umskipte mun þeirre strijdande Brwdur Christi ſkia þaa ordenn, eptir margfallda Mædu þessa Heims, þegar hun Badar med eilijfre Unun i Fridar Fadme sijns Brwdguma. Þo Lijkamenn Sofi, þaa Vaker þo samt Salenn, og hefur sijnar vissar Verkaner: Eins þo Lijkamenn deye, þaa lifir Salenn þess Gudhrædda i Hende

DRott-

DNottens, hvar engenn Piina snerter hana, Spek. 3. Þa er wte Otte fyrer Daudanum, þegar hid eilijfa Lijf hefur vidteked. Þa Madur sefur, skeiter hann ei um hvad adrer hafast ad i kriingum hann, þo þeir Leike, hefur hann þar enga Skiemtun af, og þo þeir Græte, hrigger hañ þad alls ecke; Eins er sa Burtsofnade, hann er komenn til fullkomens Yndes i Himnenum, oll Tarenn eru þa þurkud af hanns Augum, Gledi og Fognud hefur hann hondlad, enn Hriggd og Sorg er burtvikenn fra hönum. Eilijfur Fognudur er yfir hanns Hofde, og þess vegna skeiter hann eckert um fallvallta Veru edur Astand þessa Helms, Es. 63. Þvi Abraham veit ecke af oss, og Israel þecker oss ecke. Opt kiemur Svefnenn ovart ad, og engenn gietur sagt fyrer viist a hverre Minutu hann mune hellst sofna; Eins kiemur Daudenn ad Oforvarandis, og engenn veit a hverre Stundu hañs er hellst Von. Sa sem sefur, honum þiker Svefnenn sætur, hann friiast fra margskyns Mædu og Anstreyme, sem þeir, ed Vaka, verda ad þola, þvi seger Salomon, Pred. 5. Hver ed Erfidar hønum fiñst Svefnenn sætur. Hver sem vill giæta þess, hvad margslags Hormungar vier hliootum hier ad liida, hvad sarar og þrængar Armædu-Stunder, hann mun Andvarpa med Paale, Phil. 1. Eg gyrnest ad skilia hier vid og vera med Christo; Og med Simeone: Nu lætur

DRottenn Pioon þinn í Fride fara. Enn Gud Fridarens giefi ollum þeim, sem a þessum Vetre, sofna Daudans Svefne, ad þeir sofne sætum og sœluhiœlplegum Hvijldar Svefne, so vier aller ad Hormunganna Noottu, og Daudans Svefne wtendudum, mættum odlast eilijfann Dijrdar-Dag i himneskum Fride og Fognude, AMEN.

# 5. Hugleiding,

## Af Kulldanum.

Matth. 24. v. 11.

MEd þvi Ranglæted er orded marg-falldt, mun kœlna Kiærleikur margra.

AF Guds Anda kiemur Frosted, seger Job, Cap. 37. Ad sonnu er þad Raadsiøsun, og Vijsdoomsfull Raadun skipan hins lifanda Guds, so lenge Jord en varer skule ei þrioota Frost og Hita, Gen. 8. Enn somt er þad þo Mannkynsins Synda Straff, ad sa kallde Vetur giører ad Ordsaka ecke ad eins so mikla Visnan allra edur velflestra Avaxta Jardarennar, helldur og einnenn mørg ønnur Bagende og Armædu Moñum og Skiepnum, bæde til Lands

og Sioafar, fierdeiles i þessum Alfum Heimsins, fyrer hverium Oþægendum, ad þeir, i þeim heitu Londunum, eru ad sönnu frijer: Enn eg hygg, ad þeirra Hite giøre þeim ei minna Mein, enn oss vor Kullde, so ad uñ allann Heimeñ hefur Syndenn ordsakad Manniepnunne eitthvad Illt, jafnvel i Rijke Náttúrunnar; Enn Gude sieu Þacker ad Eilijfu! sem gjefur oss Arlega Hwsa- og Fata-Skiool, til ad ændelykia fra oss Kulldans Meinsemder; Hann virdest og af sinne einstiærre Myskun og Medaumkan, ad Vægia oss og vorum Skiepnum fyrer Osmiklum Kulldum og Frostum a þessum Vetre, so ad Himenenn verde ei yfir oss sem Iarn, edur Jorden, under vorum Fotum, sem Kopar, Levit. 26. vegna vorra Synda og Oþacklætes. Marga Hita og Hlijenda Stund hefur Giædska Guds láted yfir oss koma a þessu Sumre, enn hvada Þacker hefur hann þar fyrer af oss fenged? So sem Hitenn og Varmenn lijfgade i Sumar allar Skiepnur, og Avexte Jardarennar oss til Blessunar og Notkunar, so er þad maklegt, vegna vorra Synda og Oþacklætes, þo Gud wtdreifi yfir oss i Vetur Hrijm-Frostenu sem Sallte, Syr. 43. Edur þeite sijnum Js, so sem Munn-Bitum, so vier ei stadest fraum fyrer hanns Froste, Psal. 147. Enn Være oss Gud og vere oss Lyknsamur! Hann straffe oss ecke i sinne Reide, og tipte oss ecke i sinne Bræde, Ps. 6. Hann láte ei

þær

þær saklausu Skepnurnar giallda vors Ogudz-legleika! Hann liet þær i Ninive niota þess ad Innbyggiararner giordu sanna Idran, Jon. 5. Gioruni Idran vorra Synda, eins og þeir, og mun Gud Vægia bæde oss og vorum Skiepnum eins og hann vægde þeim, þvi hann mun ei ganga a Bak Orda sinna, þeirra er hann talade, ... er Ezechielis Munn, Cap. 18. Þegar sa Synduge snyr sier, þa skal þad ecke skada hann, þo hann hafi vered Ogudlegur: Og þvi seger David, i Psalm. 130. Hia Drottne er Myskunsemenn, og nooglig Endurlausn, og hann mun frelsa Israel af ollum Syndum. Enn vilie Menn ecki bæta sig, þa hefur hann hvatt sitt Sverd, sinn Boga hefur hann utspannad, og midar til, Psalm. 7. Enn so Skadlegur sem þesse Utvortes Kullde er Lykamanum, so skadlegur og miklu skadlegre er Innvortes Kullde Hiartans Sælunne. Hver vill Furda sig yfir þvi, þo vorer Vetur sieu kalldzer, þar vier erum sialfer kalldaster, i þvi sem vier eigum ad vera heitaster: Þad er i Elskunne til Guds og Naunngans, i hveriu eg hygg Verolldenn fare ætijd vestnande. Fyrer allar sijnar Velgiorder gyrnest Gud eckert annad af oss, enn Elskuna, þvi þar sem Kiærleikurenn er i sijnu retta Stande, þar fliota ut af honum allar Dygder sialfkrafa: Enn þar sem hann er Kalldur, þar eru oll Dygdanna Bloomstur visenn. Þetta

ta bannar Paulus, Rom. 13. segiande: Ad Kiærleikurenn sie Løgmaalsins Uppfylling. Jtem seger hann, 1. Tim. 1. Suma Bodordsins er Kiærleikurenn af hreinu Hiarta. Allt þetta styrker vor Lausnare segiande, Joh. 14. Hver hann hefur miin Bodord og helldur þau, hann er sa sem mig Elskar. Þar fyrer, vilier þu nu, Barned Guds, leggia Gude vel i Þock, þær Velgiorder er hann veitte þier a Umlidnu Sumre, þa Elskadu hann af ollu Hiarta, ecke af haalfu Hiarta, ecke Heimenn og Gud med sama Hiarta; Þo ad nu þesse Vetur kunne ad verda kalldur framar odrum, þa laat þijna Elsku til Guds alldrei koolna, Gud er sa ædste Gode; Eda hvadann hefur þu þaa Blessan, sem nu er i þijnu Hwse? Hver gaf þier allt þad hid Goda, sem þu hefur odlast a þessu Sumre, og ecke einasta þaa, helldur alla Lijfdaga þijna? Þu svarar, þad giorde Gud: Þu svarar riett; Elskadu hann þaa framm yfir allt, þar oll good Giøf, og oll fullkomenn Giøf kiemur ad ofann fraa honum, Jac. 1. Hafdu alldeiles fest Hiartad þitt vid hann, og þad ecke vegna þijns eigenn Abata, helldur vegna þess hann er so hiartannlega Goodur i sialfum sier: Þu skallt laata hann vera þitt Hiartans Traust og Hlutskipte, Ps. 73. Elskadu hann, þvi hann hefur elskad þig fyrre, 1. Joh. 4. Þu seger: Eg vil giarnann elska Gud. En eg spyr, er þad þijn Alvara? Eru þad ecke Lære

ein

ein fyrer Þier? Þier er kannskie vel vid hañ, meb dann hann lætur Þier allt ad Oskum gánga; Eñ elskar Þu hañ hellst, ef hañ tiptar edur agar Þig? Elskar Þu hann meira fyrer hid Andlega enn hid Lijkamlega? Heyr Þu Þar fyrer, Þau Obryg danlegu Kienneteikn, eins sannarlegs Guds Elskara, og athüga Grandvarlega, og fyrer utañ esmikla Siaalfs-Elsku, hvert Þu finnur Þau hiaa Þier so vasigkomenn, sem hier seger.

1. Ef Þu hefur alla Þijna Unun og Hügarens Fullnægiu i Gude og hanns Orde: Þar er allur sem uner, sama seger JEsus hiaa Matth. 6. Hvar ydar Fiesioodur er, Þar er ydar Hiarta. Hafer Þu Ynde af ad tala um hann, og heyra um hann talad. Þar um kiemst sialfur JEsus so ad Orde hiaa Joh. 14. Hvør hañ elskar mig, sa mun vardveita mijn Ord. Einnenn seger Johannes, 1. Joh. 2. Hvør hañ vardveiter hañs Ord, sañarlega er Guds Kiærleike i hønum fullkomlegur. Enn hafer Þu Leyda aa ad heyra hans Ord, ert tregur til ad tala vid hañ i Þijnum Bænum, Þoler illa gudlegar Aminningar, sannarlega er Þinn Kiærleike til hañs daudlaus og Iskalldur.

2. Annad Audkienne er, ef Þu af Hiarta hatar Syndena og Ogudlegt Athæfe, ecke einasta eina Synd, helldur allar Synder. Þar er eckert Gude so mootstædilegt sem Syndeñ, Ps. 5. Þu hatar Ogudlegt Athæfe, seger David. Marger

ger segia med Munninum: eg elska Gud, enn Hiartad og Lijferned seger allt annad. Þu varast ad styggia þann, sem þu elskar af Hiarta, so munder þu Gude giøra, ef þu elskader hann af Hiarta; Ef þu hatar þad, sem Gud hatar, enn elskar þad sem hann elskar, þa ertu Okalldur Guds Elskare.

3. Annad enne er, ef þu sijner þijna Hlijdne vid Gud, med þvi moote, ad þu kieppest epter ad fa ad vita hvad Gud heimte af þier og med alvarlegre Astundan kappkostar, ad þu gieter ordted hønum i øllu hvad þægelegastur, ert so strax reidubwenn ad framfylgia þvi, sem þu veitst ad Gud vill þu giører. Þegar Gud sier ad þu þess vegna villt stunda hanns Ord, ad þu gyrnist ad giøra epter þvi, þa giefur hann þier bæde Naad til ad skilia þad, og lijka Krapta til ad laga epter þvi þitt Lijferne. So er þa einn sannur Guds Elskare ecki einasta Ordsins Heyrare, helldur og einninn Gierare, Jac. 1. Ecki gagnar Fædann, ef henni er kastad upp aptur; Guds Ord skal geymast i þijnu Hiarta, so ad Kraptur þeirrar andlegu Fædu sicæst i Utlimum þinna Hræsnislausu Goodverka. Þad er ei noog ad vita miked i Guds Orde, þad fordæmer meir enn frelsar, ef Men ecki hlijda þvi þad bljdur, Joh. 12. Hvad seger vor JEsus hier Joh. 13 Ef þier vited þetta, þa erud þier Sæler ef þier giøred þad. Item Luc. 6. Þvi kalled þier mig Herra Herra! enn giøred þo eige þad sem eg bijd ydur.

4. Kienniteikn er, ef þu med Þolinmæde og an Moglunar þoler og umber þad, sem a moote blæs, og reiknar þad fyrer allann Fognud þo þu i adskilianlegar Freistingar faller, Jac. 1. so nær þu hugsar ad ecke. kome yfer þig nema fyrer Tilhlutun edur Tillatseme þess myskunsama gooda Fodurs, ef þu af einlægre Hiartans Elsku til Guds segir eins og David, Ps. 116. Þann heilsusamlega Kaleik vil eg afdrecka og Nafned DRottens mijns vegsama, þa hefur þu Ockalldann Kiærleika til Guds. Vetrar-Tijmenn er þvilijkur einn Tijme, a hveriu margt amar þad ad Manne, sem hiner Tijmarner eru frijer fyrer, so sem kann ad vera Skortur bæde a Lijfsbiorg Mannanna og Skiepnanna, Kullde og Sniooar af Loptinu, og annad þvilijkt. Þetta kiemur allt fra DRottne, hann er sa sem deyder og lijfgar, 1. Sam. 2. Mogladu a moote Syndenne, sem þetta ordsakar, enn ecke a mooti Gudi, sem þig hyrtir af einskiærre Elsku, þvi þann sem DRottenn elskar, þann agar hann, H br. 12. og giorer þetta allt þier til gooda. Ef einhver kiæme til þijn og segde, ad aller Steinar i þijnu Hwse skylldu verda ad Gulle, þa munder þu verda allshugar feigenn, ef þu visser ad þad kynne ad ske; Enn Gud kiemur til þijn, þa Mootlæted kiemur, hveriu Nafne sem þad heiter, og segest vilia umbreita þijnu Andstreyme i eilijfann Fognud og Unadsemd, Ps. 106. Þeir sem

sem i Tarunum nidursaa, munu med Fognu-
ude uppskiera. Item seger Paall, Rom. 8. ad
Mootlæting þessara Tijma sie ecke verd þes-
srar Dijrdar, er sijdar mun fram vid oss ko-
ma. Pad kiemur alldrei so hardur Vetur yfer
oss, ad vier ei forþienad hofum hann hardare, og
hvernig munde vidra, ef Gud villde skioorna Hof-
udskiepnunum epter vorre Forþienan? Þa mun-
dum vier alldrei sia blijdan Dag: Seigdu þvi
med David, þegar þier þyker ecke allt ad Oskum
ganga: Eg vil þeygia og ecke mijnum Munne
upplwka, af þvi þu giørder pad.

5. Audkienne er þad, ef þu Guds vegna, enn
ecke fyrer þinnar Æru Skulld, giører gott og hi-
alpar þeim, sem naudstadder og þurftuger eru,
þvi þa giører þu Gudi miøg þægt Verk Brioot
þu hwngrudum þitt Braud, og innleid þaa
sem Volader eru i þitt Hws, seger hann, Es.
55. Afiest Naudþurfter Heilagra, seger Paall,
Rom. 12. þad er, Trwadra. Med þessare Dygd
sijner þu þig ecki einasta sannan Guds Elskara,
helldur verdur þu Gudi lijkur. Han upplijkur
dagleg a sinne Hende. Ps. 104. Giefdu þad,
sem þu att ecke; enn þu att ecki neitt, af þvi þu ha-
der Hondum hefur, Gud a þad allt. Færdu hon-
num þad af þvi aptur, sem hann vill giefist Fa-
tækum, hann tekur þa so vel a moote þvi, so sem
þu giæfer þad af þijnu, enn ecki af hanns: Under
þetta skrifar Salomon, Prov. 19. Hver Fatæ-

kum myskunar hañ launar DRottne. Item
Hvør hann medtekur ydur sa medtekur mig,
Matth. 10: Lœttu so sem þu sœer ecke hañ Fa-
tœka, hverium þu giefur, helldur sialfañ JEsum.
Hugsadu þa þu rietter ad þeim Snauda: Þetta
sœ eg þier, minn Herrá JEsu! Giefsdu þa þu giet-
ur þeim sem þad leingst man og launar betst, enn
þad er Gud almœttugur. Olmusur Cornelii
voru uppstignar til Minnis fyrer Gude, Act. 10.
Guds Sonur hefur giort Rœd fyrer ad minnast
þess a sijdarsta Dege, Matth. 25. Þa mun ein-
ginn þykiast hafa of-giefed, þa þar er komed. So
er þa mijn Alyktun þesse, ad epter þvi sem þijn El-
ska er kolld edur heit til Naungans, epter þvi er
hun kolld edur heit til þijns Guds. Þeir Fa-
tœku, sem eru Guds Volader, eru under eins
Viner Guds, enn þu ert ecke riettur Elskare, ef
þu elskar ecke Vin Vinar þijns; Allt þetta bevij-
sar Johannes, 1. Pist. 4. Hver sem segest elska
Gud, eñ hatar (edur, ecke elskar) sinn Brood-
ur, sa er Lÿgare.

6. Ad sijdurstu, er þad eitt hid vissasta Kieñi-
Teikn til þess, ad þijn Elska til Guds sie ecki kolld,
ef þu hanns vegna elskar þa, sem þier hafa giort
illa til; Elsked Ovine ydar, seger JEsus, Luc.
6. Þetta Bodord er þvingt fyrer hid heiptrœka
Holld og Blood; Enn hvad tiaer uñ ad tala!
Gud hefur skipad þad og Gud hefur sialfur giort
þad, hann elskade oss, og gaf oss sinn Son þa vi-
er

er vorum hanns Oviner, Róm. 5. Þu villt heita Brooder Christi, enn hann beidde fyrer sijnum Ovinum; Leärtu þä vera lijkt med Skilldum. Kannske Ovinur þinn sie sw Svipa med hverre hann vill hyrta þig og reyna, kyssstu ä Vondeñ eins og goodu Vornenn; Hvad er fræglegra eñ ad yfervinna siäalfann sig? Hvad er goodmannlegra edur gudrækilegra, enn ad vilia ecki hefna ä Ovin sijnum, enn gieta þad þo? Hvør kann ad komast hærra i Dygdunum, enn ad lijkiast Gude? Vier moodgum hann Dags daglega, hann blessar og myskunar oss daglega. Sæll er sä, sem þessa giæter og giører þar epter. O þu Ouppausanlege Kiærleikans Brunnur, Herra JEsu! Verm þu vor elskulausu og Is-kolldu Hiørtu med Jl og Varma H. Anda, so vier øllu framar elskum þig, og i þier Fødurenn, sem siälfur er Kiærleikurenn, 1. Joh. 4. og þann H. Anda, sem er Ande Elskunnar, 2. Tim. 1. Gief oss, ad vier elskum hvør annann innbyrdis med falslausum Kiærleika, og leid oss ad sijdustu epter þann kallda Vetrar-Tijma Heimsins Hørmunga afstadenn, inn i þad eilijfa Dijrdar Sumared, fyrer þijns Nafns og Elsku Saker, Amen.

# 6. Hugleiding

## af Visnaneñe.

Matth. 7. v. 17.

Eitt gott Trie gietur ecki fært vondann Avört, og eitt swed Trie gietur ecke bored goodann Avöxt; Hvert þad Trie sem ecki ber goodañ Avöxt skal upphöggvast og i Elld kastast.

Ad er Edle Vetrarens ad hleipa Visnan i Trien og Grosenn, og Forrotnan i Avextena. Þad er Edle Syndarenar ad hleipa Spilling i Lijkamena og Sælernar, og Forrotnan i Dygdernar. Aller Hluter voru so i Aundverdu af Gude skapader, ad hann siælfur sa ad þeir voru harla gooder, Gen. 1. Þar voru mörg Trie i Eden Alldingarde, sem voru lystileg ad sia, og good til ad eta, og Lijfsins Trie midt i Alldingardinum, eirniñ Skilnings Tried Goods og Ills, Gen. 2. Þo var Manneskiann siælf hin lystilegasta af öllum þessum, þvi hun bar dijrmæta Avexte Riettlætisins, Heilagleikans, Odaudlegleikans, Spekinnar og syndlausra Tilhneiginga, þvi Madureñ var skapadur epter Guds Mynd, Gen. 1. og var ad Siñislagenu Gudi lijkur; Enn þesse Bloomgan varde ecki lengi, þvi Diofullenn hleipte þeirre Visnan og Forrotnan i alla þessa Avexte, ad þeir urdu ad eingvu, so Madurenn vard ad taka Fijkiublöd ad Laane til, ad hylia sijna Blygdan med: So vard hann uppvisnadur! O! þau skiootu og hrygg-

yggilegu Umſkipte; Og ei einaſta viſnade hañ og vard Avaxtarlaus, helldur uxu ꝏ honum aptur ſwler, vonder og eitrader Avexter Rꝏnglætiſins, Syndarennar og Daudans, ſem upptalder eru af ſiꝏlfum JEſu, hiꝏ Matth. 15. er hann ſeger: Af Hiartanu frañkoma vondar Hugſaner, Mañdrap, Hoordoomur, Frillulijfe, Pioofnadur, falſker Vitnisburder; Item af Poſtulanum Pꝏle, Gal. 5. kallaſt þeir Holldſins Avexter, hveria hann einninn upptelur. Sijdañ gaf Adam af ſier eins Dygda-viſenn Born og hann var ſiꝏlfur, epter þeſſare Laſtanna Omynd, þad er ſinne edur jafnvel Dioſulſins Mynd, Gen. 5, 3. ſꝏ ſo ei annad fyrer, edur vid Bord, enn hann og aller hañs Nidiar mundu ſem ꝏvaxtarlaus Trie verda upphoggner og i Elld kaſtader;. Nu hefur Giædſkañ DRottins bætt ſo aptur vort Rꝏd fyrer Medalgaungu ſijns elſkulega Sonar JEſu Chriſti, ad vier høſum aptur ꝏ nij odlaſt eitt himneſkt Frioofgunar Edle, af hvoriu upp kunne ad ſpretta hiꝏ oſs ſo mikler Dygdanna Avexter, ef vier annars brwkum þꝏ Krapta rietttilega, ſem oſs eru þar til giefner, ad Gud vill vera med þꝏ nꝏdarſamlega ꝏnægdur. Eda hvad er annars þad, ſem Petur ſeger: Ad vier ſieum ordner Hluttakarar gudlegrar Natturu, 2. Pet. 1. þad er, gudlegs Edlis, ad vier gietum gyrnſt þad ſem Gud vill, og hatad þad ſem hañ hatar; Edur mun ecke hin ſama Meining i Ordum Johan-

nis Postula, 1. Pist. 3. er hann seger: Hvør af Gude er fæddur, sa driiger ecke Synd, þad er, Illgyrnis Synd; Þvi hañs Sæde bliifur i hønum; Hvors Sæde? Guds, hvad fyrer Sæde? Guds Edle og Náttura. J hverium bliifur þad? J þeim i Skiirninne endurfæddu Manne; Þesse yndislegu Umskipte urdu a Raadi voru skomu epter vora náttuerlega Fædingu; Þvi þar vier vorum gietner og fædder i Syndeñe, Ps. 51. af Natturunne Reidennar Born, Eph. 2. giørde Gud oss i Skiirnarlauginne ad siinum Bornum og Erfingium eiliifs Liifs, Tit. 3. iklædde oss JEsu Christo siinum elskulega Syne, Gal. 3. og giørde oss ad friooffsomum Greinum a honum, sem er þad sanna Wiin-Trie, Joh. 15. Eñ Gud hreinsar hveria þaa Grein a hønum, sem ber Avoxt, so hun bere enn þaa meire Avoxt, so ad niikomner fra Skiirnar Saanum vorum vier hvad bloomlegaster, og baarum so mikla Avexte, ad sialfur JEsus seger: Nema þier giøreſt so sem smaa-Born, munud þier ecki inngaanga i Himnariike. O! hvad farsællegt var þa vort Raad? Þa var JEsu blessadur Myskunar Fadmur vor Eden, og hann sialfur sem eitt Liifsins Trie. Liifsins Tried var til þess skapad, ad Manneskiann skyllde neyta af þess Avexte, so hañ bædi skylldi lifa og ecki gieta daaed; Eirnig til þess hann skyllde nioota siifelldrar Heilbrygde og engra Meina kienna; Til hverutveggia þienade oss

þa

Þa vier vorum Ungborn þad blessada Lijfsins Tri-
ed JEsus. Hann var þa DRottenn vor Græd-
are, Ex. 15. og fyrer hañs Beniar urdum vier heil-
brygder, Es. 53. af Uppruna Syndareñar Saar-
um: Þo vier hefdum þa burtsofnad, þa hefdum
vier ecke sied Daudann ad eilijfu, Joh. 8. Þaa
glansade aa oss hvijtur Liliu-Farfe JEsu Christi
Sakleysis, þa skein aa oss saa raude Roos-Farfe
hanns Riettlætis, þa glooade aa oss saa fagre
Gull-Farfe Trwarinnar, þa kvalde oss ecki Of-
undinn, þa droo oss ecki nidur Agyrndinn, þa br-
endi oss ecki Hatrid nie Reidinn, þa uppblies
oss ecke Drambsemiñ nie Ærugyrndinn, þa saur-
gade oss ecke Lostasemenn, og þa fordæmde oss ecki
Drvætingenn; Þa vorum vier sanner Guds
Nazaræi, fraaskylder Solle og Svacke Heims-
sins, þa var Saalenn vor Brwder Christi, Joh.
3. Dootter þess himneska Konungs, Psalm. 45.
Þa vorum vier riett-kallader Syner lifanda
Guds, Hos. 2. Utvalder Guds, Sauder hans
Hiardar, Ps. 100. Fyrerheitisins Born og Fr-
elsingiar, Gal. 4. Vijnber aa Vijn-Trienu Chri-
sto, Joh. 15. Þa vorum vier good Trie, sem A-
voxt baarum aa riettum Tijma, Ps. 1. Þa var
Hiartad vort Musteri og Bwstadur Christi, Eph.
3. Jaa, vier vorum riettur Helgidoomur Guds,
Ps. 96. Þetta var Hœdege Æfi vorrar, þetta
var þad yndislegasta Sumar vorrar Æfe. Eñ
Gud nаde! Hvad hryggilegt er til þess ad hugsa,

og hvad græatlegt um̃ þad ad tala, hverſu ad vier erum ſijdann uppviſnader, ſo ad i hvert Sin̄ ſem vier vyrdum fyrer oſs eitt Ungbarn, mætte oſs med Harme i Hug koma: Æ! Hvad miked gott hef eg miſt ſijdann eg var eins og þu ert nu? Æ! hvad miked Jllt hefe eg ſijdann adhafſt, og i Stadenn̄ hloted? Þvi þa oſs voor Fiſkur um̃ Hrigg og Gud foor ad uppliijſa oſs med Lioosi ſijns Ords og Anda, ſo vier feingum þeckt hverſu gott þad var ad vera af Gude fæddur, Joh. 3. og ad vera einn dijrdlegur Sofnudur hafande hverke Fleckan nie Hrucku nie annad þviijikt, Eph. 5. þa tokum vier ſtrax ad hneigiaſt til þeſs, ſem var þvert i moote, og ſo vard Spillingenn megn i voru Holde, ad æ þvi fremur ſem vier feingum þeckt Guds goodann Vilia, æ þvi fremur hrillte oſs vid ad fylgia honum, Og þvi fremur, ſem vier feingum þeckt Vidurſtygd Dioſulſins og Syndarinnar, ſtillum vier þvi helldur a þeirra Sveif, þar til vier urdum margur hver af oſs alldeilis uppviſnader ad Rootum, og bærum eingann duganlegann Avext Dygdanna, helldur eitrada Avextu Rænglætiſins, hverra vegna vier vorum makleger ad kaſtaſt i eilijfann Elld. Þanninn̄ hofum vier framdreged vort Lijferne aller ſamann Syndarar, hafande Skort a þeirre Hrooſan, ſem fyrer Gude gyllder, Rom. 3. Hofum ei viliad halld da Sattmaala þann, ſem vier bundum vid Gud i Skijrninni, nie ganga i hanns Logmaale, Pſ.

78. helldur urdum aptur undir Syndena fellder, so eckert gott bioo i voru Hollde, Rom. 7. Holdlega sinnader Menn, þeir eckert skynia, sem vera ber, af þvi sem Guds Anda er, 1. Cor. 2. Ja, vier urdum Syner þessa Heims, Luc. 16, Hooru-Slekte, Jer. 7. Fwenn Trie, Matth. 7. Ovinir Guds, Rom. 5. Vier tookum fyrer oss þverwdarfullann Anda, Rom. 11. þioonande Gyrndum og margviisslegu Bijlijfe, gangande i Illsku og Ofundskap, hatande hver annann innbyrdis, liedum vora Limu Ohreinleikanum fra einu Ranglæte til annars, þar til vier urdum alldeilis herleidder Prælar Syndarennar, Rom. 6. A þennann Hatt er allur vor Skijrnar-Bloome uppvisnadur, og þa skialldan ad sw Manræna hefur ad oss komed, ad vilia giora hid gooda, þa hefur þad ordid oss nærsta ordugt, af þvi, ad alltijd hefur lodad vid oss þad hid Vonda, og vor hin skarstu Verk hafa ecki verid nema Halfverk, þvi þau hafa vered giord annadhvert vegna eigiñ Aviñings, edur af Hræsne, so þau voru ecki nema Hismi, Blodenn toom, enn eingenn Avoxtur, nockru nijtur.

Nu vil eg spyria! Hvad velldur þvi þa, ad vier þo ecke enn þa med Guds Reide Ere, hver epter annann Upprætter, og i eilijfa Helvijtes Glood erum kastader? Þvi er þetta fliwgande Blad enn þa ei vijds Vegar burtfoked? Þvi er ecke þesse visne Halmur uppbrendur? Job. 13.

Hvar

Hvar fyrer eru ecke þesser Villu-Kvister Upprætter? Matth. 15. Hvar fyrer er so seint þeim Onijtu Pioonum kastad i hin Ytstu Myrkur? Matth. 24. Hvi er ecke sa Onijte Pioon settur af Raadsmennskunne? Luc. 16. Og hvers vegna er enn þaa ecke brwed ad skella i Lok Briodkaups Stofu Himensins fyrer þessum fraviisu Meyum? Matth. 25. Hier til liggur Svar; Þvi velldur þijn Forþienusta, þijn Fridþæging og þijn Fyrerboon, allra astwdlegaste HErra JEsu! Þegar þinn Fader hefur reidt til Hoggs, þa hefur þu, Ja, þu hefur alltijd komed i Vegenn, og so sem griped um Axar-Skapted med þinne Armi og Fyrerboon; Þu hefur bored þig sialfann fyrer Hogged, og beded þinn Fodur ad lata oss niota þess sem þu leidst fyrer oss; Þegar hann hefur spennt sinn Boga, og midad til vor, þa hefur þu bored af oss Guds Reide Pijlur med Skilldę þinnar Forþienustu. Þu hefur Arlega, ja, daglega beded; ad þesse hin avaxtarlausu, ja avaxtarvondu Trie mætte standa eitt Ar enn, Luc. 13. Þu hefur ecki viliad lata Formæling ganga yfir þesse avaxtarlausu Fykiu-Tre, Matth. 21. Helldur hefur þu sijfelldlega og yduglega grafed i kriingum, og hreinsad Rætur vorra Hiartna med Plooge þijns Ords og Mootlætingana; Þu hefur bored þar ad Myke, það er, þu hefur minnt oss a vorar undannfarnar Synder med Predikun þijns Ords, og Andans Aminning-

Angum i vorum Hiortum, so vor Synd skylldejaf
nann vera fyrer oss til Minnes, Ps. 51. til Jd-
runar Upporsunar, ad vier a ny kynnum bera
verdugann Avoxt Umvendunaremar, Matth. 3.
Pu, epter þijnu Talsmanns Embætte, 1. Joh.
2. hefur alltijd milldad og forþijdt fyrer oss Sa-
kernar hia þijnum himneska Fodur; og þetta er
Ordsokenn einasta, hvar fyrer vier stondum enn
þa Obrender, Owtkastader, Oafsetter, Oburt-
sokner, og Oupprætter: Pitt Nafn sie blessad,
og þu sialfur ad Eilijfu sier t þar fyrer blessadur.
Hyggium nu vel ad þessu, þier Guds Foolk! J
Dag! J Dag! a medann vier heyrum og for-
merkium Rodd hans Fyrerboonar, medan vier
finnum Krapt hanns Forþienustu, þa forherdum
ecke vor Hiortu, Ps. 95. Oss er þvi hættara
sem vier hofum lengur staded sem visnader Faustk-
ar; Noog er af orded fyrer oss! Vær hofum allt-
ofleinge bored swo Vijnber, ja Eitrud Ber Ill-
skunnar. Æ þvi er midur og verr! Gud nade
oss! Marger af oss offrudu Dioflenum þvi heita
Æskunnar Bloode, þeim frijsku Ungdoomsins
Kroptum, þeim yndislegasta Parte Æfinnar, en
ætlum nu ad kasta þeim visnu Beinum Ellennar
uppa Guds Altare til Foornar, og gefa þan fyr-
er Saalu vorre, Rænande so fra Gude þvi sem
hann atte med riettu; hvar fyrer eg hrædest ad
skrifa þad Dooms Atqvæde er D Drottenn leg-
gur a þa sem so fara med hanns Offur, og skrif-
ad

ad stendur hia Malachiam Spamanne, 3. Cap. Aller Frumburder attu ad vera DRottne helgader, i Gamla Testamentenu, Ex. 3. So atte og ad vera Frumburdur Esi vorrar, medan vier hofdum Oviſnada Krapta, þeir attu þa ad Foornfæraſt Gude til þeſs Offurs ſem lifande er, og heilagt, og Gude Þacknæmt, Rom. 12. Synden er þvi ſterkare ſem hun er Elldre, Manneſkiann þvi Veikare, ſem hun er Elldre; þad ſkal varla beigiaſt ſem i Ellenne a ad vera boged, an ars ſtockur þad: Enn lofadur ſie Gud, þad er ecke enn þa bwed ad wteloka oſs fra þeirre himneſku Jeruſalem; Gud hefur enn þa good Raad, og giædſkufullann Vilia til ad giøra oſs Avaxtarſama og af ſolnudum Stræaum bloomleg Alldine; Snwed ydur til mijn, ſeger hann, þa vil eg ſnwa mier til ydar: Svorum honum aptur, Jer. 31. Snw þu oſs DRottenn þa verdur oſs ſnwed. Giætum ad! Gud hefur lijka annad Medal helldur enn Skijrnena ad Fæda oſs med a ny, (Jafnvel þo vier ſieum bwner ad tapa þvi gudlega Edle ſem vier odludustum i henne) þad er Ord Guds lifanda, þad Oforrotnanlega Sæde, ſem blijfur um Eijijfd, 1. Pet. 1. J hvert Sin ſem þad vinur ſo a Hiortum vorum, ad vier Ydrunſt Syndana, og lattum af þeim, en Jklædunſt aptur þeim nya Mane, ſem epter Gude er Skapadur, Eph. 4. Þa Endurfædunſt vier, og odlunſt gudlegt Edle a nij;

Laatum nu Gud sia oss Bloomlega upp fra þess-su, so vel a eptterkomanda Vetre sem alltijd þar epter. A Sumrenu lifna Grösinn vid ap-tur, þau er visnudu og doou a Veturnar. Ein hverstadar er nu Sumar, þo hia oss sie Vetur, þo ad Veturinn sie hid ytra hia oss, þa laatum Sumar Gudhrædsluñar og Lijferneſins vera hid innra, sem ordsake þann Varma i Hiartanu, ad hid yt̃ra siaest utspringa Alldine og Avexter christelegra Dygda, heyrum giarnann Guds Ord, Joh. 8. Laatum þad ganga oss til Hiarta, hof-um Vilia og Vidleitne ad giora þad, sem Guds Ord skipar, Joh. 7. Færum af þvi Avoxt, Luc. 8. Hösum eina lifande Trw, Joh. 6. Ja, fram-kvæmum allar Dygder af Trwnne, 1 Pet. 1. Elskum Gud, 1. Joh. 4. Ottunst hann med son-arlegum Otta, 1. Tim. 4. Offrum Gude vor-um Lijkama, Rom. 12. Bidium hann opt og yduglega i Anda og Sannleika, Joh. 4. Lofum og þackum honum, Eph. 5 Berum Anægder med hvad sem hann lætur yfir oss koma, 1. Tim. 6. Giorum Gott hverium Manne, einna mest þeim sem eru af Trwarenar Heimkynne, Rom. 12. J einu Orde ad segia: Kieppunst vid ad inn-ganga alltijd hid þraunga Ported, Luc. 13. O JEsu! þu blessada Sarons Bloomstur, sem all drei uppvisnar ad Eilijfu: Gief oss Naad til ad sækia epter Helganeñe, Ebr. 12. So vier berum Bloomstur allra christelegra Dygda, og þa vier

lok-

lokſens uppviſnum i Daudanum, þaa gior Saal-
er vorar albloomgadar med himneſkum Lioomà
og Vegſemd i Eiliifdeñe, þar til vier um ſiider ver-
dum epter Uppriſuna bæde aa Saal og Lijkama;
ſo Bloomleger, ad vier Samlijkiaſt mættum þij-
num forklaarudum Lijkama; Bænheyr þad fy-
rer þijns bleſſada Nafns Saker, AMEN.



# 7. Hugleiding,

## Af Snioonum.

Eſ. 55. v. 10. 11.

EIns ſem Regned og Sniooreñ nid-
urfalla fraa Himnenum og koma ecke
þangad aptur, helldur Vokva hana
yfirſliootannlega, og giora hana Avax-
tarſama; So ſkal mitt Ord vera, ſem
ſkal wtganga af mijnum Munne, þad
ſkal ecke koma toomt til mijn aptur.

HAd er eptertekta verdt, ad DRottenn lijk-
er i þeſſare Maals-Grein Eſaiæ ſijnu bleſſ-
ada Orde vid Snioonn, og vegna þeſs ad
vier hofum Tijma Sniosanna, ſem er Vetrar
Tijmenn, þaa inngaungum hann med Yfirvegun
þeſs bleſſada Lioosſens Guds dijrmætu Orda, ſo
þau ſieu bæde aa þeſſum Vetre, og alltijd endrar-
nær

nær, Lioos a vorum Vegum, og Lampe Foota vorra, Ps. 119. Drottenn seger i þessare Mals-Grein Esaiæ: Pad skal ecke koma tomt til mijn aptur; Pad er, pad skal 1. Lesast, 2. Heyrast, so ad þess Lestur og Heyrn sære þann tilhlijdelega Avext, þvi skulum vier nu i vorre sijdurstu Hugleidingu athuga, hvernenn Guds Ord a 1. Ad vera lesid, 2. Heyrnist. so at ad hlijda þvi, ad pad kome ecke toomt edur Avaxtarlaust til Guds aptur.

1. Fyrst þegar þu les Guds Ord, sierdeiles H. Ritningu, um hveria JEsus hefur utgiefid þetta Bodord: Ransaked Ritningarnar, Joh. 5. Þa lat þier til Hugar koma, ad þa Book hefur sialfur Gud giort og stijlad, þviad Spamonnunum, Gudspiallamonnunum og Postulunum er hun an Medals eda Uppfrædingar af Gude inngiefinn, 1. Tim. 3. Þeir voru Handskrifarar Guds: Af þeirra Toga er þad spunned sem vier Predikum, so framt sem þad samhlioodar H. Ritningu. Hvert ma þad þa ecke Upperfa ofs til ad lesa og yfirvega H. Ritningu med hinne mestu Audmijkt og Andagt, þa vier athugum ad sialfur Gud hefur hana Samanteked og Stijlad; Lofadur vere hann og Blessadur! Hana er nu allvijda ad fa i vorum Hwsum, en med hvada Eptertekt og Averte hun mune af sumum lesenn vera, veit hann sialfur best; Enn hitt er vijst, ad hver sa sem hana a, og forsoomar ad yd-

ka edur læta ydka hana i sijnu Husi, med biwast vid ad standa þar af Reikning sijdar.

2. J Annann Mæta, hvad hellst Guds Ord, sem þu les (gyllde þig ecke einu þo þad kome Toomt til Guds aptur, og Fordæme þig æ sijdarsta Dege, Joh. 12.) Þæ giæt vel ad, ad þad er einn himneskur Fiesioodur, sem audgar Sælu þijna Andlegum og Oforgeingelegum Giædum: Grenslast þu þvi, eins og Salomon seger, epter þessum Fiesiood, Prov. 2. Þu finnur i þvi Oteliande Greiner, hverium þu ætt ad safna i þitt Hiarta, so sem himneskum Edalsteinum; Þetta er sæ eine Fiesioodur, sem þig giører i Gude rijkaun: Hann Forsorgar þijna Sælu med Guds Nædar Fyrerheitum. Onnur Audlegd er ecke betre enn so, ad einn Heidinge getur lijka vered Rijkur af henne: Enn þessum Aud safna et nema Guds Born, sem standa til ad ødlast eilijfa Arfleifd æ Himnum. Þau Heimilldar edur Eignar-Skiøl sem Menn hafa fyrer Jordum sijnum og Odals Gotze, glata Menn ei, og lesa þau med mestu Gaumgiæfne. Guds Ord er þitt Heimilldar Bref fyrer Himnarijke, gleym þvi ecke nie glata, les þad med mesta Athuga: Þu veist ecke nema sw Grein, sw Klausa, sem þu les med Athugaleysi, og æn Eptertektar, sie sw, sem þier reid mest æ epter ad taka. Þu villt ad Gud sie þinn Gud; Rannsakadu þæ Ritninguna og hanns Ord: Þar færdu ad þeckia ad hann blijfur i oss

fyrir

fyrer H. Anda, sem oss er ec giefinn, seger Joh. 1. Pist. 3. Villtu vita hvert þu ert sialfur Erfinge Fyrerheitesins, þad finnur þu i Guds Orde, þvi hann hefur Utvaled oss til Saluhialpar i Helgunenne, 2. Tim. 2. Þeir sem eru Kier. Naadarennar, skulu og verda Kier Þijrdarennar.

3. Allstu Guds Ord þa þu les þad, so sem eitt Tya-Hws, edur Vopna-Hyrdslu, hvadan þu skallt taka Veriur þær er þu ætt ad brwka moot Sathan og Syndenne, þvi Guds Ord er eitt skarbeitt Sverd, sem afsnijdur vondar Hiartans Gyrnder, og Greiner Lastanna. Til Dæmes: Þegar Hofmoodurenn blæs þig upp, þa seger Guds Ord; Gud mootstendur dramblætum, 1. Pet. 1. Item, seger Salomon: Dramblætt Hiarta er eitt Andstigd fyrer Gude og mæter vijst Hegningu, Prov. 16. Þegar Hatur og Reide hreiser sier, upprætter Guds Ord hana; reidest enn syndged ecke, seger Paall, Rom. 12. Þegar Lostagyrndenn upptendrast; Guds Ord slockur hennar Baal: Engenn ohreinn hefur Arftøku i Rijke Christi og Guds, seger þad, Eph. 5. Ja, i þessu Tya-Hwse eru Veriur moot sialfum Sathan; Þegar hann freistade Christi, fieck hann af honum þriu stoor Saar med þessu Sverde, skrifad er, sagde hann alltijd, Matth. 4. safnadu þvi þessum Vopnum i Hiarta þitt, þa þu les Orded, so þu þar med kunner

wt ad slockva øll elldleg Skeite hinns prettvijsa Ovinar, Eph. 6.

4. Skalltu lꜳta Guds Ord vera þier so sem einn Speigel þa þu les þad; settu þeñañ Speigel fyrer þig, þꜳ þu ert ad i-klæda þig Guds Her-Skrwda, DRottens Bodord er klaart sem upplijser Augun, seger David, Ps. 19. Heing þu þennañ Speigel upp i Hws Hiarta þijns, og horf ydugléga i hann, þꜳ sier þu strax hvad þig lijter, og gietur med Guds Hiꜳlp komed þvi aptur i gott Lag. J ødrum Speiglum siꜳ Menn sitt Andlit, i þessum siꜳ Menn sitt Hiarta, Jꜳ, Guds Mysktunar Hiarta siest i hønum, þad er hid mesta Sꜳlarennar Epterlæte i þad sem optast ad horfa: DRottenn upplijs mijn Augu, ad eg meige siꜳ þijna undarlegu Hlute af þijnu Løgmꜳle, seger David, i Ps. 119. Hier sier þu siꜳlfann JEsum Christum, Brwdguma Sꜳlar þinnar, þar mꜳttu horfa ꜳ hañs uppmꜳludu Mynd, og una þier vid hana, þꜳngad til hann kiemur; hier sier þu hanns Persóonu, Náttúru og Embætte, enn eilijft Lijf er under þvi kømed, ad þu þecker hann, Joh. 17.

5. Þegar þu les Guds Ord, ꜳlijttu þad, so sem eitt Læknisdooma Hws: Þar er ad fiña og sꜳ Lækningar vid øllum Sꜳlarennar, Hiartans og Samvitskunnar Meinum, Jꜳ, vid siꜳlfum Daudanum, þitt Ord giørde mig lifande, seger David, Ps. 119. þad stiller þann andlega

Hiar-

Hiartverk med Guds Naadar Fyrerheitum.

6. Lestu Guds Ord, so sem þa Book, epter hverre þu att sijdar ad dæmast; Pad Orded sem eg hefe talad, mun fordæma hann a siidarsta Deige, seger JEsus, Joh. 12. Hvern þa? Pann sem athugalauslega las pad og heyrde, og lagads est ecke epter þvi. Ef þu liser epter þessarar Bookar Innehallde muntu verda frij-dæmdur, enn liser þu þar þvert a moote, muntu epter henne fordæmast. Par eru tvær Bækur, sem þu skallt lesa med mestum Athuga, Book Samvitskunnar, og Book H. Ritningar. Onnur a ad verda þier ad Vitne, onnur ad Doomara, lat þa fyrre lagast epter þeirre seine; Ef þu giæter alls þessa, þa þu les Guds Ord, þa er eg viss pad kiemur ei toomt til hanns aptur, helldur færer þvilijkur Lestur þann Avoxt hia þier, er sijner sig bæde i Ordum og Verkum Gude og goodu Foolke þocknanlegann.

7. Enn so miked sem a þvi rijdur ad lesa Guds Ord med Andagt og Athuga, so rijdur og ecke minna a ad hlijda þvi med hinne mestu Eptertekt og Gaumgiæfne, so ad ecke eige heima hia oss pad O Rottenn klagar yfer hia Ezechielem, þeir munu koma til þijn, og sitia fyrer þier sem mitt Foolk, og heyra þijn Ord, og eckert giora epter þeim, Ezech. 33. Giætum þvi fyrst þess þa vier hlijdum a Guds Orda Framburd, ad pad er sialfur Gud sem þa er vid oss ad tala

Nær Kongurenn talar, hlijda Menn med Gaum-giæfne; enn Gud talar fyrer Predikarann, so framt þad er Guds Ord sem hann talar, og ecke hanns eiged Heila Rugl, edur wr annarra Skrif-um til Laans tekenn Þvættingur; þvi skylldu Meñ þaa ecke med Athuga hlijda aa Tal hanns, sem er Konungur Himens og Jardar? Þegar Samuel vard þess var, ad þad var Gud sem talade til ha-nns, sagde hann: Taladu DRottenn, þinn Þienare heyrer þad, 1. Sam. 3. Sea sem foragt-ar ad hlijda, þaa Gud talar i sijnu Orde, skal verdá ad hlijda, þaa hann talar i sinne Reide, Ps. 2. Athugum þar nærst Vigtugleika þess Ef-nis sem vered er um̃ ad tala: ofs ber ad vera o-drucknum og aarvokrum, ad vier þvi betur getum hlijdt. Eg tek Himen og Jørd til Vitnis yfer ydur i Dag, sagde Moses, ad eg hefe sett fyrer ydur Lijfed og Daudann, Devt. 30. Vier pre-dikum Christum, og þad eilijfa Lijf fyrer vorum Tilheyrendum, mun þad ecke þess verdt ad epter þvi sie teked? Þad er ecke eitt forgiefens Ord til ydar, helldur Ord ydar Lijfs, sagde Moses, Devt. 32. Þu aatt hier ad auk ad muna þad þu heyrer, enn hvernenn gietur þu munad þad? nema þu taker epter þvi; margur klagar hann giete ecke munad: Ordsokenn er; Gud straffar sumra Ept-ertektaleise med Gleymskunne, og lijdur ad Sa-than stele burt Ordenu: Himensins Fuglar eta og einneñ Sæded, Matth. 13. Maaskie þetta sie i

seinasta sinn þu heyrer Guds Ord lesed edur predikad, kannskie þu verder ad gaanga strax fraa þeirre Predikun, edur Lestre þu heyrer, og strax inn fyrer Doomenn. Þesser og adrer þvilijker Þaankar eiga ad upporsa oss til Andagtar under Guds Orda Heyrn; þu hlijtur ad standa Reikning af hveriu þvi Orde sem þu heyrder enn hyrdter ei um̃ epter ad taka; ef þu giæter þessa vel, þaa mun ei Guds Ord koma toomt til hanns aptur, helldur færer hann Avoxt hiaa þier, sem Gud hefur tilætlad, þvi þad er lifande og kroptugt, Ebr. 4. þad er bæde Sverd, til ad burtsniida Syndena, og Spore til ad upporsa Naadena. Elldurenn þijder þann Hlut sem froseñ er: Guds Ord miijker stockfredenn Hiortu. Er mitt Ord ecke sem Elldur, seger DRottenn, Jer. 25. Brañ ecke ockar Hiarta i ockur, sogdu þeir tveir Emaus Reisendur, Luc. 24. Jaa, þegar Guds Ord er þannig med Andagt og Athuga lesed, og yferveg-ad, þaa giorer þad allann Manneñ andlegann. Sniooreñ, þaa hann yferklæder Jordena, giorer hann, ad hun verdur sier siaalfre olijk og obeckianleg, so um̃breiter Guds Ord ollum Mannenum, þaa þad slitur hann wr Rijke Sathans, i Rijke Christi, Col. 3. þad giorer oss andlega siaande, sem aadur vorum andlega blinder, þvi þad upplijser Augu vors Skilnings, DRottens Vitnisburdur giorer Hiortun̄ higgeñ, Ps. 19 Vier siaaum i Underdiupenu Kvaler fordæmdra, og

Himnum Sælu Utvalldra ; og Rœdenn til ad fordaſt hitt, enn odlaſt þetta ; þad giører vſs andlega heyrande, ſo vier gledium oſs af þvi til vor verdur ſagt : Vier ſkulum inngaunga i Hws DRottens, Pſ. 27. þad giører oſs andlega veltalande ; ſo leinge Menn fram-ana i Syndenne eru þeir ſo ſem Maal-lauſer, ſo ad jafnvel Bæn hiñs ogudlega verdur ad Synd, Pſ. 100. þvi ſeger David : Hefda eg nockurt oriett i mijnu Hiarta, þaa heyrde DRottenn ecke miina Bæn, Pſ. 68. Gud bænheyrer ecke ſyndugu, ſagde ſaa ſem blindur var borenn, Joh. 9. Enn þegar Guds Ord heyreſt med athugaſomu Hiarta, þaa kiemur Trwenn fyrer þeſs Heyrn, Rom. 10. med henne ümſvdmum vier Chriſtum, fyrer hvern vier hofum Diorfung og Adgaang i fullu Trauſte fyrer hanns Trw, Eph. 3. ſem er Forlijkun fyrer vorar, og ecke einaſta fyrer vorar, helldur allar Veralldarennar Synder ; 1. Joh. 2. ſo ad Tuugann vor hefur Diorfung ad upplyſta ſinne Bæn i Skijen til Guds ; Bæn hins riettferdugu maa miked þaa hün er alvarlig, Jac. 5. Vier erum ſeinfætter, Jaa, draghallter, ad gaanga aa Vegum DRottens, og þo vier ſieum endurſædder, briootum vier aller margfalldlega, Jac. 3. ſaa hinn riettlaate fellur ſiø ſinnum, Prov. 24. enn Guds Ord lagar ſo vort Edle, þaa vier tokum riettelega epter þvi, og vidriettir Krapta þeſs andlega Lijfſins, ad vier bæde vilium giora

og gietum giort, þad Gud vill, og heyrer til vor-
rar Sæluhiælpar, þad greider Fætur vorar fram
á Veg Fridarens, Luc. 1. Paull áminner i Pist.
til Hebr. 12. Cap v. 13. Giøred riettañ Gaang
med ydar Footum, so þad sem hallt er, fare ei
framar villt. Allt megnum vier fyrer Christi Kr-
apt sem bijr i Ordenu, enn eckert án hanns: An
mijn fáeð þier eckert orkad, seger hañ, Joh. 15.
Gud er hann sem i oss verkar bæde Viliañ og
Mattteñ, Philipp. 2. enn fyrer hvert Medal?
Fyrer sitt blessad Lijffins Ord. Sniooreñ fellur
vor Loptenu yfer Jordena: so edla Gaafa Guds,
hanns blessad Ord, er ofann komed fra Fodur
Lioosanna, Jac. 1. þvi sá eingietne Sonureñ
sem er i Fødursins Skaute, hefur oss þau op-
innberad, Joh. 1. Sniooreñ hefur Miall-hvij-
tann Lit; Orded Guds er Lioos á vorum
Vegum, og Lampe Foota vorra, Ps. 119.
Sniooreñ smelltur af Soolar Hitanum, vokvar
Jordena; Guds Ord af Ellde H. Anda Kraptar,
smelt i vorum Hiertum, vokvar vorar Sæler;
þvi hver hann dreckur af þvi Vatne sem eg
mun giefa hønum, þad er, hver hann hlijder
minne Kienningu, hañ mun hañ ecke þyrsta ad
eilijfu, seger JEsus, Joh. 4. Sniooreñ hlijfer
Jordenne vid Frostenu; Guds Ord hlijfer oss vid
øllu þvi, sem ordsakar Uppvisnan Gudhrædslunn-
ar, þvi þad er þad oforrotnanlega Sæde,
1. Pet. 1. Sniooreñ nemur hellst Stadar i

Lauglendenu, enn fijkur af þeim hann Fioskunum; Guds Ord særer hellst Avoxt i lijtelaatum Hiörtum, enn wor þeim af Drambsemenë uppblaasnu Hiörtum sijkur þad, þvi Sathan, sa ille Ande Drambsemennar, stelur þvi þadañ, Matth. 13. Þegar Sumared kiemur, Soolenn skijn og vermer, þaa siest hellst hvert Gagn ad Snioorenn hefur giört Jördunne; Þegar þad eilijfa Gledenar Sumar kiemur, og Sool Riettlætesins uppliiser og vermer vorar Saaler og Lijkame, þaa reynum vier fullkomlega, hversu gott þad leider epter sig, ad taka epter Guds Orde, og færa af þvi Avoxt i Þolenmæde.

O! Þu allra ylmsætasta Ord þijns himneska Födurs, HErra JEsu Christe! Gief þu ad þesse hier ad framañ töluð, samt öll önnur þijn Ord, verde öllum þeim, sem þau lesa edur heyra, Ilmur Lijfsins til Lijfsins! Þier med Födurnum og heilögum Anda, sie Lof og Dijrd ad eilijfu, AMEN.

---

# Bænar og Packlætis Vers,

## i Sumar Jñgangu,

kvedenn af Profastinum Sr. Sigfusa J. S. Son, Eilijft Lijfed er æskilegt.

Nu Eñur oss upp ad niju nu, Nädar og Sumar Lioos, margfalldest Lof þitt, minn JEsu, Magt, Æra, Dijrd og Hroos:

Ur-

Ur Hafi Misgiörda hroopum vier, i Haf þinar Myskunar-Biarge ofs þijner Blood-Læker, burt-þvoe Syndernar: Lioos þinnar Nadar lioome betst, Lioos Trwarinnar vidnærest, Lioos þinna Orda lijse hier, Lioos skyne Kiærleikans; Gief i Lioosinu gaungum vier, glæd þu Lioos Skijrleikans: Med Börnum Lioossens blessader, byggium Lioos Himna-Ranns.

O! Þu blessade Alldanna, eilijfe Fader kiær, met þu ofs Skipte Missera, i Myskun þinne vær, med niju Sumre hinn nija Mann, Nadeñ þijn upplijsge, so þægilegur þier sie hann, þinn Vilia stundande; Samvitsku Þianing sefa nu, sofande Hiortunn upp vek þu: Hryggvum vertu trwr Huggare, hiálpande Naudstoddum, Ifervalldañа Verndare, Vorn betsta Þegnunum, Kiör-Hnotsid allre Christnenne, kröftug Roo Deyendum.

Sumar-Giof JEsu siertu vor, Sumar Farsællda veit, Sumarsins helga sierhvört Spor, Sumar-Faung giefdu neyt, Sumar Fridar og Samlyndis, Sumar Lijfs Betrunar, Sumar innra Manns Sælgiætis, Sumar Guds Naadar: Synda Kvittunar Sumar gief, Sumared þinne Blessan vef: J Sumar ef burtu sofnum vier, og swpum Daudans Skal, eda hvenær sem þocknast þier, þrioote Lijfs Reisa hal, i Sumars eilijfa Samvister, sialfur tak vora Saal!

## Vers i Sumar Utgaungu.

Ton, Lofed Gud, lofed hañ hvør sem kañ.

Lofum Gud, lided er Sumared, hægofgud, Hiarta Lofgiørdum med, sie Polinmæde þijn og Nad, Þrenning blessada, Hlwkun, Vernd og Hiaalpar Rad, vid Heiminn sakada: Þad til er, þier Lof-Saung bioode, þar fyrer: Þu Fader goode! Hønd þijn hier, hrinde frá Moode, hana kyssum audmiwkt æ, prijse JEsu Hiaalpar Hønd, Himiñ og Jordin, tegdu þar til Lijf og Ønd, litla Guds Hiørdiñ.

Avi! Hvad, opt høfum styggdann Gud, grætir þad, Guds Nad er foroktud: Hanns er Ande hrelldur tijdt, Himin saurgadur, mijnum JEsu mootþ strijdt, Mammon elskadur: lemstrud Saal, hnidt vid Osooma, Verk og Maal, vanid Hiegooma, þiker Briaal, ad heynkia um Guds Dooma: Væg oss DRottenn vesælum, snw oss JEsu, sneidtu Pijn, snijd Synda-Bandid, bw oss JEsu burt til þijn, æ blessada Landid.

JEsu minn, jeg sel i Hendur þijn, Saudinn þinn, Saalu dijrkeypta mijn, Græt-þiakada; Gud veit þad, goode Meistare, þad æliste þitt Hiartad, og þessu til svare: Amen Jaa, eg sie Nand þijna, kom og sa, Kvolldmaaltijd mijna, vert mier hiaa, eg vil þier ei tijna. Þad gooda Andsvar gnæfir allt, þaa er Hiarta bætt og blijdt, Bolid er unnid, og eilijft Sumar Jndis-þijtt,

upp

upp aptur runnid.

## Vers i Vetrar Jńgangu.

Von, Sæler eru þeir aller nu.

STrijds-Merke JEsu under enn, uppbyrium Vetur christner Menn, andlega berjast eigum, sem herkner Strijds-Menn HErrans þoo, hver syrer oss a Krosse doo, uppgiefast ecke meigum: Verum trwer og vakande, vongooder ætijd bidiande, sem kiemur Sigurvinning: J Fridar Einingu framgaungum, fyrer Varnar-Skiolld æ hofum, Christi Kross-Dauda Minning.

Vertu JEsu i Vetur med, verm og upplioomia Saalar Bed, med þijnu Orde og Anda, reisa oss dijru Riettlæte, reidstu ei voru Ougleyse, hijr virdstu hiaa oss standa, Orvæntingunne a burt hrind, eyd sem Skij-Flooka vorre Synd, dagleg u deil oss Braude, saaluhiaalplega send þu Nægd, sijndu i ollum Naunum Vægd, er þienar þijnum Saude.

Eg fel so endurleysta Ond, O! sæte Gud i þijna Hond, med ollu þvi er og orka, i Lijfe, Deyd og Doome bid, O Drottinn JEsu mier veittu Lid, brioot Satans Bana-Forka: Halld þu mier JEsu hraust vid þig, HErra JEsu ei forlaat mig, gief mier vid þig ad þreya, laattu mig JEsu l ifa þier, lijka deya nær hiedann fer, og sijngia eilijft, Eya!

Vers

# Vers i Utgaungu Vetrar.

Tou, O Gud vor Fader sem i Himnarijke ert.

HImneska Fødurs Hiartagiædsku Hlijendenn, yfir innra og ytra Mann, i Vetur sveimad hafa, oll Hægd og Blessan af hanns Hendi er wtflotenn, Nægtinn af Brunne Nᴂdar rann, nidur til vor sialfkrafa, midt i þvi sem hann moodgum vier, Myskun hans ad oss streymer: O! hvad Madur er Minnis-þver, til Milldi Guds varla dreymer, þo hiᴂ oss Daga alla er, sem Auga Siaalldur geymer.

Jündælust JEsu Adstod þijn og Augna Vakt, vegsamist bædi a Himni og hier, um Heims giørvallar Bygder, þier sie Hroos, Æra, Hᴂtign, Vellde, Heidur, Magt, lofe þig allt hvad i oss er, fyrer eilijfu þijnar Trygder: Veri blessad þitt Vængia Skiool, vel hefur þad oss dugad, þitt blijrmæta Sannleiks Ord oss Ol, engin Hormung sieck bugad, O! þu Riettlætis sanna Sool, þier æ sie um oss hugad.

HErra JEsu, er Hrygda Vetur hærstann faist, og Freistinga Elinn scarleguft, fyrer oss Synd-þiakada, hvar med eilijfar Værder Sᴂlunni vorum vanst, og Hlijendenn Sælu hagstædust, heim leid oss i þier glada. Þo lijdum Skwrir Hrygda hier, HErra verde þinn Vilie, þolinnmoo der gief þreyum vier, Þiᴂninga-Tijmans Bilie, enn engin Hlutur oss fra þier, O JEsu

JE-

JEsu Kilie.

## Eñ Psalmur i Jñgaungu Sumars.

Ton, Arid hijra, nu bid nija.

NU i JEsu Nafdar Nafne, nijtt Sumar ad lidnum Vetre byria ber, Ar sierhvert, þo Efe safne, ad hun kortad stitter Fet, þad vitum vier; Dagurinn einn fær annañ Vottinn, alldrei so þad dreast i Hlie, hver añari hermir Noottinn, hversu D Rottinn, agiætlegt ad prijsa sie.

Leatum oss af Alwd þacka, allt þad Lean, sem Vetur þenna, Gud oss gaf, vier sem hofum sied og smackad, sæta hanns Ast og Nadar-Rennu aused af: Yfer Synda breidest Blette, Blooded JEsu, Pijna og Deyd; Gief ad sierhvor sig vidriette, so ei dette, i Glotun og Andar Neyd.

Blessun nija af Lopte og Leade, lijka Sioa og Votnum sende goodur Gud, hann einn stioorne Esne og Nade, adstodande, so oss hlotnest Biorg og Braud: Hws, Menn, Kvinnur, Hiw og Vornenn, hanns abreidest Vængia-Skiool, vere hann Voludum Vorninn, villtum Stioorniñ, Grættum fogur Gledi-Sool.

Yfervolldenn audge og blesse, allra Hofud-Stietta Stod og Styrkur sie; J sijnu Kalle sierhvern hresse, so gudlega kynnum mettast Fridi og Fe: Þeim i Sorgum kvalnir kvellter, Kastaletrwr sie D Rottins Nafn; Hvernenn sem hier ymsu

ymsu eldter, og Vo sier velltar, vor Gud er Þo
samur og jafn.

Sæal og Lijf, Embættid, Æru, og Þad Læan
sierhverium gaf Guds Hiælpar-Hond, honum
allt offrum og færum, ofs hann veite Styrk og
Stod um Log og Lond, þa vier skulum skiliast vid-
ur, og skomtud linnir Heimsins Tof, i Dijrd in̄-
leide ofs med ydur, og Guds Fridur, sie vor allra
Sumar-Giof.

## J Jngaungu Vetrar.

Med sama Lag.

JEsu Nafne nu inngaungum, nij æ kom-
na Vetrar Tijd, sw bendir bræatt, ad hv-
er Mann med Efterlaungun, æ til Guds
med Þockum vende hlioott og hæatt, innre bæde og
ytre Kraftar, ætti nu ad heyra og siæ, Morgun
hvorn og eins um̄ Aptan, Skylldu skapta, Skap-
arans Verk ad minnast æ.

Hann gaf Byrtu Soolar sinnar, sekum ofs,
enn Skwrer sette Akra æ, og vor minntest, eins og
hinna, er Lijfernis Ferel riettann giordu gæa. En̄,
Gud næde! swr Ber Synda, samt vier bæar-
um þar æ moot; Tijd mun Hyrduleyse ad hrin-
da, Hiartans blinda, med Jdrunar riettri Root.

O hvad marger i burt deya, ofs til drecka þess-
er Daudans skeinkta Skæal! O, hvad marger
epter þreya, og metta med Harma Braude sær-
da Sæal! Vid þau Dæminn vakna gæaum, vort

Tak.

Takmark er einnig nær, og i Tijma ad oss sam̃um, ei meir saum Dagenn þann, sem gafst i giær. Drotten giefe oss goodar Stunder, giorvallre þvi a hann Hyggiu vorþum vier; Þeim sem svijda ysdar Under, yfergiefner lijka sijnast um̃ Heim hier; Minn Gud! yfergief þa eige, ecke þeim fiarlægur siert, þu hefur þo Þusund Vege, ad þeirra Trege, i Fognudenn snwist bert.

Þier i Skaut Þry-Einum HErra, þeim sem alls a Himne og Jordu giorer gaa, allt mitt Raad eg vil innvefia; Oss þitt Skiool og Skugga giordu i Lyfn ad liaa. Senn mun eilijst Sumar skijna, Sorgar epter lided Jel. Vor Gud annest alla sijna: mig og mijna, Myskun hañs eg jafnann fel!

## Psalmur i Jñgaungu Sumars,

### kvedenn af Sr. Magnuse E. S.

Ton, HErra þier skal Heidur og Virding greida.

HEer Dagar eiga Kvolld um̃ sijder, Ar, Missere, Maanada Tijmar frijder, Viknr, Stunder, stijladar Munder, Stioorn Guds under, standa Heims um̃ Tijder,

Hann er saa, sem Himin Lioosum prijdde, Haudred breida fogrum Bloomstrum skrijdde, og Fiska um̃ Geima, Fiolld liet sveima, sijdst þvi gleymia, syndugum Mønnum hlijdde.

Hañ er saa, sem hreinum Vøkva fleyter, af Himins Skijum, Jord er Avøxt veiter, so saum Vær

Bætur, Fadirinn mætur, fyrer oss lætur, sijn Foot-Spor driwpa af Feite.

Hann ver Drep-Soott, Hallære og Strijde, i honum lifa, eru og hrærast Lijder, Upphaf stendur, hanns i Hende, hier med Ende, og Heims giervallar Tijder.

Hann er sa, sem hveria Skiepnu sedur, hwngrada fyller rijkum Giædum medur, lietter Naudum, lyknar Snaudum, Lijfed Daudum, fær, og Grætna gledur.

Hann oss alla Astar Ormum vefur, og i sijnu Lijfe bored hefur; Hann oss grædir, hann oss fædir, hann oss klædir, hann oss Giædi giefur.

Hann er sa, sem Hiartans Naudum fargar, Hiælparlausum milldilega biargar, Krapte hreinum, hrinder Meinum, hañs vier reynum, Mysk unsemder margar.

Hann er Skiolldur, Hæle og Skiooled betsta, Hlijfdar Mwr þeim vid hann Trygder festa, þolinnmoodur, þijdur, goodur; Heidur og Hroodur, hanns skal alldrei bresta.

Himins og Jardar hærste Allraadande, þu hefr oss eñ i þessu voru Lande, Millde þijna, og Myskun sijna, er mæ ei dvijna, audsijndt Opreytande.

Þvi a Vetre þeim, sem nu er lidenn, þu oss lienter Blessan, Heilsu, Fridenn, hagstæd Vedur, Hiwkun medur, og hellst sem gledur, Lijfs og Lima Gridenn.

Eins

Eins sem Fader Elsku og Dygda-rijkur, ollu Goodu ad sijnum Børnum vijkur, eins þu breitt-er, allt Gott veitter, og ad oss fleytter, eingenn er þier lijkur.

Eru og Dijrd þier aptur skulum giallda, fyrer Elsku, Trygd og Blessan þusundfallda; Hvad sig bærer, hvad sig nærer, hier þier fære, Lof, og um̃ Allder Allda.

Vorra Synda Minning oss nu mæder, sem medur Paunkum, Ordum, Verkum bæde, safnaðum, sijst ad gaadum, sialfs þijns Raadum; Hefndinn straung þvi hræder.

Fyrer bloodug Saar og beyska JEsu Pijnu, Bræde hest, enn afmaa Synda-Lijnu, Sekudum vægdu, Hegning hægdu, Hrygder lægdu, og lijkna Foolke þijnu.

Sumar-Tijman̄ nu vier byrium nija, naaduge Gud! og til þijn giörum flija, i JEsu Nafne, Sorga Safne, svist; Enn dafne, Fridur og Gleden̄ frija.

Himninum virdstu hier ad ofann biooda, hann yferdoggve Jardarennar Grooda, so Avoxt bæte, oss og nære, ein̄inn fære, Argiædskuna gooda.

Blessa oss wte, Bootenn allra Nauda, blessa Avoxt Nauta vorra og Sauda, blessa Heimkynne, blessa oss inne, Blessan þinne, blessa i Lijfe og Dauda.

Himin, Jord og Hafid med sijn Giæde, hialpest ad og styrke vort Biargræde, Audna, Vægd-

 er

er, Hiwkun, Hægder, Heilla Nægder, oss fadme, gledie, fæde.

Minstu ad siertu Mwr og Vorn glooande, sem moote øllum Hervijkingum stande, og hrekie Snauda, i Hafid auda, Hel og Dauda, fra voru Fodur-Lande.

Stid þu Kongsins Stool og Erfda-Sæte, Stioorn hanns prijde Vitska, Nad, Riettlæte, pitt Himlprýde, hann umklæde, og Heillum giæde, med Fognud og Fridar Mæte.

HErra þijna Hyrdarana alla, a Hædum Zions þeir ed vaka og kalla, klæd i Mædum, Krafte af Hædum, Christi Rædum, hia oss lat ei halla.

Valldsmonnunum Vitsku og Skilnings Anda, veit, so kynne i sijnu Kalle standa, hefia frooma, enn Hefnd og Dooma, hinum rooma, sem Gridum og Fride granda.

Elska, Fridur, Eining og Samlynde, Egta-Foolksins Hiortu samann binde, so Bod þijn hallde, Kijf og Kallde ei kome ad Giallde, enn frioosgest Fridur og Ynde.

Lattu mijkiast Hiortunn þau Stein-hordu, Hressing finna þa hina sundur-mordu, siwka grædast, synt uga hrædast, Huggun giædast, þa hier græta giordu.

Freistader aller selest JEsu Sarum, so finne Takmork sijnum Eymda Barum, þeirra hrædda, Hiartad mædda, Hrigdum klædda, fyll med

Fride klaarum.

Þeim deyendu þyrm i Naad og vægdu, þeirra saaru Andlaats Kvolum hægdu, fyrer JEsu Dauda, og Dreyrann rauda, vor Diwpe Nauda, þaa drag, og Kvijda lægdu.

JEsu, laat þitt rauda Blooded blæda, at Born þijn oll og Saalar Under græda, fyrer þijn Saarenn Sorg og Taareñ, oss gief Arenn, eilijfra Sumar Giæda, Amen.

## Psalmur i Inngaungu Vetrar,

Ton, O DRotteñ allsvalldande.

DRottenn allsvalldande, under hvers Stioorn ad lifum vier, af Hiñne, Hafe og Lande, sem hagkvæma Blessan medeiler, þu lienar Vord, Lijd ad næra, lætur Jord Avoxt færa, Þackargiord þier syngest og Æra.

Þu af heilogum Hædum, hingad ofann leitst til vor, wtbijtter Gaasum, Giædum, med Goodgyrne draup hvert þitt Spor, ei þijn þver, Elskañ hreina, æ sem vier meigum reyna; Lof sie þier Lækner allra Meina!

Grunnlaust Haf alls hinns gooda, og Giædsku Brunnur ertu hreiñ, Naud og Þiaaningar Þiooda, þu aalijtur i Millde einn, margfolld þar mest vnaumur, Myskunar þinnar Straumur, Giæde oss bar, gledst þvi Madurenn aumur.

Eins sem ad einne tijdust, onnur fylger Baara aa Sioo; eina so efter frijdust, onnur Naad framkiem

kiemur þo, þar ä nein Protei verda, þegar Mein ad oss herda, þijn Giædskann hrein, giorer vort Bol ad skierda.

Þeim sem i þessum Heime, þrädu Dvol fyrer vora Tijd, af DRottenns Giædsku Diwpstreyme, Drickur veittest og Svolun frijd, vid sama Brunn Sorga i Hreggium, Sælar Munn enn vier leggium, Nädenn kuñ næger so hvertveggium.

Þesse Uppspretta ei þrijtur, fyrer Þurd og Skort ei undergär, af somu Blessan framflijtur, forn ä medann Heimur stär, gofgum þann Gud sem veiter, og glæpugann so vid breiter, aumann Mann, ymsþä Mæda þreiter.

Sumarsins lystelega, ad lokum runneñ nu er Tijd, O minn Gud! alla vega, oss þijn hiwkrade Nädenn blijd; Himin, Jord, Häfed vijda, hreifde Vord aumra Lijda, engenn spord oss var Giøfenn frijda.

Blessan, Heilsa, Faung, Fridur, Farsælld og Roo i hverre Stiett, af Hædum flaut hingad nidur, hefur þu DRotteñ lijka sett, Verndar Skiolld, voru Lande, Vondsku Olld so ei grande, Synda Giolld sijst ä oss leggiande.

Þetta allt hofum þeiged, af þinne Näd med engre Nyrd, þar fyrer þier nu segie, Þackarord, Heidur, Lof og Dijrd, Himen blär, Haudur, Geymar, hvad þar stär og inne sveimar, allar Krär, efre og nedre Heimar.

Þo ad nu hafe þanneñ, þyrmt oss og hiwkad Giæd-

Giædskann blijd; O Drottenn! margañ Mañ-enn, mæ finna lidna Sumar Tijd, þijdast Ged, þitt sem stigde, og þwngum med Glæpum hrygde, sviptast ried Saalar øll Heilbrigde.

Fra Hvirsle og allt ad Iliuni, Orkumleñ dwypu berum þvi, æ Fader! vier þo vilium, vid þig fridmælast enn æ ny, so Lækning þijd, lienest Saarum, linne Strijd, þurde Taarum; nær þiñ Lijd, Nædar Dropum klaarum.

Fyrer Frelsárans Saarenn, fyrer hanns beysku Saalar Neyd, fyrer hanns felldu Taareñ, fyrer hanns Hlijdne Blood og Deyd, Brot margfolld fyrer giefdu, ferleg Giolld øll uppheſdu, so hitte ei kolld Hefnd, enn Nææd uñ vefdu.

Himens Vedurætt væga, æ Vetre gef oss nu byriudum, hier med Tijd heppna og þæga, hamla Olucku Tilfellum, eidest Tioon Ellds Onaumæ, eins uñ Froon Vatna Strauma; þijn hædst Uñsioon, hwpe oss vesla og auma.

Stijr fra Storm Vinda Megne, Stoorsoottum, Dijrtijd, Flug-Elldum, Hagle og Hæska Regne, hamla skadsomum Ovedrum, Magt brioot hier Myrkra Anda, so megne ei þver, neinu granda, samt af ver Slisum allra handa.

Heyrdu Kvein, horfdu æ Taareñ, hiartkiære Fader! Barna þijn, græd vor Samvitsku Saareñ, Saalar og Hiarta myktu Pijn, þeim Sorgerfann, Fognud tærdu, freistadañ endurnærdu, villtann Mann æ Vegenn rietta færdu.

Krossþinada christna alla, sem kremur einhver Sorg eda Neyd, og veinande um Vægd þraa-kalla, Vænge Myskunar yferbreid, þijn Hiarta Digd, Hiartans Fader, hrinde Stigd, so ei skade, enn sialfs þijns Trigd sieum innsveipader.

JEsu sem Daudann deidder, med Dauda þijnum saklausum, enn aftur Lijfinn leidder, lyk-nadu ollum Deyendum, Lijfs vid Maal, liettest Mæda, Lijfsins Skaal þinna Æda, dreip aa Saal, og Dijrdar flit til Hæda.

Epter afsidenn Vetur, Utlegdar Mædu i Ver-olld hier, giefdu oss Glede Adsetur, Gud i him-neskre Dijrd hiaa þier, hvar þurda siest Sælu aunga, sijst reinest Mædann þraunga, enn unum best vid eilijfa Zions Saunga, Amen.

## Sumar Heilsan, Kveden af Profast-enum Sr. Hallgr. E. S.

Ton, Hiartad Þankar etc.

SAlve Blooma Sumared rietta, Salve Dagurenn hlijr og vær, Salve Liooma Soolenn metta, Salve Hagurenn nijr og kiær, Salve Fugla Saungur hijr, Salve Jardar Groodur dijr, Salve Hlijda Sælu Minden, Salve þijda Kiælu Linden.

Innstu Dygda Akurlende, Avoxt bioen fære fioott, verde Stygda Vetrar Ende, Von og Trwen næ rest fliott, Elskan sprette og Andmijkt-inn, og Andans riette Bloomenn hinn, þad Sum-

ared innra ſolne eige, þo Sumared ytra folna meige.

O Rottens Myſkun diwpuſt hylie, driijdra vorra Synda Hæd, Sandkorn lijted ſem ad dylie, Siœfar Haſſins meſta Ed, allar hwadne Arœſer, ſem Jſeñ brœdne Glood fyrer, Angurs-Kiœlann oll ſw hlijne, eins og Sool i Heide ſkijne.

O Rottens Smurda Sumar-Soomenn, ſijvaxande krijne hœtt, Chriſtur ſtyrke Kiennedoomenn, ſo kunne vinna Diofuls Mœtt, Villo-ſtiett rate veralldlig, Virſkunnar þann retta Stig, Hwſſtioorn Biorg og Bleſſan ſœe, beſt hver ſinnar Skylldu gœe.

Girding vor ſie Guds Hiœlpræde, Groodrar Doggenn JEſu Blood, Jndes Blæreñ, Andans Giæde, Orded O Rottens lijſi Piood, Lækne oſs Sœrenn Lauſnarans, lauge Tœrenn drey rug hans, Sacramented Sœlena neſte, ſinn ei Hollded Vordenn breſte.

Sumared Nœdar ſo vier holldum, ſijpriiſande O Rotteñ Gud, ad Dyrdar Sumar œ effſtu Olldum, oſs veiteſt med Hœ-Fognud, Sumar og Vetur ſie þier Dyrd, Sumars og Vetrar HErrañ ſkijrd, þig Vetur og Sumar vier œkollum, Vetur og Sumar Lykna oſs ollum.

## Sumar Kvedia.

Med ſama Lag.

Far vel Sumared fœgad Blooma, Far vel Dagureñ blijr og vær, Far vel Soolen full af Lioma. Far vel Hagureñ

